GUNNAR GUNNARSSON

# VARGUR Í VJEUM

SKÁLDSAGA

Í íslenskri þýðing eftir
VILHJ. Þ. GÍSLASON

REYKJAVÍK
ÚTGEFANDI: ÞORSTEINN GÍSLASON
MCMXVII

# I.

Drukkinn maður! — Dýrleg skemtun!

Æskulýðurinn ryðst fram og roskna fólkið greikkar líka sporið. Víst er það gremjulegt! En þó sakaði ekki að sjá það. Á örskamri stund hnappast hópur fólks á öllum aldri kringum manninn drukna, sem stendur þar og talar og baðar út höndunum. En að eins þeir, sem næstir standa, heyra hvað hann segir.

Gluggum er hrundið upp niður eftir allri götunni, og þeir fyllast fólki, einkum kvenfólki.

Spurningar og svör, gamanglettur og gremjuóp, gellur hvað um annað.

— Hver er þetta? — Drottinn minn dýri, þessi líka landeyða! — Og þó hafa ekki skip komið hingað vikunum saman, — hvaðan úr fjandanum fá þeir þá vín? Ahaha, manstu þá ekki að það er til dálítið, sem heitir lyfseðill — og lyf er mikið fremur rúmt hugtak. — Sjerðu hver það er? Nú-ú — einhver drykkju-dóni! — Annars er einlægt hægt að fá vín, ef nóg er um skildinginn. Jeg skal til dæmis segja þjer, hjerna á dögunum .... — Það er Úlfur! Nú, mjer datt það reyndar alt af í hug. — Úlfur Ljótsson? — Hvað segirðu maður? Níu krónur fyrir eina flösku, það er nú aldrei að

segja! .... En hugsaðu þjer hver kvöl dómkirkjuprestinum hlýtur að vera að slíkum syni, og þar á ofan er konan hans í geðveikrahæli. Vesalings maðurinn. — Betra fólkið er verst, það hef jeg alt af sagt. — Betra — o, jeg held við sjeum öll jafngóð! En nú skal embættismannahyskið fá að kenna á því, því nú höfum við verkamennirnir stofnað okkur fjelag. Nú skal skifta eitthvað um. — Svona á að sauma að þeim!

Gremjan er megn. Og gleðin mikil.

Maðurinn drukni rausar stöðugt og rekur hnefana út í loftið og slangrar fram og aftur, eins og hann stæði á vaggandi skipsþiljum. En orð hans drukna í hávaðanum í kring.

Lögregluþjónn, sem óvart hefur nálgast hópinn eftir þvergötu einni, snýr snarlega við og stikar með valdsmannssvip í öfuga átt.

— Hæ, þarnana! Maður nokkur æstur í skapi, með templara-stjörnu í jakkahorninu nær honum á hlaupi og stansar beint fyrir framan hann, eins og hann hafi í hyggju að stöðva hann með valdi.

— Eru þjer bæði heyrnarlaus og blindur, maður! — hið mikla efrivararskegg æsta mannsins titrar af reiði.

— En þetta er sonur dómkirkjuprestsins, svarar lögreglumaðurinn kæruleysislega, yptir dálítið einkennishúfunni og klórar sjer í höfðinu. — Og þar að auki er hann í stjórnarráðinu ....

— Mjer er alveg sama, þó það væri dómkirkjupresturinn sjálfur.

— Dómkirkjupresturinn drekkur ekki.

— En jeg segi: Þó það væri dómkirkjupresturinn sjálfur, ætti að taka hann fastan og láta hann gera grein fyrir, hvar hann hefði fengið þetta óþverra-eitur. — Eru þjer

lögregluþjónn — eða eru þjer ekki lögregluþjónn? — Og er hjer bannland — eða er hjer ekki bannland? Jeg bara spyr.

— Já — jú.

— Jú, en maður á bágt með að trúa því, þegar maður sjer svona uppþot.

— Já, maður á bágt með það. En er það líka ekki hatramt, að menn skuli ekki vera betur vitibornir en það, að drekka sisona og gera óspektir, ha?

— Ef þjer takið manninn ekki fastan, fer jeg beint til bæjarfógetans og kæri yður.

— Jújú, vitanlega verður hann tekinn fastur — jeg ætla að eins að sækja fjelaga minn — hann hlýtur að vera hjerna á næstu grösum. Og lögregluþjónninn ber fingurgómana í flýti upp að einkennishúfu-skygninu og gengur burtu hröðum skrefum. — Skollinn sjálfur fari að sletta sjer fram í þetta. Maður yrði bara að athlægi, eins og vanalega .... Reyndar hefði jeg ekkert á móti því, að hafa einu sinni hendur í hári úlfsins. Hann hefur ert mig svo oft, óþokkinn sá arna.

Maðurinn drukni er kominn af stað aftur. Uppþotshópurinn, sem smámsaman er orðinn að heilli skrúðgöngu, eltir hann ofan götuna með hlymjandi háreysti. Flokkur barna og unglinga, sem mynda nokkurs konar lífvörð í kringum hann, æpa ósleitilega hvert í kapp við annað.

— Úlfurinn ýlfrar! — Úlfurinn ýlfrar! — hlustið þið nú á!

Hann slangrar áfram í miðjum hópnum. Hann er hár, óvenju sterkbygður ungur maður, klæddur slitnum, brúnum, alhneptum regnfrakka og ber bældan og óhreinan svartan hatt úr linum flóka á höfðinu. Andlitið er af-

skræmt af löngum skeggbroddum og augun eru rauð og þrútin.

Jeg segi ykkur það satt, að þetta fer alt saman norður og niður, drafar hann óskýrri rödd og drepur höfðinu og dinglar handleggjunum. Sjálfur jeg fyrst, vitanlega — en það gerir nú minst. En þið komið á eftir .... fjandinn eigi það, það verður þokka-fjelagsskapur .... Ef þið hefðuð að eins viljað hlusta á mig. — — — En þið viljið ekki hlusta á mig, — þið argið öll eins og þið væruð útúr drukkin .... Alt saman eintómir asnar! En nú skal jeg syngja fyrir ykkur.

— Þegi þið, þei. — Úlfurinn ætlar að syngja, æpir skarinn í kring.

Svo ræskir hann sig og byrjar — of hátt — ræskir sig aftur og byrjar — of lágt — og syngur svo loksins með hásri rödd, nautsterkri, en laglegri þrátt fyrir alt:

— Hún Aðalbjörg á rauðum skóm
— hæhæ, hóhó, tralala —
hún Aðalbjörg á rauðum skóm
er engilfríð og blíð.

Um leið og hann syngur, sveiflar hann höndunum ákaft og stígur stirðleg dansspor. Til þess að halda jafnvæginu veifaði hann höndunum stundum svo einkennilega og hlægilega klaufalega til hliðanna. En hann hjelt áfram að stíga danssporin með þrjósku drukkins manns, og honum tókst nokkurn veginn að fara eftir miðri akbrautinni. Hann hirti ekkert um fagnaðaróp fólksins yfir því hve valtur hann var, en hjelt áfram:

Engilfríð með engilvængi
— hæhæ, hóhó, tralala, —
Engilfríð með engilvængi
— en annars ekki neitt.

— Heyri þið, heyriði. — Úlfurinn hefur búið til nýjar vísur, æpir hópurinn.

— Og þegar hávaðanum sljákkar ögn, leggur Úlfur undir flatt, reynir að gera röddina blíða og aðlaðandi og heldur áfram:

Kondu' og vertu vina mín
— hæhæ, hóhó, tralala,
kondu og vertu vina mín
þó það væri bara' í nótt.

Ung stúlka hefur nálgast hávaða-hópinn. Ljettum skrefum hefur hún brotið sjer braut, og að eins veitt uppþotinu á götunni hálf-forvitnislega og hálf-kæruleysislega athygli. Hún þekti ekki röddina, en fyrst þegar hún kom á móts við Úlf, sjer hún framan í hann — og stansar alt í einu. Hún kippist við. Undarlega kvíðandi, titrandi máttleysi lýstur alla limi hennar. Og á meðan hann lýkur við vísuna vaggandi og vagandi, starir hún á hann stóru augunum sínum brúnu, svo dökkbrúnum, að tilsýndar virðast þau svört. Nokkrir ósjálfráðir kvalakippir koma í óreglulega, en fallega, föla andlitið. Hnakkinn hnyklast undir stóra, svarta hárhnútnum og hún finnur tárasviða í augum sjer. Og alt í einu stingur hún vasaklútnum í munn sjer og skýtst inn um næstu forstofudyr, án þess að nokkur taki eftir. Þar stendur hún og grætur, stöðugt með vasaklútinn í munninum, til að kæfa gráthljóðið. Litlu, hvítu fingurnir kreistast titrandi um vasaklútinn, fallegu, þróttmiklu herðarnar skjálfa og tárin streyma úr augunum.

— Æ, Úlfur, Úlfur, snöktir hún milli grátkviðanna.

Uppþots-hópurinn færist hægt fram hjá.

Hún heyrir enn þá í fjarska drykkjurödd Úlfs:

Og á jeg að bíða' í alla nótt
— hæhæ, hóhó, tralala,
Og á jeg að bíða í alla nótt
í ilskuregni og storm?

Meira heyrir hún ekki. Það, sem á eftir kemur druknar í hávaða hópsins, sem eltir hann. Rödd hans berst nú að eins að eyrum hennar sem viðbjóðslegt, orðlaust arg. —

Mjer fer að kólna á fótunum
— hæhæ, hóhó, tralala.
Mjer fer að kólna' á fótunum,
— þá fáð' þjer konjaksstaup.

— Heyr! — Heyr! —

Því konjak betra kossum er —

— Jú, jeg held þ ú ættir að vita það.

— hæhæ, hóhóh, tralala,
því konjak betra kossum er,
þó kvöl sje eftir á.

En timburmenn í hjartanu' eru
— hæhæ, hóhó, tralala.
En timburmenn í hjartanu' eru
þó hraklegri en alt.

Hann hefur timburmenn í hjartanu, heyri þið það! Úlfurinn hefur timburmenn í hjartanu, hahaha!

— Hún Aðalbjörg á rauðum skóm
— hæhæ, hóhó, tralala.
Hún Aðalbjörg á rauðum skóm ....
Er stelpan stokkin burt?

Er stelpan stokkin burt? Er stelpan stokkin burt?

Hæhæ, hóhó, tralala — er stelpan stokkin burt? — er öskrað af mörgum röddum ....

— Nú finst mjer satt að segja tími til kominn, að lögreglan liti eitthvað eftir honum, skaut vefnaðarvörukaupmaður einn, sem stóð berhöfðaður með hendurnar í vösunum í búðardyrum sínum, að úrsmiðnum, nágranna sínum.

— Lögreglan! Hvað segi þjer, maður? Og háðbrosið breiðist um hið hrukkótta gleraugnaandlit úrsmiðsins. Onei, hún lætur það víst vera, ef jeg þekki hana rjett.

— Hann væri víst best kominn hjá henni móður sinni, tók ungur, velklæddur sjómaður fram í, sem stansað hafði á gangstjettinn hjá þeim og heyrt, hvað þeim fór á milli.

— Þetta flón, heldur hann áfram og spýtir brúnu fyrirlitlega.

— Hver nefndi hana móður mína? Þrátt fyrir hávaðann heyrði Úlfur orðin. Hver nefndi hana móður mína? segi jeg.

Hann staðnæmist fyrir framan sjómanninn, sem stendur kyr, horfir háðslega á hann og stingur hnefunum dýpra niður í buxnavasana. — Varst það þú?

Rödd Úlfs, sem í upphafi var æst, var nú alt í einu orðin róleg — andlitið var hvítt og augun leiftruðu.

— Varst það þú? spyr jeg. — Ertu ragur, ræfillinn þinn?

— Jeg er ekki dús við yður, þjer ættuð að skammast yðar. Jú, reyndar var það jeg.

Hring er slegið um Úlf og sjómanninn. Æskulýðurinn er viss um, að nú slær í handalögmál og gremja fullorðna fólksins druknar í glymjandi gleðiópum.

— Nú fær Úlfurinn að kenna á því! ....

Kaupmaðurinn og úrsmiðurinn reyna að miðla mál-

um. Kaupmaðurinn hnippir í sjómanninn og reynir að fá hann með sjer inn í búðina:

— Já, en þjer eruð fullorðinn maður .... Hugsi þjer um þetta með skynsemi. Hvað ætli þjer að gera í ryskingar við svona fullan slána?

Sjómaðurinn streitist á móti, þó hann langi engan veginn í ryskingar. En hann óttast að svo virðist, sem hann þori ekki að eiga í höggi við hinn.

Úlfur slítur sig frá úrsmiðnum og gengur fast að sjómanninum með hnýttan hnefa.

— Veistu, að þú ert þorpari? — röddin var lág og veik. Veitstu, að þú ert óþvegnasta úrþvætti mannkynsins? Komdu' ef þú þorir!

— Já, seinna, þegar dálítið er runnið af yður. Sjómaðurinn var stöðugt jafn rólegur og stiltur.

— Einmitt, svo þú heldur að jeg sje drukkinn? Nei, nú skal jeg segja þjer nokkuð, það rennur einlægt af mjer, þegar jeg kem í nánd við einhvern dónann. Það er daunnin, skilurðu. En þó þú sjert svo ragur, að þora ekki að slá aftur, skaltu samt fá einn á hann, segir hann um leið og hann rekur honum rokna löðrung með hnýttum hnefanum.

Sjómaðurinn riðar, rífur hendurnar úr vösunum, flýgur á mótstöðumann sinn, dreyrrauður í framan og slær hann aftur. Á næsta augabragði liggur hann flatur á götunni, án þess eiginlega að nokkur hafi sjeð, hvernig á því stendur.

— Úlfurinn lifi, hrópar áhorfandahópurinn himinlifandi. Þetta kalla jeg svikalaust úti látið. — Hann virðist sveimjer hafa krafta í köglum. — Úlfurinn lifi! ....

— Sæktu lögregluna — og flýttu þjer nú. Kaupmað-

urinn rekur búðardreng sinn af stað. Þetta má ekki svo til ganga.

Úlfur gefur sjómanninum svigrúm til að átta sig og staulast á fætur aftur. Svo slær hann hann. — Þrisvar fellur sjómaðurinn flatur.

Svo er alt í einu eins og hann rakni við. Hann skimar í kringum sig eins og maður, sem vaknar, og man ekki hvar hann er. Og undrunarsvipur færist yfir andlit hans meðan hann þerrar svitann af enninu með kreptri hendinni. Hann lokar augunum — og rjett sem snöggvast vonar hann að alt hafi að eins verið draumur. Svo stynur hann þungan og stingur höndunum hvatlega í trosnuð vasaopin á rifna regnfrakkanum, og úr hverjum andlitsdrætti hans skín ósegjanleg þrjóska og blygðun.

Þegar sjómaðurinn rís upp í þriðja skiftið og nálgast hann skjálfandi af bræði,. stendur hann hreyfingarlaus með hendurnar í vösunum.

Sjómanninum varð ósjálfrátt á að stansa.

— Hvað á nú þetta að þýða? Það var nærri því eins og hann þyrfti að hrista orðin út úr sjer.

— Nú geturðu slegið mig, svarar Úlfur stillilega, og það er jafnvel dálítill storkunarhreimur í rödd hans og augnaráði. — Sláðu mig. — Af hverju slærðu mig ekki?

Sjómaðurinn hikar þó hann eigi sýnilega bágt með það. Andlit hans er enn þá afskræmt af reiði.

— Jeg skal ekki bæra á mjer, — þú getur slegið alveg óhræddur, heldur Úlfur áfram — nærri því eins og hann væri að reyna að sannfæra hinn — hann stendur þarna svo undur einmana og angistarlegur. Sjómaðurinn lætur krepta hnefann síga hægt, eins og honum væri óhægt um það.

En hann stendur kyr fast fyrir framan Úlf og starir

beint í andlit honum logandi, leiftrandi augum, eins og hann hafi enn ekki mist vonina um, að fá hann til að sýna einhvern lit á að verja sig, svo hann gæti verið þektur fyrir að slá hann.

Alt í einu kemst einhver hreyfing á fólk lengra niður á götunni og einhver kallar:

— Lögreglan kemur. — Nú kemur lögreglan! ....

Úlfur Ljótsson hrekkur við. Hann lyftir höfðinu þreytulega og í augum hans bregður fyrir einhverju, flöktandi og rannsakandi í senn, eins og hann velti fyrir sjer hvort auðið yrði undankomu. En alt í einu er hann lostinn þróttvana kæruleysi, sem veikir vilja hans og lamar aflið í limum hans. Drættirnir sljófgast, augnalokin síga dýpra og dýpra ofan yfir sviplaus augun.

Þá finnur hann gripið í handlegg sjer.

— Komi þjer, komi þjer — flýti þjer yður. Það er sjómaðurinn, sem gripið hefur í hann og dregur hann af stað. — Hitt getum við útkljáð seinna ....

Úlfur lætur ókunna manninn fara með sig, viljlaus, en verst honum þó, og er samt glaður í hjarta sínu. Og þegar sjómaðurinn hvíslar að honum, að hann eigi að lúta höfði og biður hann aftur að hraða sjer, þá hlýðir hann ósjálfrátt, og það er eins og hann hafi aftur náð tökum á anda sínum og afli. Þeim tekst sæmilega að kljúfa þyrpinguna, komast inn í sund nokkurt og stika áfram stórum skrefum — sjómaðurinn heldur stöðugt í handlegg Úlfs ....

Þegar lögregluþjónarnir hafa brotið sjer braut þangað sem ryskingarnar voru, eru óróaseggirnir á bak og burt. Og þegar þeir spyrja hvert þeir hafi farið koma svörin tregt og hvert öðru andstætt.

Og þarna standa þeir ráðþrota og vandræðalegir, með-

an háðið og skammirnar skella á þeim, án þess að þeir viti nokkurn tíma hvaðan þær koma og götuskarinn dreifist blásandi, blístrandi og syngjandi:

Hæhæ, hóhó, tralala,
Er stelpan stokkin burt?

## II.

Margrjet Thorgeir stóð í þröngu forstofunni, sem hún flýði inn í, og barðist við grátinn. Beggja megin í göngunum voru dyr inn í íbúðina á neðstu hæð, og í enda þeirra lá brattur stigi upp á fyrsta loft. Hún stóð fast við útidyrnar, til þess að geta skotist út ósjeð, ef hurð yrði opnuð alt í einu. Enginn mátti fyrir nokkurn mun sjá hana í ókunnu húsi í erindisleysu, allra síst í þessu ástandi. Það mundi þjóta bæinn á enda á örfáum dögum, að hún, Margrjet Thorgeir — ráðherradóttirin — hefði sjest grátandi í forstofustiga. Guð má vita hvaða sögu þeir kynnu að spinna utan um það, ef það frjettist. Það þyrfti víst minna til ....

En í hvert skifti, sem henni tókst að þerra tárin og hún ætlaði að fara, brautst gráturinn aftur fram, ákafari en áður.

— Æ, Úlfur, Úlfur. ....

Þetta var óþolandi .... Þessi smán. Og nú voru þau bæði eitt .... Það fann hún í hjarta sínu í nótt þegar hún vaknaði við vondan draum. Og hún varð alt af vissari um það, eftir því sem á daginn leið, það var eins og Úlfur færðist alt af nær henni, eftir því sem hún hugsaði meira um hann. Og loksins fjekk hún fulla vissu

með sjálfri sjer, — fulla vissu um það, að hjá honum ætti hún heima. Í hjarta hennar var kviknað eitthvert, bæði sælu- og kvalakent hugboð um það, að hann þarfnaðist styrktar hennar. Hún hafði enga eirð í sjer. Og að lokum gekk hún út, ef ske kynni að hún mætti honum. Hún valdi tímann um það leyti, sem hún vissi að hann var vanur að fara heim til morgunverðar.—Og svo mætti hún honum svona .... En hvað það var reyndar huglaust af henni að skjótast burtu. En hvað hefði hún eiginlega getað gert? Hvaða tjónki var hægt að koma við æstan, útúrdrukkinn mann? .... Jú, það var þá sennilega satt, að hann drykki svona afskaplega. — Ætli hitt væri líka satt? ....

Æ, Úlfur, Úlfur.

Það var hryllilegt að hugsa um það .... En þó það væri satt. — Þau voru bæði eitt fyrir það. Hún vissi það í hjarta sínu, vissi það eins vel og ákveðið og það, að hún var fædd og átti að deyja .... þar voru engin undanbrögð fær. En — ó, himneski guð, hún yrði víst beisk, hamingjan hennar! Og þó hafði hún bygt sjer svo háar hallir um kyrt og rólegt heimili. Og hún sem hjelt, að það væri hamingja að lifa lífinu í þögulli gleði og rólegri nautn .... Ef til vill hafði henni skjátlast, — ef til vill var hamingjan eitthvað alt annað .... Æ, hvað við vissum lítið .... um lífið .... um sjálf okkur ....

Hugsanir hennar flögruðu eins og styggir fuglar.

Og aftur varð hún gangtekin þessari hrollköldu, ömurlegu tilfinningu, sem fyrst læsti sig um hana í nótt, þegar hún vaknaði af draumnum um Úlf: að sál hennar svifi á dauðþreyttum vængjum í auðum, þrotlausum geimi yfir svörtu, svörtu hafi ....

Þessi draumur í nótt, nú mundi hún hann aftur svo ljóslifandi .... Fyrst sá hún að eins dimma hæð og

kross á henni. Hún stóð og starði með sviðasárri einmana-tilfinningu í hjarta sjer á háa, slútandi, skakka krossinn, sem gnæfði svartur við skýgráan himininn. En hvað þessi kross var ömurlegur. Undarlegur kvíði kviknaði í hug hennar .... hægan — hægan, uns hjarta hennar virtist ætla að springa. Henni virtist hún verða að fara yfir þessa hæð, fram hjá skakka, skuggalega krossinum, og hún var svo skelfing, skelfing hrædd .... því hún vissi, að þar biðu hennar þjáningar þyngri en dauðinn. Svo varð hæðin alt í einu að skipi, með rá og reiða, — og skipið vaggaði og vaggaði og alt vaggaði, vaggaði, — henni sortnaði fyrir augum, hún þreifaði fyrir sjer — og fjell. Hún mundi hræðslu sína svo hryllilega nákvæmt, að hún gagntók hjarta hennar nú, þegar hún hugsaði um hana aftur. Og svo þessi kveljandi kvíði fyrir einhverju örlögþungu, sem hún vissi ekki hvað var, einhverju sem mundi koma, hlyti að koma, og hún stæði varnarlaus og vanmáttug gegn .... Og svo alt í einu og umskiftalaust stóð hún í miðjum hávaða-hóp, sem hlæjandi og hrópandi fór með fjötraðan mann að dimma hólnum, þar sem nú gnæfði gálgi. Allir börðu og hræktu látlaust á manninn. Hann skjögraði áfram, draup höfði og virtist hvorki hirða um háð þeirra nje högg. En hvað mennirnir fara illa hver með annan, þaut henni í hug. Alt í kringum sig sá hún ýmsa, sem hún þekti — andlit þeirra voru afskræmd af viðbjóðslega illgjarnri ánægju. Sumir báru froðufellandi dýrstrýni, aðrir löng, lafandi, loðin eyru, og enn aðrir drifhvít draugsandlit. Faðir hennar var þar líka. Hann var ásýndum eins og hann átti að sjer, en hörundslitur hans var einkennilega feigðarfölur og andlitsdrættirnir stirðnaðir í sviplausu, kjarklausu hæðnisglotti. Alt í einu vissi hún, að hann var dáinn,

en fann þó ekki til sorgar og þó hún vissi, að hann var dáinn, greip hún í handlegg hans og spurði skjálfandi: — Er það lausnarinn? — Lausnarinn! hreytti hann háðslega úr sjer, og nú var hann alt í einu bæði Pontíus Pílatus og faðir hennar í einu — sjerðu þá ekki að það er Úlfur Ljótsson! — Í sömu svifum leit fjötraði maðurinn við, og hún sá framan í hann. Hún hlyti að muna þetta föla andlit, afskræmt af kvölum, alla æfi .... Það var andlit Úlfs, en þennan svip hafði hún aldrei sjeð á því áður. Bjarma sló af því, rauðleitum, blaktandi bjarma og á höfðinu bar hann þyrnikórónu. Bjarminn af andliti hans var eina skíman sem hún sá, annars var skuggsýnt alt í kring. .... Í sama bili og hún sá þennan svip í andliti hans vissi hún með sjálfri sjer, að þessum manni var hún heitin um alla eilífð .... Hvað ætli þið að gera við hann? spurði hún föður sinn titrandi af ótta. En hann leið alt af áfram við hlið hennar, teinrjettur og líkstirður í öllum limum. — Hann á að deyja! svaraði hann — henni virtist hann jafnvel ekki hreifa varirnar. Þá fleygði hún sjer alt í einu í fang hans og vafði sig að honum. — Pabbi, pabbi, geturðu ekki bjargað honum? — Nei, jeg þvæ hendur mínar, svaraði hann með grimdarhlátri .... Svo hurfu allir alt í einu nema Úlfur, hann stóð fyrir framan hana með hendurnar bundnar á bak aftur. — Nú skal jeg leysa þig, sagði hún, en hann hristi að eins höfuðið. Andlit hans var frítt og alvarlegt, eins og hún hafði stundum sjeð það, þegar hann las ljóðin sín eða ræddi um eitthvað, sem honum þótti verulega vænt um. Mildur, sorgþýður svipur skein út úr augum hans. — Nú eigum við að skilja, sagði hann, vertu sæl, elskan mín — rödd hans var mjúk og fögur. — Áttu þá að deyja? spurði hún og fann í sömu svifum að hjarta

hennar brast og blóðið fossaði úr því, fylti brjóstholið og vætlaði í volgum straumi út úr munni hennar. — Deyja? sagði hann, ojá, það má kalla það svo. En í raun og veru fer jeg og sigra. Við sjáumst ekki framar .... Og svo var hann á bak og burt, horfinn — hún vissi ekki hvernig. En hún vissi, að hann mundi aldrei koma aftur, að hún hefði sjeð hann síðasta sinni. Og hún stóð ein í myrkrinu og grjet, nú var almyrkt í kringum hana. Hún neri augun — og fann að hendur hennar voru blóðugar. .... Gráturinn varð ákafari og ákafari uns hann að lokum vakti hana ....

Undir eins og hún vaknaði, leit hún á hendur sínar. Og svo hafði draumurinn verið lifandi, að hún undraðist að þær voru ekkert blóðugar.

Hún lá lengi og grjet hægt og stilt. Hjarta hennar barðist svo ákaft að það mátti til fá tóm til að kyrrast.

Svo reis hún alt í einu upp í rúminu, og sagði við sjálfa sig, og sagði það ósjálfrátt hátt:

— Fyrst hann kemur ekki til þín, verður þú að fara til hans .... því að það er ástæðulaust að hann fái ekki að vita um það ....

Þessi ákvörðun, sem hún hafði tekið ósjálfrátt, kom henni alveg á óvart og í fyrstunni lamaði undrunin hana.

En því meira sem hún hugsaði um þetta, þess sannfærðari varð hún um það, að svona hlyti það að vera.

Og svo fór hún út til að finna hann ....

Alt í einu heyrði hún hurð opnaða uppi. Hún þerði tárin í skyndi og skautst í flýti út um götudyrnar.

Hún hraðaði sjer áfram, laut höfði og þrýsti saman vörunum til að bæla niður ekkann. Hún gekk ósjálfrátt fast upp með húsaröðinni.

Ef að eins hún mætti engum, sem hún þekti .... Hún

yrði að gæta þess að líta ekki upp og hafa hraðann á, eins og hún væri í önnum. Þá mundi vonandi enginn fara að stansa hana. Nema ef það skyldi vera einhver vinstúlka hennar, sem vitanlega yrði forvitin þegar hún þyrfti að flýta sjer svona. Það fór hrollur um hana, þegar hún hugsaði til þess, að einhver vinstúlkan kynni nú að grípa í handlegg hennar, stansa hana og byrja að þvaðra. Hún var víst ósköp rauðeygð. Það sæist undir eins að hún hefði grátið. Og jafnvel þó þær spyrðu einsskis, en rendu rannsakandi augum að henni, vissi hún að gráturinn mundi ýfast aftur. Það mátti ekki verða. Það væri hræðilegt ....

Hraða sjer, hraða sjer .... heim í herbergið sitt .... Þar var hún ein. Þar gat enginn ónáðað hana. Þar gat hún grátið nægju sína í ró .... Grátið nægju sína, góði guð .... En hún fengi sennilega aldrei grátið nægju sína .... jafnvel þó hún grjeti alla æfi. — En hún varð að reyna að hrista þessar hugsanir af sjer, annars brytist gráturinn aftur fram áður en hún kæmist heim.

Til þess að losna við þessar hugsanir lyfti hún snöggvast höfðinu og leit fljótlega fram eftir götunni. Hún sá tveimur mönnum bregða fyrir hinumegin götunnar. Hún flýtti sjer að drúpa höfði — drúpa því djúpt niður að brjóstinu — en hún stokkroðnaði út undir eyru. Hún gekk svo nálægt húsaröðinni, að pils hennar straukst stundum við steinkjallarana. Og hún hraðaði göngunni, uns hún nærri því hljóp við fót.

Það var Úlfur, sem hún sá, Úlfur, sem hún mætti á rólegri göngu með öðrum manni. Var hann þá ekki drukkinn lengur? Eða kanske hann hafi alls ekki verið drukkinn? .... Víst var hann drukkinn .... Röddin ein bar þess ljósan vott. En hvernig stóð þá á því, að hann

var alt í einu kominn þangað svona rólegur .... En hvað hann var illa til reika, alhvítur í andliti, sokkinn saman og leit niður fyrir sig. Andlitssvipurinn var þrunginn örvæntingu og helköldum harmi — alveg eins og í draumnum í nótt. Það voru víst þessir kvaladrættir í andlitinu, sem laðað höfðu hana að honum. Hún hlaut að þekkja andlitið vel, fyrst hana gat dreymt að á það kæmi svipur, sem hún hafði aldrei sjeð, en var þó sannur .... En hvað henni þótti vænt um þetta andlit, jafnvel með skeggbroddum og þrútnum augum .... Vesalings, vesalings Úlfur — honum liði víst ekki vel með sjálfum sjer. Alt í einu datt henni í hug að mörgum, mörgum mönnum liði illa, — svo illa að við hefðum enga hugmynd um það — og unga hjartað fjekk fyrsta hugboðið um það, hvað náungans kærleikur er. Og angurvær hugsun, sem frekar var spurning en bæn, hófst til guðs .... En hugsanir hennar voru undir eins komnar aftur til Úlfs. Hún vonaði að hann hefði ekki sjeð hana. Þá hlyti hann að halda, að hún vildi ekki kannast við sig — og skammaðist sín fyrir að hann heilsaði henni. En hún gat ekki farið öðru vísi að. Hún vissi, að hún hefði farið að gráta, hágráta, ef hún hefði að eins sjeð hann heilsa .... En það gat hann ekkert vitað um .... Hann gat ekki vitað það, að ef hann hefði gengið þvert yfir götuna, til að rjetta henni höndina, eins og eðlilegast hefði verið — þá hefði hún annaðhvort hent sjer um háls hans, til að gráta við barm hans, eða hlaupið leiðar sinnar hágrátandi .... Sennilega hefði það síðara orðið ....

Hún skautst fyrir horn eitt, stytti sjer leið eftir þröngri þvergötu og komst loksins í götuna, sem heim til hennar lá. — Guði sje lof, það virtist ætla að hepnast að komast

þeim, án þess að mæta nokkrum, sem hún þekti .... Nú var hún komin heim ....

Hún hljóp hratt upp steinriðið og hnje hennar skulfu. Hún hringdi og tók þá fyrst, meðan hún stóð þarna og beið, eftir því, hvernig hjarta hennar barðist. Hún kastaði lauslega kveðju á stúlkuna sem opnaði, skautst fram hjá henni, hljóp gegnum forstofuna og að stiganum með rauðu ábreiðunni .... En hún stansaði neðarlega í stiganum, stóð kyr og hlustaði.

Setustofuhurðin stóð í hálfa gátt, og þaðan að innan heyrðist hin stranga áminningarrödd móður hennar, með þessum hálf-særða blæ, sem hún þekti svo vel.

— Þú ert kanske að hugsa um að verða eitthvað keimlíkur dómkirkjuprestssyninum?

— O, jeg held að hann sje ekki verri en hver annar, heyrði hún bróður sinn svara með þrjóskukendri, þróttmikilli karlmannsrödd, dálítið hásri, eins og hann hefði nú enn einu sinni verið úti í svalli. Hann var víst tekinn að sækja slæman fjelagsskap á síðkastið .... En hún hefði getað fleygt sjer um háls hans .... Og hún skyldi ekki gleyma því, að hann hefði tekið málstað Úlfs ....

— Að hanga yfir drykkju og spilum langt fram á nætur — móðirin talaði hægt og með áherslu — finst þjer það sæmandi ungum manni í okkar stöðu?

— En hjer spilar hver maður. Og hvað ætti maður annars að gera í þessari leiðinda bæjarholu. .... Spili þið kanske ekki sjálf hjerna heima?

— Jú, það er annað mál. Við höldum okkar spilakvöld. En við höldum ekki áfram fram undir morgun. Nú, en jeg læt nú spilamenskuna vera, ef þið væruð ekki of lengi og spiluðuð ekki of hátt, — það er það, sem jeg óttast. Og af hverju þurfi þið að raða öllum þess-

um ósköpum í ykkur — það skil jeg ekki. Að minsta kosti finst mjer, að þ ú ættir að vera of góður til þess, ef þú hugsar nokkuð um framtíð þína. Hvaða framtíð heldurðu að Úlfur Ljótsson eigi?

Það fór hrollur um Margrjeti þar sem hún stóð.

— Heldurðu kanske að það verði nokkurn tíma nokkuð úr slíkum þokkapilti? Reyndar undraði mig ekkert þó óvitar eins og þú og þínir líkar hjeldu að hann væri heilmikill maður og reynduð að líkjast honum, svona í laumi. En eitt get jeg sagt þjer, að ef þú ferð líka að daðra við stelpur, verðurðu undir eins rekinn hjeðan út ....

Margrjet heyrði ekki meira. Hún hentist upp stigann, þaut inn í herbergi sitt, læsti dyrunum, hratt en hljóðlaust, og sneri lyklinum. Meðan hún tók af sjer hattinn og fór úr treyjunni grjet hún í hljóði með hálf-opinn munninn. Svo fleygði hún sjer á grúfu á legubekkinn, hnipraði sig saman og grjet, svo allur líkami hennar skalf eins og af krampa.

Guð minn, guð minn, guð minn góður ....

En hvað þetta var ógurlegt, alt saman .... Og viðbjóðslegt .... og svo svívirði-svívirðilegt .... svo afskaplega svívirðilegt .... Lífið og mennirnir allir .... En hvað hún hataði — hataði — hataði! .... Hataði alt og alla! Af hverju var það svona? Af hverju var alt svona tilgangslaust og vont? — Var þá ekkert gott til í heiminum — ekkert, ekkert, ekkert gott? Var lífið eintóm vonska — og böl — og viðbjóður — og svívirðing? — Já, já, svona var það. Og sjálf var hún heimsk, afskaplega ægilega heimsk. Ekkert nema heimskan og vonskan .... Ekki hætis hót betri en hinir.

Og hvaða vitfirringu hafði hún verið að fremja? Hvað

hafði hún haft í hyggju að gera? Fara til manns, sem hún þekti ekkert sjerstaklega, jafnvel þó hann væri bernskufjelagi hennar — og segja honum .... hvað? Já, hvað — hvað? Að hún elskaði hann? .... En hún vissi ekki einu sinni hvort hún elskaði hann. Það var að eins þessi heimskulegi draumur, sem hafði komið henni á þá skoðun, að þau væru bæði eitt .... Það var víst eitthvað bogið við hana .... En reyndar vissi hún líka, — nei, hafði óljóst hugboð um — nei, gerði sjer kanske að eins í hugarlund, að honum þætti vænt um sig .... Ef henni skjátlaðist, ef honum var alveg sama um hana? Eða ef hann hirti að eins um hana eins og hverja aðra, — eins og hverja aðra .... „stelpu". — Guð minn, guð minn .... Hún þekti hann ekki neitt, það sá hún núna. Ef til vill var hann að eins venjulegur drykkjurútur og kvennabósi .... Ef til vill var það aðvörun til hennar — bending frá guði — þetta, að þegar hún í fávisku sinni fór út til að leita hans og tala við hann, mætti hún honum svona á sig komnum — útúrdruknum og argandi óþverra-vísu og með skrílskara í kring um sig ....

Hún hjelt áfram að gráta.

Hún skildi ekki sjálfa sig — því nú virtist henni aftur verða á sjer einhver undarleg breyting. Alt í einu hljómaði í eyra hennar hin mjúka rödd dómkirkjuprestsins, einu sinni þegar hann stóð og talaði við föður hennar. — Skynsemin, sagði hann, skynsemin er oft og einatt ekki annað en vífilengur og vafi. Allur þorrinn af yfirsjónum mannanna er runninn af þessari svo nefndu skynsemi, alveg eins og vonska þeirra og grimd. Nei, við eigum einlægt að hlusta á hjartað eitt. Hjartans rödd er guðs rödd.

Henni virtist það svo einkennilegt að prestur skyldi tala svona. Var það eiginlega sannur kristindómur? Stóð ekki eitthvað í biblíunni um veikleika hjartna okkar — um syndir hjartna okkar? Hvað eftir annað duttu henni þessi orð í hug, þau höfðu læst sig svo í minni hennar, að hún g a t ekki gleymt þeim.

Var þá um að gera að varast skynsemi sína — og láta hjartað ráða? — Já, þegar hjartað hvetur okkur til þess, sem gott er .... En hvernig á að þekkja gott frá illu? Ef hún hjetist Úlfi, mundi móðir hennar snúa við henni bakinu og faðir hennar kanske líka. Var það þá ekki illa gert, gagnvart þeim? Æ, hún fjekk engan botn í þetta ....

Þegar þau voru börn og ljeku sjer, leiddi stöðugt af sjálfu sjer, að hún og Úlfur voru saman. Honum einum þóttist hún skyld að gefa af sælgæti sínu. Og að eins hjá honum var hún innilega algleymings glöð. Það var titrandi sæla að vera nálægt honum, halda í hönd hans, horfa í augu hans .... Samband þeirra breyttist reyndar eftir því sem þau eltust, það var ekki eins einfalt og óþvingað og áður og ólíkt lundarlag kom dálítið fram. En þó rendi hún sjer helst á skautum með honum, dansaði helst við hann og þráði hann. Og hún hafði hugboð um, að eins væri honum farið gagnvart henni. En svo fór hann, þegar hann var átján ára, til Kaupmannahafnar til að lesa lög .... Skilnaðarkvölin sat enn þá eins og bitur broddur í sál hennar .... En hvað kvíðinn, sem hún fann þegar hann fór, hafði rætst grimmilega. — Fyrsta veturinn skrifaði hann henni nokkur brjef. Og hún svaraði honum — en það var erfitt, því hún þurfti að hnitmiða hvert orð, svo það kæmi ekki upp um hana .... Feimnislega gerði hún þrjú

eða fjögur uppköst að hverju brjefi uns það var orðið svo kalt og kæruleysislegt og tilfinningalaust að henni fanst hún geta sent það. Til þess að brjefin yrðu ekki of stutt fylti hún þau frásögnum um skemtanir sínar — þessar skemtanir, sem henni fundust alt af svo snauðar síðan hann fór, en ljet þó sem hún hefði allan hugann við .... Og svo hættu brjefin hans alt í einu að koma. — Þegar hann kom heim í sumarleyfinu gátu þau ekki hitst. Fundir þeirra voru fáir og þvingaðir og loksins kaldir og nístings þögulir. Næsta sumar kom hann einu sinni ekki heim, en skólabræður hans kunnu hinar og þessar sögur um hann. — Síðan þraut frjettirnar aldrei. Og þegar hann loksins kom heim, reyndar með afbragðspróf, leið ekki á löngu uns hann varð aðalskotspónn alls bæjarins .... Og jafnvel þó að það væri ekki alt satt, sem sagt var um hann, var víst, því miður, alt of mikið hæft í því. Stundum hittust þau, meðan hann var enn þá boðinn í samkvæmi foreldra hennar og annað, þar sem hún kom. Og með hálfsárri gleði fann hún, að hann hafði gaman af að tala við hana þegar hann sá sjer færi, tala við hana ólíkt því, sem hann talaði við nokkurn annan, hálf feimnislega og hálf þrjóskulega opinskátt. En alt af um einhver áhugamál sín, aldrei um fánýt efni. Nú skyldi hún, að frá hans hálfu voru samtöl þessi feimnislegar tilraunir til að laða hana að sjer. Henni hafði víst dottið það í hug þá líka, en ekki gert sjer þess fulla grein. Og henni datt líka stundum í hug að ljóðin sín læsi hann líklega fyrir hana eina, þá sjaldan hann fjekst til þess — annars mundi hann líklega ekki hafa lagt sig eins í framkróka við lesturinn. En að hugsa sjer að sami maðurinn, sem hafði ort þessi kvæði, kvæði, sem titruðu af trega og ólguðu af ákafa og trú — eins og

fallega ættjarðarkvæðið hans — að hugsa sjer að hann gæti orkt vísurnar, sem flugu um bæinn undir hans nafni, háðvísur og níðvísur. Það var óskiljanlegt. Hún mundi vel svipinn á andliti hans, þegar hann las upp ljóðin. Fallegri svip hafði hún ekki sjeð í andliti nokkurs manns ....

Og hún grjet áfram. Og fyrir hugskotssjónum sínum sá hún andlit hans, með svipnum, sem á því var áðan, þegar hún mætti honum — og í draumnum í nótt. Og hugsunin um það, að þau væru bæði eitt, læsti sig um hana um leið eins og net, möskva eftir möskva. Hún fann það og spornaði ekki við því, að hún sökk dýpra og dýpra í hugsanirnar um það, að hún og Úlfur væru tengd saman órjúfandi böndum .... Nei, það voru engir hugarórar — heldur enginn draumur. Þau voru sameinuð — um eilífð — með töfrum ástarinnar — þegar hún hugleiddi efa sinn og það, sem hún með sjálfri sjer kallaði ragmensku, varð hún gagntekin blygðun. Hún hafði næst um svikið ást sína, svikið það, sem inst og dýpst var í sál hennar! — Hvað vissi fólkið eiginlega um Úlf? Jú, það vissi nóg ilt til að tala um hann. Það gat varla farið verra orð af honum en fór. En hvað vissi það raunar um hann? Áreiðanlega minna en ekkert. Og nú ætlaði hún líka að láta svo, sem hún þekti hann að eins af orðrómnum, — hún, sem ef til vill var sú eina, sem þekti hann. Þekti hann af því, að sál hennar gat skygnst bak við augu hans og útlit, bak við orð hans og æði, og lesið .... lesið hvað? — Já, ekkert ákveðið, en fann að eins sál hans bærast mót sinni sál .... fann þá eðliskröfðu töfra, sem tengja tvær ákveðnar manneskjur saman í lífi og dauða .... töfra ástarinnar.

Hún reis upp í rykk og ný hugsun sló glampa á tárvot augun.

Sjáum til dæmis hann föður hans, góða, gamla prestinn. .... Þrátt fyrir alt vildi hann aldrei yfirgefa son sinn. Hún vissi að einu sinni hjó nærri embættismissi fyrir það. Þá sagði hann við biskupinn þessi orð, sem hún aldrei gat gleymt, og biskupinn sagði föður hennar þau með tárin í augunum: „Á jeg að bregðast blóði sjálfs mín, svíkja mannssál?

Svíkja mannssál? Bregðast blóði sjálfs sín? .... Nei, það gat hún ekki heldur. En það var einmitt það, sem hún gerði, ef hún sviki Úlf. Reyndar skildi hún ekki fyllilega hvernig á því stóð. En hvað gerði það til, þó hún skildi það ekki, fyrst hún vissi það .... vissi, að þau voru eitt gegnum þykt og þunt, já, gegnum smán og svívirðingu, ef því væri að skifta. Hún vildi, að hún hefði gengið til hans í dag og tekið um hálsinn á honum í allra augsýn. Hún gat ekki niðurlægt sig meira á annan hátt en með því að bregðast .... Nú var um að gera, að vera fastur fyrir — fastur fyrir. Í því lá sæmd hennar, því og engu öðru.

Tár hennar voru þornuð. Hún sat og starði fram fyrir sig, eins og hún sæji eitthvað fallegt, og ró og friður geislaði úr dökkbrúnu augunum.

Æ, Úlfur, Úlfur — röddin var alt í einu orðin hress og kát.

Og hvað var þetta! Fyltist ekki hjarta hennar smámsaman fögnuði — og friði .... Nú vissi hún hvað hamingjan var .... Hamingjan var að elska ....

Og hún elskaði hann ....

En ef hann elskar þig ekki? Jú, hann elskar þig,

því við erum bæði eitt .... En e f hann gerir það ekki? ....

Kvíðafullur, þjakandi þungi seig yfir sál hennar.

— Ef til vill elskaði hann hana, en að eins af því að hún var kona og falleg — en ekki á sama hátt og hún unni honum .... Ef til vill yrði hann leiður á henni eftir dálítinn tíma. Færi það ekki oftast þannig um samband karls og konu? — Ef til vill færi það a l t a f þannig? En af hverju þyrfti svo að vera? En með sjálfri sjer fann hún, að hennar ást mundi haldast. .... Og þó — við vitum svo lítið um sjálf okkur.

En hún hristi þessar hugsanir af sjer.

Nú v i l d i hún vera glöð, því að nú var hjarta hennar svo ríkt og hamingjusamt, fyrst hún vissi, að hún elskaði hann.

Hún reis hratt á fætur.

— Og hann s k a l fá að vita það, sagði hún hátt, krepti hnefana, teygði handleggina beint niður með síðunum og rjetti úr beinvaxna líkamanum.

Svo gekk hún ljettum, hröðum skrefum að hljóðfærinu og söng með gleðifagnandi rödd, söng sem hann sendi henni í einu brjefinu frá Höfn. Hann var að eins tvær vísur, og lagið hafði hún fundið sjálf:

Þú gullnra vona land og ljósra drauma,
þú ljúfa nóttleysunnar paradís!
Þú landið djarfra anda og stríðra strauma,
þú stríðsins land við neyð og bál og ís!

Þú landið fjalla brattra' og blárra linda.
sem brjótast óvænt fram og hverfa skjótt!
Þar þreyta haukar háa flug um tinda
í hjarnsins auðnarfriði dag og nótt!

## III.

Úlfur Ljótsson og sjómaðurinn hjeldu hratt áfram gegnum sundið. En sjómaðurinn slepti takinu á Úlfi við götuhornið, sem þeir fóru fyrst fram hjá, og leit um öxl.

— Enginn veitir okkur eftirför, sagði hann og varp mæðinni.

Svo hjeldu þeir rólegir áfram.

Sjómaðurinn gaut hvað eftir annað hornauga til Úlfs, sem þrammaði við hlið hans. Hann hengdi höfuðið og svipurinn var blælaus. Sjómaðurinn fann alt í einu til ósegjanlegrar samúðar með honum.

— Ef yður er það ekki móti skapi, sagði hann í lágum afsökunarróm, held jeg að jeg fylgist með yður heim. Það er betra að við sjeum tveir en einn, ef þeir skyldu ná okkur. Er þetta ekki leiðin?

— Nei, svaraði Úlfur stuttlega og sneri í öfuga átt.

— Nú, jeg hjelt, að þjer væruð til húsa heima hjá föður yðar. Sjómaðurinn sagði þetta áður en hann vissi af, og sá eftir því undir eins.

— Jú, það er líka rjett. En jeg hef líka herbergi í Hótel Valhöll, svaraði Úlfur, og virtist annars hugar. Svo var eins og hann vaknaði alt í einu til meðvitundar aftur og hann leit á fylgdarmann sinn — athugaði hann mjög gaumgæfilega örstutta stund.

— Mann þyrstir svo af hlaupunum, sagði hann með daufri rödd. Jeg á dálítið konjak og sódavatn heima. Viljið þjer ekki koma með og fá yður eitt glas?

Sjómaðurinn hló.

— Jú, fyrst þjer finnið yður knúðan til, að gefa mjer

eitthvað ofan í mig líka, þá þakka jeg kærlega fyrir, svaraði hann glaðlega.

Hann hugsaði með sjálfum sjer, að það væri víst skrítinn fugl, þessi Úlfur. En — hann gat einhvern veginn ekki að því gert — honum fjell einstaklega vel við hann.

— En hver eruð þjer annars? spurði Úlfur og glotti. — Það er víst kominn tími til að jeg fái að vita hvað þjer heitið.

— Jeg heiti Eldjárn Sigtryggsson — skipstjóri á Voninni, svaraði sjómaðurinn og var ekki laust við dálítinn hátíðleikahreim í röddinni.

Nú, svo þjer eruð Eldjárn skipstjóri? Úlfur virti hann fyrir sjer með auðsærri athygli. Hann hafði oft heyrt hins duglega skipstjóa Vonarinnar getið, og einkum mundi hann það afreksverk, þegar Vonin bjargaði skipshöfninni af sökkvandi botnvörpungi, þó hún væri sjálf í ýtrustu neyð. Skömmustu-tilfinningin gagnvart ókunna sjómanninum, sem hann hafði aldrei getað losast alveg við, hvarf alt í einu, þegar hann vissi, hver hann var.

— Mjer er sómi og auk þess mikil ánægja að kynnast yður, sagði hann stillilega. — Nú þykir mjer það hálfu verra, sem okkur bar á milli áðan. Jeg veit ekki. .... Það var eins og jeg þyldi ekki að heyra móður minnar getið í sambandi við sjálfan mig. Þó var það eiginlega jeg einn, sem var óvingjarlega ávarpaður, svo að þess vegna var ástæðulaust af mjer að slá — og þar að auki var alt of mikið hæft í því. — Nú, en hjer hafi þjer hönd mína. Jeg vona, að þjer getið gleymt þessu, sem fyrir kom áðan.

— Það get jeg vel, svaraði Eldjárn skipstjóri fúslega, og greip feimnislega hönd Úlfs. Jeg skal segja yður það, að jeg

hef skammast mín fyrir sjálfan mig. Ólánið er allra herra, því ættum við sjómennirnir síst að gleyma. — Og jeg játa, að jeg hefði ekki átt að nefna móður yðar í þessu sambandi, og yfirleitt kom mjer þetta ekkert við.

— Jeg þakka yður fyrir þessi orð, svaraði Úlfur hrærður og honum vöknaði um augu.

— En jeg fjekk líka að finna þungan hramm, sagði Eldjárn og hló við. Reyndar hef jeg aldrei sjeð nokkurn mann verða svona algáðan alt í einu, bætti hann forvitnislega við.

— Það rennur alt af af mjer, þegar jeg reiðist eða hryggist, það er sama, hvað drukkinn jeg er, svaraði Úlfur hálf-hikandi. Svo sökk hann niður í hugsanir sínar. Og þeir gengu þögulir áfram.

Hvernig veik þessu eiginlega við? Var það í raun og veru hann, sem fyrir örskömmu gekk argandi ofan götuna og gerði óspektir? Og var það hann, sem var nær handtekinn fyrir ryskingar og götuóeirðir? Jæja,— það var þá altjend eitthvað til að þvaðra um í bænum! — En hvernig veik þessu við? .... Í gærkvöldi hafði hann setið að drykkju upp í herbergi sínu í ró og næði með nokkrum kunningjum, því hann var nú einu sinni í því skapi, að hann mátti til að drekka. Er þeir höfðu allir fengið sjer sæmilega neðan í því, tók einn þeirra, ungur stórkaupmaður, að kveina og kvarta hástöfum yfir „Aðalbjörgu, sem hvorki vildi heyra hann nje sjá lengur“. — Hvaða Aðalbjörg er þetta? spurði svo alt í einu hinn. — Jeg held þú þekkir hana, þessa á rauðu skónum. Já, þið ættuð að sjá hana, þegar hún stendur afklædd í rauðu skónum .... eins og engill — inndæl, inndæl — en nú vill hún ekki líta við mjer lengur. Það er agent Jensen að kenna, fíflinu því arna — jeg veit að það er agent

Jensen að kenna — fjandinn hirði alla Baunverja. Heila rigningarnótt beið jeg fyrir utan dyrnar hjá henni, en hún vildi ekki hleypa mjer inn .... Svo drakk jeg mig fullan .... Og svona hjelt hann áfram. Og þegar hann hafði barmað sjer lengi yfir ótrygð Aðalbjargar, tók hann að brjóta glös og flöskur, til þess að sýna greinilega hvernig hann ætlaði að „mölva agent Jensen sundur, mjela agent Jensen sundur, merja hann sundur eins og úldið egg.“ Og svo orkti Úlfur í gamni vísurnar um Aðalbjörgu, og að lokum sátu þeir allir og sungu í kór: Hún Aðalbjörg á rauðum skóm .... — Honum tókst þó að losna við þá sæmilega snemma. En í bítið um morguninn komu þeir aftur til þess að „gera honum rúmrusk“, eins og þeir kölluðu það. — Þú átt vín, bölvaður, og skalt svei mjer ekki fá að liggja á því, og á þessum tíma dags er vonlaust um að ná í lyfseðil — læknar eru alt af svo úrillir á morgnana. — Úlfur var í illu skapi. Honum líkaði alt illa. Og að lokum líkaði honum það verst, að vera sjáfur í illu skapi, fyrst hinir voru í góðu. Og loksins fór hann að þjóra — til þess að „ná sjer á strik aftur“. Þegar að þeim tíma kom, að hann ætti að fara til skrifstofunnar, kom þeim öllum saman um, að svona gæti hann ekki farið — og þá gaf hann dauðanum og djöflinum öll stjórnarráð. Undir hádegi byrjaði hann að þvögla ýmsar hugleiðingar um framtíð föðurlandsins. — Þú ættir heldur að þruma þessa ræðu yfir kjósendunum, hrópuðu hinir — en þyrmdu okkur, þyrmdu okkur. Úlfi þótti. — Þið haldið kanske að jeg geti ekki haldið ræðu? En jeg skal svei mjer sýna ykkur, að þegar jeg einu sinni er byrjaður að halda ræður, þá hlustar öll þjóðin. — Og hvernig svo sem á því stóð, þá varð endirinn sá, að þeir veðjuðu um það, hvort hann þyrði

að ganga ofan á götuna undir eins og „tala til lýðsins“. Þeir veðjuðu þremur kampavínsflöskum sem „skilvíslega áttu af hendi að látast undir eins og skip kæmi á þessar stöðvar, og stingast út á staðnum og þegjandi.“—Og ef þeir vilja ekki hlusta á þig, sagði skógfræðingurinn, þá geturðu endað á vísunum um Aðalbjörgu, á þær verður hlustað. Úlfur var þrár í eðli sínu, og enn þá þrárri drukkinn, og því fór sem fór.

Meðan hann gekk þarna sokkinn niður í hugsanirnar um alla þessa heimsku og smán, nísti örvæntingin hjarta hans og hann fann ákafa einlægnisþörf og hóf því máls með beiskjutitrandi rödd:

— Það þjáir mig mest, að mjer ....

Að mjer finst, að svona sje jeg sjálfum mjer líkastur, ætlaði hann að segja, en hætti við það, og gekk áfram þögull og þungbrýnn. Hann varð alt í einu óþolandi leiður á sjálfum sjer. Hann sá eftir, að hafa boðið Eldjárni skipstjóra upp með sjer. Hann var ekki í því skapi að taka á móti gestum. — En vonandi færi hann fljótt.

Og hvað tæki þá við? .... Jú, þá yrði hann aleinn og það væri enn þá verra .... Ænei, það var einmitt gott að vera aleinn. Þess þarfnaðist hann. Því það sæmdi ekki að segja skilið við heiminn, án þess að hafa gert upp reikningana, að minsta kosti eins og í hans valdi stóð. Og nú var að eins um eitt að gera — og það var að svifta sig lífinu. Hann átti einskis annars úrkosta, eftir þessa síðustu svívirðu.

— Það var dýr skemtun — einkum þegar þess er gætt, að jeg fæ ekkert af kampavíninu, muldraði hann háðslega með sjálfum sjer.

Svo datt honum alt í einu í hug, hve oft hann hefði verið að því kominn að stytta sjer aldur og alt af rýrari

ástæðum en nú, að honum fanst. — Það fór hrollur um hann. Jú, jú, það hlaut að því að koma fyr eða síðar, að öll sund lokuðust .... eins og hann hagaði sjer.

Já, hann var áreiðanlega aumasti og fyrirlitlegasti maðurinn í öllum heiminum. Skyldi nokkurn tíma hafa verið til meiri ræfill en hann? Það voru víst til verri menn en hann — beinlínis illmenni, því það hafði hann víst eiginlega aldrei verið, og brast kjark til þess. En það var áreiðalega enginn meiri ræfill til .... Og var nokkuð fyrirlitlegra til, en það, að vita að maður var ræfill — en gera ekkert til að bæta úr því?

Nei, hann átti vissulega ekki skilið að lifa á jörðunni. Átti skilið? Var þá lífið einhver hátíð? — Jú, ef til vill fyrir þá, sem rjeðu lífi sínu sjálfir .... sem gátu haft taumhald á sjálfum sjer. því þegar öllu var á botninn hvolft, var hamingjan víst í því falin, að hafa vald yfir verkum sínum — og hugsunum. En það hafði hann aldrei haft. Hann og hans nótar ættu eiginlega að upprætast .... og fyrst aðrir gerðu það ekki, jafnvel þó þeir fyndu, að það væri nauðsynlegt, — þá yrðu þeir að gera það sjálfir ....

Sennilega tæki hann það ekki nærri sjer. Hann var fyrir löngu hættur að vona, að hann næði því eina marki, sem hann langaði til — því eina, sem öll sál hans þráði. Og frá því að hann gerði sjer þess fulla grein, að vonin var vonlaus og þráin árangurslaus, fanst honum lífið snautt og einmanalegt. Svo snautt og einmanlegt, að hann þurfti stundum að blása í það lífi ímyndaðra ástríða, sem því miður voru oftast skammvinnar og skildu eftir bitra beiskju, bæði gagnvart því, sem þær í það og það skiftið komu fram við, sjálfum honum og öllum heiminum. Þá var hin aðferðin að skömminni til skárri, sú,

að æsa hugheim sinn en deyfa heim veruleikans í áfangum drykkjum. Og á síðkastið hafði hann venjulega tekið þann kostinn.

Stundum fanst honum hann vera að ná fullum sáttum við lífið, eins og það virtist nú blasa við honum, og þessi tilfinning vakti stöðugt í huga hans sljótt kæruleysi ásamt nístandi sárri fyrirlitningu á sjálfum sjer. Hann bjóst ekki við neinu betra af lífinu og rökrjett afleiðing þess var sú, að það drægi hann ekki oftar á tálar. Hann hafði svo oft endurtekið þá sáru ásökun, að heillaleysi sitt væri sjálfskaparvíti, að nú orðið hafði hún lítil áhrif á hann. Hann var hálf-ósjálfrátt tekinn að snúa sökinni á hendur einhverju ósveigjanlegu, óákveðnu valdi, sem ljeki með hann — og ljeki hann grátt. Þegar hann hugleiddi það, að hann þurfti einhvers smekkbætis til þess að halda í sjer lífinu, dróst hugurinn að stjórnmálunum. Þau væru eðlilegasta starfssvið hans og aðgengilegasta. Og þó voru framtíðardraumar hans um stjórnmálin honum fremur lítið áhugaefni á síðkastið, en þótt hann sæji það oft sjálfur, vildi hann ekki hrinda þeim alveg úr huga sjer, því eitthvað samband varð hann að hafa við lífið, meðan hann lifði því á annað borð.

Þótt það yrði erfiðara ár frá ári, ól hann stöðugt þá von, að einhvern tíma yrði hann áhrifaríkur stjórnmálamaður, og kæmi mörgum merkismálum fram. En hann gerði það mest af þrjósku og til þess að eiga eitthvert andlegt fjörgunarmeðal. Hann sagði við sjálfan sig, að ef það tækist, hefði hann ekki lifað alveg árangurslaust. Einhver innri rödd andmælti þeirri hugsun, að hann þyrfti að yfirgefa heiminn, án þess að hafa gert einhverja örlitla ögn af almennu, hversdagslegu gagni. En nú yrði hann senni-

lega að sætta sig við það. Hann þoldi ekki mörg áföll eins og í dag — og var ekki sterkur fyrir.

Honum rann alt í einu kalt vatn milli skinns og hörunds: nú yrði honum áreiðanlega sagt upp.

Svo brosti hann háðslega að sjálfum sjer: fyrst þessi hugsun gat haft slík áhrif á hann, átti sjálfsmorðs-hugsunin sjer ekki djúpar rætur nú frekar en endranær. — Það var engum blöðum um það að fletta, hann var ótrúlegur ræfill.

Og hann gekk áfram næstum aflþrota af hugsuninni um vesalmensku sjálfs sín ....

Örvænting hans varð að særandi sársauka. Hann heyrði hratt fótatak hinumegin götunnar, og greip færið fegins hendi til að losna við þessar kveljandi hugsanir.

Hann lyfti höfðinu þunglega og leit þangað — stansaði, hjelt sig mundu falla og greip ósjálfrátt í handlegg Eldjárns. Eitt augabragð stóð hann kyr og horfði á eftir manneskjunni, sem hraðaði sjer áfram. Svo herti hann upp hugann og hjelt áfram, en fætur hans voru svo þungir, að hann fjekk varla fært þá úr stað.

Eldjárn skipstjóri ljet sem hann hefði einskis orðið var, og hjelt áfram eins og ekkert hefði í skorist.

En þess þurfti ekki. Úlfur steingleymdi samferðamanni sínum sem snöggvast og hjelt áfram sokkinn niður í sínar eigin, ömurlegu hugsanir.

Svona djúpt blygðaðist hún sín fyrir að þekkja hann .... Svona hrædd var hún um, að hann kynni að heilsa henni .... Nú, en það var reyndar ekki að undra. Ef til vill hafði hún verið sjónarvottur að háttalagi hans áðan, já, áreiðanlega. Venjulega heilsaði hún honum vingjarnlega. En í dag flýtti hún sjer áfram, hljóp næstum, blóðrjóð í framan og laut höfði .... Jæja, hún

þyrfti ekkert að óttast. Hann skyldi ekki angra hana oftar. — Alt í einu mundi hann vísu úr kvæði, sem hann hafði orkt til hennar, en hvorki sent henni nje sýnt nokkrum:

Við brosið þitt glaða gleymi
jeg geima' og heima veg —
og mjer finst lífsins yndi alt
í orðunum: þú og jeg.

— Jæja þá, sagði hann upphátt — jæja þá ....
En jafnframt því, að honum fanst hann vera að kafna, fann hann til einhverrr fróunar: nú þurfti hann ekki að deyja. Hann gerði sjer þess ekki grein, hvernig á því stóð — en endurtók það að eins í sífellu með sjálfum sjer.

Þeir staðnæmdust fyrir utan hátt hús þrílyft. Það var úr trje og klætt bárujárni, eins og flest önnur hús við götuna. „Hótel Valhöll“ stóð þar með svörtum stöfum yfir stórum tvívængja-dyrum. Niðri var veitingastofa og veggirnir andspænis götunni þaktir stórum speglum.

Úlfur rendi augunum flóttalega að veitingastofugluggunum og bauð Eldjárni í hálfgerðu fáti að fara á undan upp steinriðin þrjú. Undir eins og þeir komu inn í göngin, þar sem dyrnar voru inn í veitingastofuna, flýtti hann sjer framhjá skipstjóranum og gekk hratt á undan honum upp breiða, brakandi stigann. Nú þótti honum aftur svo vænt um að vera með skipstjóranum. Hann kveið engu nema því, að hann færi of fljótt, því nú ægði einveran honum allra mest.

Þeir komust upp á hinn rúmgóða stigapall fyrsta lofts, án þess að nokkur yrði á vegi þeirra. En þaðan lágu dimm göng til beggja handa. Úlfur lauk upp brúnmál-

uðum dyrum beint á móti uppgöngunni, en á þær var málað 17 með hvítum stöfum.

Undir eins og dyrnar opnuðust, heyrðu þeir granna, grátkenda rödd:

— Jensen, segi jeg, agent Jensen, má jeg tala við yður örfá orð ....

Þetta þrönga, illa búna herbergi var kafið tóbaksreyk, sem rauk í þykkum flókum frá tveimur mönnum, sem sátu hlið við hlið í slitnum legubekk og reyktu vindla. Auk legubekksins var ekkert í herberginu, nema járnrúm, vængborð, með ljelegum, rauðköflóttum dúki, ruggustóll, trjestóll, fataskápur og þvottaborð. Veggirnir voru auðir, en stórir rakablettir á rifnu fóðrinu.

— Nú, svo þið eru þá komnir aftur, sagði Úlfur í vanþóknunarróm og með hörkusvip um munninn. Hann teygði sig yfir borðið, fylt flöskum og glösum, og opnaði glugga. — Jeg sje, að þið hafið viðað að ykkur. — Geti þjer nokkurstaðar náð yður í sæti, Eldjárn?

Þegar Úlfur tók tvö glös og gekk að þvottaborðinu til þess að skola þau, án þess að hirða um að kynna mennina, fór Eldjárn til þeirra. Þeir rjettu honum letilega hendurnar og sögðu sitjandi til nafns síns.

Raddgranni maðurinn, lítill, magur maður, stóreygur, rauðeygur og voteygur, klæddur svörtum lafafrakka og röndóttum buxum, leit yfirlætislega á ókunna manninn, sem honum fanst heldur illa til fara, og sagði drembilega til nafns síns:

— Sveinn Ólafsson — stórkaupmaður.

Hinn maðurinn, ungur, hár og þrekinn maður með stórt barnsandlit kvaðst heita Arngrímur Ávaldason. Hann heilsaði kæruleysis- og vingjarnlega og slengdi sjer svo aftur ofan í legubekkinn og púaði vindilinn áfram.

Eldjárn skipstjóri fór frá þeim aftur, er hann hafði heilsað þeim, og stóð kyr á gólfinu með hendurnar í vösunum og virti þá rannsakandi fyrir sjer til skiftis.

— Jensen, segi jeg þá, hóf Sveinn Ólafsson undir eins aftur máls og sneri sjer að Arngrími Ávaldasyni. En hann tók góðlátlega fram í fyrir honum og sagði:

— Nú hef jeg heyrt þetta tuttugu sinnum, gefðu mjer nú frí — og þar að auki sá jeg þetta sjálfur, bætti hann við, sem skýringu til hinna.

Sveini Ólafssyni þótti við fjelaga sinn; hann stóð upp og sneri sjer að Eldjárni skipstjóra:

— Þekki þjer Jensen — agent Jensen? Nú ekki? Jeg hjelt annars að allir þektu hann. — Jeg mætti honum hjerna niðri á götunni áðan. Jeg gekk til hans og sagði við hann, því jeg á honum dálítið grátt að gjalda —: Jensen, segi jeg, agent Jensen, má jeg tala við yður örfá orð. Fyrst ljet hann eins og hann sæji mig ekki — er það ekki svívirðilegt. Og svo sagði jeg aftur, mjög kurteislega—: Jensen, agent Jensen, eða mjer er andskotans sama: h e r r a Jensen þá, má jeg tala við yður örfá orð? Þá snýr hann sjer alt í einu við, og viti þjer hvað hann segir? — Nei, það máttu alls ekki, drykkjudóninn þinn! sagði hann við mig, skilji þjer — við mig. Röddin varð að eymdarlegu væli. — Finst yður skörin ekki færast upp í bekkinn. Hann þúar mig og segir: drykkjudóninn þinn — við mig! .... En jeg bölva mjer líka upp á það, að jeg skal mölva hann sundur, svínið atarna, mjela hann sundur, merja hann sundur, eins og úldið egg! Sveinn Ólafsson þreif í jakkahorn Eldjárns, til þess að sýna honum skýrt og greinilega hvernig hann ætlaði að fara með Jensen.

Til þessa hafði Arngrímur Ávaldason setið og horft

kæruleysislega á það, sem fram fór. Nú leit hann hvatlega til Úlfs, sem stóð brúnaþungur við þvottaborðið og þvoði glös.

— Þú vanst þá veðmálið, sagði hann drafandi og svipllausu brosi brá fyrir á andliti hans. — Við kunnum ekki almennilega við okkur í mannfjöldanum þarna niðri og fluttum okkur því upp hingað til að bíða þín. — Þetta var skolli rösklega af sjer vikið. — Þú ert svei mjer karl í krapinu. Og kampavínið skaltu fá, undir eins og eitthvert skip kemur.

Úlfur sletti síðustu lögginni úr glösunum og leit ekki við honum.

Sveinn Ólafsson hafði þegar sagt Eldjárni skipstjóra tvisvar um afskifti sín og Jensen.

— En nú hef jeg svarið þess helgan eið, að jeg skal mölva, mjela og merja hann sundur eins og úldið egg. Hann baðaði út höndunum í ákafa og fetti sig og gretti og hjelt sjálfur að hann væri ægilegur.

Þegar Úlfur gekk að borðinu til þess að hella í glösin var stórkaupmaðurinn fyrir honum, en Úlfur hrinti honum hranalega frá. En hann hjelt samt áfram frásögunni.

Arngrímur Ávaldason fylgdi hverri hreyfingu Úlfs athyglisaugum. Hann hafði það á tilfinningunni að maðurinn væri reiður, en gat ekki skilið hvernig á því stæði.

Undir eins og Úlfur hafði blandað konjaki og sódavatni handa sjer og skipstjóranum, lyfti skógfræðingurinn glasi sínu:

— Skál! sagði hann og rjetti út handlegginn, en var svo skjálfhentur, að skvettist úr glasinu.

— Skál, svaraði Úlfur kæruleysislega, klingdi ekki við hann, leit ekki á hann — en sneri sjer alt í einu að honum: — Nú er best að þið farið, þið Sveinn. Jeg þarf að

tala dálítið við Eldjárn skipstjóra og svo eru drykkjarföngin á þrotum.

— Já, því miður, sagði Arngrímur Ávaldason, tæmdi glas sitt og leit raunaaugum á löggina, sem eftir var í konjaksflöskunni. Svo hallaði hann höfðinu aftur og horfði sakleysislegu barnsaugunum á Úlf: — Liggur illa á þjer lagsi. Nú, nú, vertu nú ekki alveg vitlaus, nú skjótumst við burt. Honum tókst með erfiðismunum að koma fótunum fyrir sig og hann reikaði um eftir hattinum sínum. — Kondu nú, Sveinki, sagði hann og sletti stóra hnefanum góðlátlega á öxl fjelaga sínum — við verðum að fara og reyna að finna einhvern lækni, sem hefur svolítinn neista kristilegs kærleika — en það verður nú líklega leit á honum.

En Sveinn Ólafsson, sem stöðugt hjelt í jakkahorn skipstjórans og var að segja honum í þriðja skifti frá afskiftum sínum og Jensens, gaf honum engan gaum.

Arngrímur Ávaldason fann hattana og smelti pípuhatti stórkaupmannsins niður fyrir eyru á honum.

— Kondu nú og farðu í frakkann, sagði hann og hnipti í hann.

— Úlfur vill losna við okkur. Kondu nú. Þú hittir kanske agent Jensen úti á götunni.

Þeir hjálpuðu hvor öðrum í frakkana með erfiðismunum og alvarlegri þögn.

Svo stansaði Sveinn Ólafsson og draup höfði, eins og hann þyrfti nauðsynlega að segja eitthvað, en myndi ekki hvað það væri.

— Nú, einmitt það, svo þú vilt losna við okkur, sagði hann alt í einu og sneri sjer að Úlfi og það var sem honum ljetti. — Svo þú vilt losna við okkur, ha? Finst þjer við kanske ekki vera nógu góðir handa þjer, ha? Mjer

finst þú líka vera svo merkilegur á svipinn og grunsamlega ófullur. Þjer er kanske ekkert um, að þú vanst veðmálið, ha? Rödd hans var drembin og andlitssvipurinn ógeðslega illgjarn. — Vitanlega förum við, fyrst þú rekur okkur út. En fari það svo bölvað, ef þetta er ekki í síðasta skifti sem jeg stíg fæti mínum inn í þetta óþverra greni þitt, skilurðu það, ha?

Rauðleit rák kom fram á enni Úlfs, uppi undir hársrótum. Hann beit á vörina, tók varlega í hálsmál stórkaupmannsins og skaut honum varlega út úr dyrunum.

— Nú, nú, nú erum við að fara, drafaði Arngrímur Ávaldason og kom reikandi á eftir þeim. — Nú, nú, elski þið friðinn, nú, nú, vertu nú sæll og þökk fyrir mig. Kondu nú, Sveinki. — Úlfur harðskelti hurðinni á hæla þeim.

En eiginlega var hann sárreiðastur sjálfum sjer. — Þetta er alt sjálfs þín sök, hugsaði hann — fyrst þú leggur lag þitt við þennan lýð, verðurðu að hafa hann eins og hann er. Og svo ertu sjálfur ekki hóti betri.

Hann tók vindlakassa af borðinu og bauð skipstjóranum. Hann stóð og neri höndum, en ánægjubros ljek um svipmikla andlitið, sem stundum var svo átakanlega feimnislegt.

— Já, svona eru nú fjelagar mínir, sagði hann þrjóskulega, hrukkaði ennið og horfði hvast á Eldjárn.

Eldjárn skipstjóri svaraði honum engu, en horfði athugull í augu honum.

— Jæja, rödd Úlfs var alt í einu gerbreytt, eins og hann sæi eftir hvað hann var hvass áður. — Efniviðurinn er ekki illur, ástæðurnar heldur ekki — en útkoman hábölvuð, hvernig svo sem á því stendur. Arngrímur Ávaldason er mjer einlægt óskiljanlegt undur. Hann er

svo mikið barn, að jeg held að hann kæmist saklaus gegnum hvað sem væri. Fyrst fyrirlítur maður ástúð hans, en finnur þó smásaman, að hún er svo ósvikin og endalaus, að maður dáist að. Svona aðdáanleg ástúð er reyndar enginn galli — þvert á móti. En hann hefur aftur aðra galla .... en það er ekki mitt að dæma. Sjálfur er jeg þeim ekki hóti betri — jafnvel verri.

— En þeir voru druknir, svaraði Eldjárn, eins og það væri einasta afsökunin, sem hann fyndi — og næg afsökun.

Svar Eldjárns hafði sömu áhrif á Úlf og maður verður fyrir, sem rekst á steinvegg í myrkri. Eldjárn sat í legubekknum, en hann sjálfur í ruggustólnum. Hann tók ósjálfrátt að rugga sjer ákaft, laut dálítið fram og spenti greipar. Sár leiðindasvipur seig aftur yfir toginleita, föla andlitið.

Alt í einu varð honum hálf illa við gest sinn. — Til hvers var jeg eiginlega að draga hann hingað upp? hugsaði hann.

Andúð hans óx og óx. Að lokum gat hann ekki ráðið við sig lengur, en varð að láta hana í ljós.

— Það er ofur hægt að bera því við að þeir hafi verið druknir, sagði hann, og deilugirnin hljómaði í röddinni. — Það er yfirleitt ofur hægt að skýra alt, sem við skiljum ekki, með innan tómum talsháttum. Ef við erum sjálfir durgar, getum við gert ráð fyrir að allir aðrir sjeu það líka — og þar með búið. Ef við komumst sjálfir klaklaust áfram, varðar okkur ekkert um þó yfrum fari hjá öðrum. Ef samviska sjálfra okkar er í sæmilegu lagi, gefum við ekkert um aðra, búum bara vel og rólega um okkur í okkar eigin horni. Keppikeflið er auðvitað að búa um sig eins og skelfiskurinn. Heimur hans nær að

eins út að skelinni — ekki hóti lengra. Og þegar við erum veiddir — já, þá lesum við bænirnar okkar og rennum svo möglunarlaust niður í maga hins óþekta .... Já, já, sagði hann dálítið mildari í rómnum, þegar Eldjárn svaraði engu, vitanlega fullyrði jeg ekki, að þetta eigi alt við yður.

Eldjárn sat rólegur, dreypti á glasinu og reykti vindilinn. Hann leit við og við á Úlf og virti hann gaumgæfilega fyrir sjer.

— Jeg stekk nú ekki upp á nef mjer af hverju smávæginu, sagði hann loksins. Rödd hans var róleg og blíðubros ljek um varir hans. Jeg þekki yður nú þegar alt of vel til þess.

Úlfur leit alt í einu á hann og augnaráð hans lýsti bæði undrun og athygli.

— Þjer þekkið mig nú þegar alt of vel til þess? Við hvað eigi þjer eiginlega?

— Jeg á við það, svaraði Eldjárn skipstjóri og varð alt í einu alvarlegur og horfði beint í augu Úlfs — jeg á við það, að hvorugur okkar muni nokkra ástæðu hafa til þess að móðga eða móðgast af hinum.

Úlfur draup skyndilega höfði, því að hann fann að honum vöknaði um augu.

— Eigi þjer við það .... sagði hann skömmu seinna og rödd hans var djúp og lág. — Eigi þjer áreiðanlega við það .... Nú fyrst fer jeg alvarlega að blygðast mín, Eldjárn, bætti hann við og hló til þess að reyna að dylja geðshræringu sína.

— Þess þurfi þjer ekki, Úlfur Ljótsson, jeg skil svo ósköp vel, hvernig á því stendur að þjer eruð orðinn svo tortrygginn.

Úlfur lyfti höfðinu.

— Þjer eruð einkennilegur maður, Eldjárn .... Fyrst bjargi þjer mjer frá fangelsi eftir að jeg hef barið yður, eiginlega að ástæðulausu .... Segi þjer mjer nú fyrst, hvers vegna gerðu þjer það?

— Mjer datt það svona í hug, svaraði Eldjárn og vandræðasvip sló á andlit hans. — Svo sá jeg líka, að jeg hafði farið ranglega að ráði mínu — og þess vegna átt höggin skilið. Og mjer datt alt í einu í hug, að þjer væruð of góður til þess að komast í klípu út af þessu lítilræði.

Úlfur hristi höfuðið og virtist ekki skilja.

— Jæja, sagði hann, en hvers vegna reiddust þjer ekki áðan, þegar jeg kallaði yður durg?

— Það var ekki hægt að reiðast því, svaraði Eldjárn skipstjóri, eins og afsakandi. Jeg skildi líka undir eins, að þjer grunuðuð mig um, að hafa ætlað að sneiða yður, með athugasemdinni um fjelaga yðar.

— Nú, einmitt það! sagði Úlfur og hló — en þetta er líka nærri því móðgun. En við móðgum nú einu sinni ekki hvor annan .... og svo er þetta víst alveg rjett hjá yður.

Úlfi var alt í einu skapljett.

Þeir drukku og klingdu og voru báðir glaðir.

— Segi þjer mjer nú annars eitt, sagði Úlfur alt í einu og huldi alvöru sína brosi, fyrst þjer rannsakið hjörtu og nýru — hvað gengur að mjer? Hvers vegna missi jeg stundum valdið yfir sjálfum mjer, og fer að drekka og gera axarsköft og uppþot eða annað, sem jeg fyrirlít sjálfan mig fyrir í hjarta mjer. Sannast að segja, finst mjer jeg ekki vera heimskur. Og beinlínis djúpt sokkinn er jeg víst ekki heldur. En eitthvað er að mjer.

Eldjárn varð alt í einu alvarlegur. Hann svaraði ekki undir eins.

— Jeg held, sagði hann svo gætilega, jeg held að ef til vill sje það að yður, að þjer hafið ekki komist á rjetta hyllu, að ef til vill þurfi eins risavaxinn og aflmikill maður og þjer eruð erfiða, líkamlega vinnu, til þess að halda jafnvæginu .... En svo er víst líka eitthvað annað, bætti hann við og duldi ósjálfrátt augnaráð sitt.

Aftur varð þögn og Úlfur virti gestinn stöðugt undrandi fyrir sjer.

— Mjer hefur stundum dottið þetta sama í hug sjálfum, svaraði hann loksins dræmt.

Svo brá alt í einu brosi yfir andlit hans.

— Ef jeg verð rekinn, þá taki þjer mig sem háseta á Vonina?

— Já, með ánægju, við förum út eftir nokkra daga, svaraði Eldjárn ákafur og með svo skrítilega alvarlegri rödd, að Úlfur fjekk ekki varist hlátri.

Eldjárn hló líka hálf-hikandi.

— Nú jæja, þetta sögðuð þjer þá að eins í gamni, sagði hann dálítið stúrinn — en finst yður þetta eiginlega svo fjarri lagi. Sjómenskan er harðgerum manni ekkert leiðindalíf.

Úlfur varð undir eins alvarlegur, hann óttaðist að hann hefði sært hinn nýja vin sinn.

— Nei, mjer finst það í rauninni ekki svo fjarri lagi. — En ....

Honum varð orðfall og hann hristi höfuðið.

— Sennilega gæti jeg ekkert skynsamlegra gert. En við látum einmitt alt af ógert það, sem skynsamlegast er. Það á líka við mig.

## IV.

Eldjárn dvaldi lengi hjá Úlfi.

Þegar konjakið þraut, pantaði Úlfur kaffi.

Hann talaði í sífellu, því Eldjárn var ekki orðmargur. Hann ljet sjer nægja örfá orð, þegar hann var sammála og setti, oftast með erfiðismunum, saman stutt svar, þegar hann var ekki sammála. Áköf samræða átti auðsjáanlega ekki við hann.

Og þó Úlfur væri löngu orðinn leiður á því að tala og tæki að ugga, að hann þreytti gest sinn, þorði hann samt ekki að hætta.

Hann óttaðist að Eldjárn notaði þögnina til þess að standa upp og fara. Og enn þá óttaðist hann einveruna.

Hann reyndi með vilja ýms umtalsefni. En Eldjárn varð aldrei annað en athugull áheyrandi. Úlfur beindi samræðunni oft að efnum, sem ýtt gátu undir Eldjárn til þess að segja eitthvað af sjer og sínum högum. En Eldjárn smaug öll net, sem fyrir hann voru dregin, og gerði það svo kænlega, að Úlfur fann ekki fyr en löngu seinna, þegar hann hugleiddi samtal þeirra, að hann hefði gengið fast á hann.

Lokatilraunina gerði hann með því, að beina talinu að stjórnmálum, því hann hafði sjaldan hitt nokkurn mann, sem ekki að eins gat, heldur einnig greip fegins hendi hvert færi til þess að láta í ljós stjórnmálaskoðanir sínar.

— Jeg hef heyrt, að Gísli bankastjóri Torfason væri veikur. Eftir því sem jeg veit best, hefur hann lungnabólgu, með öðum orðum allskæðan sjúkdóm. Og hann er tekinn fast að eldast. Það er mín skoðun, að með honum hverfi einn þróttmesti maðurinn úr íslensku stjórnmála-

lífi. Og jeg er hræddur um, að við fáum að kenna á því. Jeg fullyrði ekki, að jeg finni til óskiftrar samúðar með honum. Hann er einn þeirra manna, sem koma o f viturlega fram til þess, að vekja eintóma samúð. En jafnframt get jeg ekki að því gert, að jeg dáist að honum.

Eldjárn var alt í einu orðin athyglin ein.

— Jæja, er Gísli gamli Torfason veikur, svaraði hann dræmt, þar missir Geir Thorgeir sína hægri hönd.

Úlfur brosti.

— Jeg vildi, að svo væri, sagði hann þurlega.

— Við hvað eigið þjer? spurði Eldjárn undrandi.

— Jeg á við það, svaraði Úlfur, að sambandið milli máganna er víst ekki alveg eins og fólk heldur. Það er víst heldur Geir Thorgeir, sem hefur verið hægri hönd Gísla Torfasonar en hitt. Og það er ekki laust við að jeg beri dálítinn kvíðboga fyrir þeirri hægri hönd, .... þegar bolurinn er á burtu.

Þetta undrar mig sannarlega í mesta máta, svaraði Eldjárn, og svipur hans sýndi, að hann sagði satt. — Jeg hef alt af haldið .... Nei, yður hlýtur að skjátlast. Geir Thorgeir er bæði of skynsamur til þess að gerast verkfæri í hendi annars manns .... og of heiðarlegur maður til þess.

— Geir Thorgeir er kænn maður, á sinn hátt .... sagði Úlfur — en Gísli gamli Torfasonar er að minsta kosti tíu sinnum kænni — á s i n n hátt — því að hann er sem sje, og hefur alt af verið allra mesti bragðarefur .... Það er nú mín skoðun. Þjer hafið líka alveg rjett fyrir yður í því, að Geir Thorgeir er algerlega heiðvirður maður, og mundi aldrei gerast annars verkfæri .... með v i l j a. Það hefur Gísli Torfason líka sjeð glettilega vel. Láti þjer yður ekki detta í hug, að Gísli Torfa-

son hafi nokkurn tíma látið mág sinn, ráðherrann, verða varan við, að hann væri að eins leiksoppur. Nei, hann hefur komið öllu svo kænlega fyrir, að leiksoppurinn hefði ekki hugmynd um hver velti honum ávalt — en haldið sig velta af sjálfsdáðum. Og þetta hefur verið honum því auðveldara, sem hann hefur hagnýtt sjer það, sem hann hefur álitið hina veiku hlið mágs síns: hina flekklausu lyndiseinkunn hans. En það er engum efa undirorpið, að Gísli Torfason hefur hugsað þá stjórnarstefnu, sem Geir Thorgeir hefur framkvæmt. Hans fingraför eru svo augljós, að ekki er um að villast. En hann hefur vitanlega lagt þetta svo kænlega fyrir mág sinn, að hann hefur haldið það sín eigin verk.

Eldjárn hafði ekki svar á reiðum höndum, en hristi höfuðið ákaft.

— Geir Thorgeir er einn þeirra manna, sem ósjálfrátt vekja traust manns, hjelt Úlfur áfram og efi vinarins æsti hann. Það er eins og trúanleikinn skíni út úr allri framkomu hans og .... og trúverður er hann líka. En hann er líka einn þeirra, sem ekki eru lengi að gera sjer grein þess, sem í kringum hann er, og álítur svo þessa greinargerð altrygga skoðun, jafnvel þó undirstaðan sje ekki alt af sem föstust. Þess vegna hefur hann svo auðveldlega orðið verkfæri í höndum Gísla Torfasonar. Gísli Torfason hefur vitað frá öndverðu, að á betra verkfæri var ekki völ. Samviskusemi og óeigingirni Geirs Torgeir breiðir sjónhverfingablæju djúphygninnar yfir alt, sem hann gerir. Maður verður að þekkja hann mjög vel til þess, að nokkur efi vakni um djúphygni hans. Þetta hefur Gísli Torfason sjeð, þegar í æsku .... Og hver veit nema hann hafa bara gefið systur sinni hann hjer á árunum!

Eldjárn hló, en þó gramdist honum.

— Nei, heyri þjer nú — nú eru þjer að gera að gamni yðar.

Gamni og gamni ekki, hann væri vís til þess, skollinn sá arna. Honum hafa aldrei vaxið smáræðin í augum. Nú, en hjónabandið hefur reyndar gengið vel. Og stefna flokksins hefur stöðugt verið sú besta og hyggilegasta, sem hjer hefur þekst. — en það þarf reyndar ekki mikið til þess. En þrátt fyrir öll strákapör, skilur Gísli gamli Torfason eftir autt sæti, sem enginn hægðarleikur verður að skipa. Og þess vegna vona jeg að hann tóri, syndaselurinn.

— Hvern haldið þjer að flokkurinn bjóði fram til þings í hans stað, ef hann deyr? spurði hann loksins og horfði rannsakandi á Úlf.

— Sannast að segja, held jeg, að þeir gerðu ekkert skynsamlegra en að styðja mig! — Úlfur hló hátt og ánægjulega. — En þeir þora það ekki — og jeg yrði líka sennilega ekki kosinn. Því að það verður ekki sagt, að jeg sje beinlínis í áliti hjá fólki. Nú, en í alvöru talað, þá held jeg, að Björn Halldórsson læknir taki við af honum, ef hann hefur tíma til að eiga nokkurn verklegan þátt í stjórnmálunum .... eða kærir sig um það.

— En því ekki faðir yðar? spurði Eldjárn varlega.

Úlfur stóð upp, meðan þeir ræddu þetta og gekk dálítið fram og aftur, til þess að teygja úr fótunum, en staðnæmdist nú fyrir framan vin sinn.

— Jú, það skal jeg segja yður, svaraði hann ákveðið — það er af því, að faðir minn fjellist aldrei á, að bjóða sig fram. Og mjer finst það laukrjett af honum .... hann er alt of góður til þess. Og flokksforkólfarnir vita líka vel, að hann yrði ekki fastur flokksmaður á þingi —

hann hefur alt of næma rjettlætistilfinningu til þess. Ef hann yrði þingmaður gæti ekki hjá því farið, að hann yrði flokksleysingi fyr eða síðar. Faðir minn lætur ekkert annað hafa áhrif á sig, en sitt góða hjartalag og heilbrigðu skynsemi. Það er gott, jafnvel mikils virði, að eiga hann að stuðningsmanni, því allir verða að líta upp til hans og engum mundi nokkur tíma detta í hug að sverta hann, eða reyna að sverta hann í augum manna. En — lofi þið honum að skoða þetta alt ofan í kjölinn, lofi þið honum að sjá, um hvað þetta snýst eiginlega, alt saman, og hvaða þokkaráðum stundum er beitt — og hann segir sig undir eins úr flokknum.

— Það verður varla sagt, að þjer talið með neinni sjerstakri virðingu um stjórnmál okkar og stjórnmálamenn, sagði Eldjárn hlæjandi.

— Hvernig í ósköpunum ætti jeg að geta það? spurði Úlfur í ákafa. Ö l l stjórnmál hljóta a l t a f að meira eða minna leyti, ef ekki aðallega, að snúast um valdakepni einstakra manna og ekki alt af af samviskusamasta tæginu. Og þetta á einkum við eins fáskrúðugt stjórnmálalíf og okkar. „Idealisti“ í stjórnmálum er eins sjalddgæfur og önnur náttúruundur! Reyndar höfum við átt einn. Og lýsir það ekki ö l l u m stjórnmálum einstaklega vel að hver flokkur um sig reynir nú að sanna, að einmitt h a n n haldi fram stefnu þessa manns .... En þakki þjer fyrir, að hans rödd heyrist ekki lengur. Þá fengjuð þjer annað hljóð úr strokknum. Jeg býst ekki við, að hann yrði neitt sjerlega hrifinn af því að vera sakaður um að eiga upphaf þeirrar stefnu, sem steypir landinu í voða. Ást hans á landi, þjóð og tungu var of ósvikin til þess. Og jeg held líka, að hann tæki tæplega undir með stórkaupmönnunum okkar og segði tungu og

þjóðerni norður og niður, ef að eins peningar streyma inn í landið. Hann mundi ekki hafa litið hýrum augum þessa vaxandi Englendingavináttu, að jeg ekki segi Englendingatilbeiðslu. Jeg held, að hann hefði sjeð, að samband við einhverja stóra og miklu sterkari þjóð væri okkur einmitt alverlega hættuleg — að högum okkar í raun og veru sje þannig háttað nú, að við ráðum sjálfir öllum innanlandsmálum okkar og í stað þess að halda áfram þrætu út á við, sem er okkur til lítils sóma, ættum við að beina kröftum okkar að aukinni einingu og samheldni inn á við og safna allri orku okkar um eflingu þróttar, einingar og ábyrgðartilfinningar þjóðarinnar gagnvart eðlilegum úrlausnarefnum sínum í framtíðinni. Því við getum ekki alt af lifað á því að gorta af engu.

Eldjárn fölnaði.

— Kalli þjer það ekkert —sagði hann og rödd hans titraði, að hafa borið blómlega menningu, þó gömul sje, og geta rakið kyn sitt til höfðingja?

— Já, það getur verið einskis nýtt, svaraði Úlfur, en rödd hans varð undarlega þýð, er hann heyrði ákafa vinar síns.

— Er það líka einskis nýtt, að hafa varðveitt tungu sína og þjóðerni hreinna, en nokkur önnur þjóð, sem þjer getið bent á?

Nei, svaraði Úlfur vingjarnlega, það er að minsta kosti að sumu leyti kostur, sem við megum miklast af. En segi þjer mjer hreinskilnislega hvort þjer haldið, að okkur hefði tekist það, ef lega okkar langt frá öðrum hefði ekki verið okkar styrkasta stoð?

Eldjárn sat upprjettur og barði hart í borðið með fingurgómum hægri handar — hann gat ekki svarað.

— Samt sem áður er jeg þeirrar skoðunar, að við getum verið stolt, hjelt Úlfur áfram — en það er þetta vaxandi dramb, sem jeg þoli ekki, því það er aldrei annað en tilraun þess, sem veikur er fyrir, og veit að hann er það, til þess að sýnast sterkur. En guð veit að við megum vera stolt. Við höfum barist hraustlega móti ís og eldi, hörmungum og hungurmorði og óblíðri náttúru og óstöðugri veðráttu .... Og svo verður því ekki neitað að Snorra höfum við átt .... og erum, eins og þjer sögðuð, flestum fremur af höfðingjakyni ....

Hann hló, en það komu alt í einu tár fram í augu hans.

— Nú sjái þjer að jeg viðurkenni, þrátt fyrir alt, að þjer hafið á rjettu að standa.

— Já, þjer máttuð til, svaraði Eldjárn hægt og honum hálf-vöknaði líka um augu, annars hefðu þjer ekki verið sannur Íslendingur.

Úlfur gleymdi alt í einu öllum stjórnmálum.

— Þjer þekkið víst Vík og ströndina þar í kring, spurði hann hugsandi.

— Já, svaraði Eldjárn brosandi — þar hef jeg komist í hann krappastan.

— Fyrir nokkrum árum fór jeg austur með einu strandferðaskipinu, hjelt Úlfur áfram. — Við lágum um nótt í Vík. Það var dimm, skýþung nótt. Máninn glotti að eins stöku sinnum gegnum skýjarofin og varp einkennilegum töfrablæ á hafið og hið hrikalega landslag. Þá nótt skildi jeg fyrst til fulls, hvert afreksverk landnámsmenn okkar unnu, einkum þeir fyrstu, er þeir fóru til þessa óblíða, óþekta lands í opnum bátum. Mjer finst það eitt mesta afreksverk mannkynssögunnar. Og þá skildi jeg líka að einungis í höfðingjasál gat sú hugsun myndast að taka sig upp af ættleifð sinni og fytja sig til fjarlægs,

óþekts lands með slíkum erfiðleikum, til þess að varðveita frelsi sitt og sjálfstæði. Og jeg skildi, að það þurfti hetju til framkvæmdar þessari hugsun. Og jeg skildi líka að það bindur mönnum skyldubagga að vera afkomendur slíkra mann. Og aldrei hef jeg fundið það eins glögt og þessa nótt, hvert ómenni — já, beinlínis ræfilstuska jeg er.

Úlfur sagði síðustu orðin ofur rólega. Þegar hann þagnaði, settist hann þreytulegur í ruggustólinn, studdi olnbogunum á hnje sjer og hökunni á hnúana.

Svo kom þögn og vinirnir forðuðust að líta hvor á annan.

— En nú er ástandið alt öðru vísi .... hóf Eldjárn hægt og feimnislega máls.

Úlfur reis hratt upp.

— Já, já, jeg skil ósköp vel, að með sjálfum yður eru þjer að reyna að afsaka mig og jeg þakka yður fyrir það. En það er alveg árangurslaust, því jeg hef enga afsökun. Lyndisgalli er það eina, sem jeg get bent á mjer til afsökunar — og það er engin afsökun. Sjálfs mín vegna stendur mjer það nokkurn veginn á sama. Jeg er ekkert nema óverulegur einstaklingur, sem ekkert gerir til hvernig fer fyrir. Líf mitt og örlög eru öllum alveg óviðkomandi, nema sjálfum mjer og nánustu vandamönnum mínum. Nei, en hitt veldur mjer alvarlegra áhyggja, að jeg er hræddur um, að það sjeu fleiri eins og jeg, þó nokkrir — jafnvel margir. Og þess vegna er mjer ávalt fróun að hitta menn eins og þ i g, Eldjárn, því nú þúa jeg þig, ef jeg má það. Og jeg vona innilega, að á meðal uppvaxandi æskumanna okkar sjeu fleiri þ í n i r en m í n i r líkar.

— Heimska, tók Eldjárn feimnislega fram í — þú áfellir sjálfan þig alt of mikið.

— Nei, þetta er engin heimska og jeg áfelli mig ekki of mikið. Heilbrigð dómgreind er hjer um bil það eina, sem jeg hef óskert. Jeg er ....

— Nei, jeg hlusta ekki á meira, tók Eldjárn hlæjandi og vingjarnlega fram í. Og svo er komið undir kvöld, jeg verð að fara.

Hann stóð upp og tók hatt sinn.

Úlfur var að því kominn að spyrja hann hvenær hann fengi að sjá hann aftur — en hætti við það á síðustu stund. Sársaukinn af því að þora það ekki læstist eins og eitur um hug hans og vakti veika andúðartilfinningu gagnvart vini hans.

Eldjárn rjetti honum höndina.

— Vertu nú sæll, sagði hann glaðlega, og þakka þjer fyrir samveruna í dag. — Handtak hans var hlýtt og vingjarnlegt.

— Vertu sæll og þakka þjer sjálfum. — Úlfur leit niður fyrir sig og fylgdi honum til dyra.

En Eldjárn sneri sjer við í dyrunum.

— Verðurðu hjerna á morgun — á einhverjum vissum tíma?

— Já, svaraði Úlfur ánægjulega, hugsaði sig dálítið um og tiltók tímann.

Eldjárn kinkaði kolli.

— Það getur vel verið að jeg líti upp til þín, sagði hann og rjetti honum aftur höndina.

Úlfur þrýsti hönd hans.

— Vertu velkominn og blessaður kondu.

Úlfur sneri lyklinu undir eins og Eldjárn var kominn út.

Svo gekk hann þreytulega að legubekknum, ljet fallast í hann, huldi andlitið í höndum sjer og stundi hátt. En þetta var að eins eitt augabragð, svo reis hann snarlega upp, og skammaðist sín hálfgert. Hann tók að afklæða sig og henti frá sjer fötunum, eins og þau væru saurguð.

## V.

Úlfur hugsaði alt af um Eldjárn, meðan hann hafði alfataskifti og þvoði sjer og rakaði. Reyndar hafði Eldjárn ekki verið orðmargur, og ef til vill var mynd hans þess vegna svo skýr í huga Úlfs.

Allra almennilegasti maður, þessi Eldjárn, hugsaði hann. Hann er dálítið barnalegur, eins og sennilega allir menn með heilsteyptri lund. En samt sem áður — var það ekki ófyrirgefanleg stórmenska af manni eins og Úlfi Ljótssyni, að kalla lyndismerg Eldjárns, trú hans á mennina og traust hans á lífinu, að kalla það barnaskap. Jú, hann fjelst á það, en datt ekkert betra orð í hug í svipinn. Og það átti ekki að vera neitt niðrandi, þvert á móti. Sjálfur hefði hann fegins hendi keypt ögn þessa sama barnaskapar — fyrir svo að segja hvað sem krafið væri — ef hann hefði getað. En það væri víst ekki því að heilsa, onei ....

Eldjárn, hann vissi alt af hverja leið hann átti að fara — hann var aldrei í efa, hann þekti ekki þetta snatt aftur og fram. Hann eitraði ekki líf sitt. Í hans augum var veruleikinn veruleiki — og það meira að segja ekkert vondur veruleiki — og draumaheimarnir draumaheimar og þar með búið. Það var óskiljanlegt, að svona menn

skyldu vera til. Og þegar við hugsum um þá og þekkjum þá ekki, hættir okkur ávalt við að álíta þá eigingjarna og þröngsýna. Og þó var ekkert ólíkara mönnum eins og t. d. Eldjárn. Hann var reiðubúinn til þess að fórna lífi sínu til þess að forða lífi annara, og óviðkomandi manna — og áleit það meira að segja sjálfsagt. Hann sýndi það og sannaði þegar hann bjargaði botnvörpungsskipshöfninni .... og þegar hann hugsaði um þetta, fann hann, að það var eiginlega þessi vitneskja um hann, sem orðið hafði til þess, að Úlfur opnaði honum hjarta sitt og huldustu hugrenningar ....

Og hann var heldur ekki þröngsýnn. Það þurfti mikla göfugmensku til þess, að koma eins fram við andstæðing sinn og Eldjárn gerði í dag ....

En hvernig skyldi það ganga, ef menn eins og Eldjárn ættu að stjórna landinu? .... En til þess kæmi aldrei. Þeim var ekkert fjær skapi en það, að trana sjer fram og öll orka þeirra kom ósjálfrátt fram í verki — en í stjórnmálunum var hennar einnig krafist í orði! .... En eflaust væri hverju landi heilladrýgst að slíkir menn stjórnuðu því. Það hreinsaði loftið. Og losaði landið við valdasýkina, sem alt af fyr eða síðar slær út um allan stjórnmálalíkama þjóðanna eins og drepkýli .... Nú talaði hann svei mjer í ósviknum stjórnmálatón — já, það var engum blöðum um það að fletta, að hann átti heima í ræðustól. Hann var einn þeirra, sem áreiðanlega kæmust áfram, eins og það er kallað, ef hann að eins hjeldi sjer skaplega í skefjum, en það var reyndar fjarri því. Hann var orðsins maður, já, einmitt .... og mundi einnig ætlað að verða hrekkja- og hrossakaupamaður, þegar að því kæmi. Hann var sem sje nógu djúphygginn .... Sveiattan!

Hann lauk við að klæða sig, og það var kvalablær á föla andlitinu, sem þó var undursamlega sviphreint, þegar hann hafði þvegið sjer og rakað og þjáningablærinn, sem skein út úr æskufögru dráttunum og sveipaði gráu augun, fegraði það enn þá meira.

Svo tók hann hatt sinn, leit sárum fyrirlitningaraugum kringum sig í óvistlega herberginu, fór út, aflæsti dyrunum á eftir sjer og stakk lyklinum í vasann.

Þegar hann kom út á götuna, gekk hann rjettur og rólegur, en horfði hvorki til hægri nje vinstri.

Heili hans var hugsanaþrotinn. Hann var gagntekinn óvissum, kveljandi kvíða fyrir því að hitta föður sinn. Ef til vlll hefði faðir hans þegar orðið einhvers áskynja — ef til vill gæti hann gert sjer þess nokkurn veginn grein, hvernig í öllu lægi. En áreiðanlega sæti hann þarna með bros á vörum .... og böl í hjarta.

Hann hraðaði göngunni, því kvíðinn varð smásaman óþolandi.

Hann gekk inn um útidyrnar og hengdi yfirhöfn sína upp í forstofunni. Honum var eins í skapi og hrollhræddum manni, sem gengur undir ískalda steypibunu.

Og nú kviknaði í sál hans, eins og endrarnær, þegar samband hans við einhvern annan mann þjáði hann, einhver andúð gagnvart honum, samfara blygðunartilfinningu um órjett sjálfs sín.

Hann barði hægt að setustofudyrunum og opnaði þær varlega, því ef faðir hans kynni að vera inni í skrifstofu sinni, vildi hann ekki láta hann heyra til sín. Það væri svo gott að mega sitja dálítið og jafna sig. — Ef faðir hans hefði enn þá einskis orðið áskynja, yrði sjer ókleyft að segja frá því, sem hann hefði haft fyrir stafni fyrri

hluta dagsins .... Og hann hafði enga afsökun fundið við því, að hann kom ekki til máltíða.

Hann gekk hægt inn og ljet dyrnar hljóðlaust aftur á eftir sjer. Enginn var í stofunni.

En dyrnar inn í skrifstofu föður hans stóðu opnar og hann sá undir eins hið lútandi, gráhærða höfuð föður síns — hann sat fyrir framan skrifborð sitt og huldi andlitið í höndum sjer.

Úlfur stóð kyr og hjelt niðri í sjer andanum. Fyrst fyltist hann blygðun yfir því, að hafa komið föður sínum að óvörum. En þó mátti gleðin sín mest í huga hans .... einhver óljós gleði .... gleði, sem alt í einu streymdi fram í sál hans, þegar hann sá föður sinn sitja þannig, gleði, sem þokaði undir eins fyrir þungri, þjakandi sorg og sárasta samviskubiti.

Hann ætlaði að fara aftur, án þess að gera vart við sig, fara eins hljóðlaust og hann kom. En þó hann vekti engan hávaða, barst hreyfingin einhvern veginn til meðvitundar föður hans og hann lyfti höfðinu.

Hann hóf höfuðið þunglega og horfði bæði undrandi og utan við sig fram í stofuna, sem hann hjelt mannlausa.

En þegar hann kom auga á son sinn, breyttist augnaráð hans og útlit alt í einu og varð milt og ástúðlegt.

Ert þú þarna, drengur minn, sagði hann lágt og óskýrt, næstum hvíslandi og stóð upp, gekk til Úlfs, tók hönd hans og strauk um öxl honum.

Alt af hafði þessi rödd sömu, undarlegu áhrifin á Úlf. — Þó hún væri venjulega lág og óskýr, varð hún þó há og hljómrík undir eins og hann kom upp í prjedikunarstólinn. Einu sinni á barndómsárum sínum spurði Úlfur móður sína: Hvernig stendur á því, að pabbi talar alt

af svo lágt hjer heima — er það af því, að hann hefur talað við guð? ....

— Þú kemur seint í dag, drengur minn, hjelt sjera Ljótur áfram, en slepti ekki hönd hans eða öxl — en jeg sje, að það er þó, guði sje lof, ekkert að þjer. Var mikið að gera í stjórnarráðinu?

Úlfi ljetti, og hann greip feginn færið til þess að blekkja föður sinn.

— Já, svaraði hann, en varð að líta niður fyrir sig— jeg var orðinn of seinn með dálítið, sem nauðsynlega varð að ljúka við — og hann tók með ánægju eftir að enginn óstyrkur var í röddinni.

— Hefurðu þá ekkert borðað? spurði faðir hans í umhyggju-ákafa.

— Jú, jeg skautst inn í veitingahúsið, það var skemra.

— Jæja þá, jæja þá, það er gott drengur minn, sagði sjera Ljótur rórri og skelti glaðlega á öxl sonar síns, gekk frá honum og settist í legubekkinn milli glugganna. Tyltu þjer niður, Úlfur, við skulum sitja hjerna og rabba þangað til teið kemur. Jeg skal segja þjer, jeg hef verið hálfórór út af þjer í dag. Það var hvað eftir annað komið að mjer að senda ofan í stjórnarráð. En það var gott, að jeg gerði þjer ekkert ónæði .... Fyrra hluta dagsins datt það alt í einu í mig, að eitthvað hefði komið fyrir þig. Mjer hefur aldrei verið alveg rótt síðan .... Og jeg held, að jeg hefði sent ofan eftir, ef jeg hefði ekki verið hálfhræddur, hahaha. Hann hló lágt og eins og afsakandi. Og svo sagði jeg við sjálfan mig, að jeg hefði undir eins verið látinn vita um það, ef eitthvað hefði komið fyrir þig, ef þú hefðir til dæmis alt í einu orðið veikur, eða slasast eitthvað. Já, já, mjer þykir vænt um, að þessir órar mínir eru ekki alt af rjettir

— þó þeir sjeu það oftast. Að minsta kosti þakka jeg guði fyrir, að þeir voru það ekki í þetta skifti.

Úlfur settist í strástól við annan glugga stofunnar. Sjera Ljótur sat þannig, að hann þurfti að líta við, til þess að sjá son sinn.

Úlfur heyrði að eins að hálfu það, sem faðir hans sagði. Hann horfði út yfir túnin og strjálu húsin. Hann hugsaði um móður sína ....

Hjerna var hún vön að sitja — uns sjúkdómurinn ágerðist svo, að þeir gátu ekki látið hana vera heima. Hún óskaði þess oft, að hús þeirra hefði staðið einhversstaðar þar, sem hún gæti sjeð yfir fjörðinn og Esjuna. En, svo höfum við blessaða sólina seinni hluta dagsins í staðinn, bætti hún alt af við .... Nú sá hún út yfir fjörðinn úr glugganum sínum. Um hvað skyldi hún hugsa, þegar hún sæti svona ein við gluggann allan liðlangan daginn. Ef til vill hugsaði hún alls ekki neitt, sæti rænulaus og starði og starði .... uns örvænting hinnar einmana, sjúku sálar hennar safnaðist saman og brytist út í einu þessara æðis-, kvala- og kvartanakasta, sem hann hrylti við að minnast. Æ, vesalings, vesalings mamma .... Nei, nú komu tár fram í augu hans. Hann þoldi ekki að hugsa um móður sína .... Hann vonaði að faðir sinn liti ekki við fyr en tárin þornuðu, því hann þorði ekki að hreyfa sig til þess að þerra þau. Faðir hans mundi skilja hvernig á þeim stæði .... og hryggjast .... Hann hrylti við allri þessari tilgangslausu hrygð.

Alt í einu tók hann eftir því, hve rödd föður hans var glaðleg og mjúk.

— Í dag fór jeg alt í einu að hugsa um þig þegar þú varst barn, svona fimm eða sex ára. Já, árin líða og nú er langt síðan. Nú ertu þrítugur. Nei, það er alveg

óskiljanlegt, að svona langt sje síðan .... Manstu eftir því, að þegar þú vaknaðir á nóttunni, þá komstu alt af upp í rúmið til mín og vaktir mig — þar var engin miskunn. Og hann leit brosandi til Úlfs.

Úlfur sá það og hristi höfuðið, en svaraði ekki, leit ekki frá glugganum.

— Þú sagðist ekki geta sofið fyrir hugsunum, sagði sjera Ljótur og minningarnar hlógu í huga honum. Þú varst sem sje orðinn dálítill heimspekingur undir eins. Og þú lintir ekki látum fyr en þú vaktir mig, svo að jeg gæti hlustað gaumgæfilega á og svarað þegar við átti. — Pabbi, hugsar þú ekki líka best í myrkri, spurðir þú oft, hahaha .... Einu sinni þegar tunglið skein beint inn til okkar, vaktirðu mig og sagðir: Pabbi, nú veit jeg hvað tunglið er. — Hvað er það? spurði jeg mjög alvarlegur. — Jú, það er höfuð guðs, sagðir þú hrifinn af visku sjálfs þín. — Og nú veit jeg úr hverju guð skapaði heiminn, pabbi. — Jæja, svaraði jeg aftur og var athyglin ein. — Hann skapaði hann úr líkama sínum — því það getur ekki verið, að hann hafi skapað hann úr engu .... Hverju átti jeg að svara? Jeg valdi skynsamlegustu leiðina og þagði .... Öðru sinni sagðir þú: — Jeg hef oft hugsað um af hverju guð bjargaði ekki öllum dýrunum, þegar hann ljet syndaflóðið koma, — því það voru mennirnir einir, sem voru syndugir og spiltir. En nú skil jeg það. Hann hefur víst breytt þeim, svo þau gætu lifað í vatni, og svo hafa þau orðið að allskonar fiskum .... Rjettlátur hefur þú alt af verið, sagði sjera Ljótur og sneri sjer að syni sínum. En það var ekki alt af hægðarleikur að eiga við þig, þegar þú varst í þessum heimspekishugsunum, eins og til dæmis þegar þú ætlaðir að láta mig játa, að það hefði verið

órjettlátt af guði að láta trje, sem Adam og Eva máttu ekki borða af, vaxa í aldingarðinum Eden — því alt af lokar mamma sykurinn inni í skáp — nema þegar hún gleymir því, sagðirðu .... Hahaha!

Sjera Ljótur hætti þegar stúlkan kom með teið. Hún kveykti á lampanum og dró niður gluggatjöldin og stóð svo kyr um stund.

— Á jeg að kveykja á lampanum á skrifborði dómkirkjuprestsins?

— Já, þakka yður fyrir, svaraði sjera Ljótur vingjarnlega — og ef einhver kemur að finna mig í kvöld, þá láti þjer hann ekki gera mjer ónæði, nema brýnt erindi sje.

Svo settust feðgarnir og drukku kvöldte sitt og ræddu hitt og þetta, sem efst var á baugi í þann svipinn.

Er þeir höfðu drukkið teið, stóðu þeir báðir upp í einu og rjettu hvor öðrum hendina.

Sjera Ljótur fór inn í skrifstofu sína og kom aftur með vindlakassa og bauð Úlfi. Það voru gestavindlar hans. Hann reykti ekki sjálfur.

Úlfur skar framan af vindlinum og kveykti í honum við lampann. Svo buðu þeir hvor öðrum innilega góða nótt.

— — — Úlfur hugsaði um föður sinn meðan hann gekk hægt upp stigann til herbergis síns .... Svipur föður hans varð alt í einu svo raunalegur þegar þeir skildu. Nú færi hann líklega að vinna að ritgerð sinni um heimsstyrjöldina .... ritgerð, sem hann sagði Úlfi að hann skrifaði að eins til þess að gera sjer grein fyrir sjálfum sjer. Eins heiðarlegur og góður maður og faðir hans átti sennilega bágt með að koma þessari hrottalegu heimsku, þessum glæp gegn allri menning og mannúð, í samræmi við lífsskoðun sína og guðshugmynd. Hann

mintist aldrei á styrjöldina, nema einstöku sinnum úr stólnum — og grjet þá alt af. Hann sagði Úlfi, að hann þyldi ekki að tala um hana. En verst var þó, hafði hann einnig sagt honum, að hann þoldi ekki heldur að hugsa um hana og gat ekki með lífi og sál fylgst með því sem fram fór .... og þó fanst honum það skylda sín. Einu sinni hafði hann jafnvel sagt, að hann vildi hafa dáið áður en styrjöldin gaus upp — því guð veit einhverja skýringu á þessu .... eitthvert vit hlýtur að vera í því sem skeður. Öðru sinni sagði hann — og það var í fyrsta sinn í langan tíma að hann nefndi konu sína, sem hann annars þoldi illa að minnast á: Guðbjörgu líður vel að heyra ekkert um allar þessar hörmungar og hún mundi heldur ekki skilja, um hvað verið væri að tala, þó hún kynni að heyra það. Guð hefur ef til vill viljað þyrma henni — og þess vegna — hann hætti og lauk ekki við setninguna — en bætti skömmu seinna við: Hún hefði ekki þolað þetta, eins og hún var tilfinninganæm ....

Jú, faðir hans var þróttmikill. Trú hans gerði hann stundum ofurmannlega þróttmikinn, að Úlfi fanst. Og hann efaðist eiginlega aldrei um, að faðir sinn mundi finna einhverja friðandi ráðningu þeirrar grimmilegu styrjaldargátu, sem heimsstyrjöldin var og hlaut ávalt að verða h o n u m. Hin bjargfasta trú hans og þróttur lögðu honum lið .... Þeir menn voru farsælir, sem gátu trúað ....

Hugur Úlfs fyltist friði og sælu undir eins og hann opnaði dyrnar inn í rúmgóða herbergið sitt og sá fallegu húsgögnin og alsetta bókaskápa meðfram veggjunum.

Nú var hann aftur heima hjá sjer.

Honum fanst hann hafa verið að heiman árum saman.

Honum fanst hann alt af verða annar maður hjerna

inni. Hjerna urðu kvæðin hans til — hjerna gerði hann sjálfum sjer góðu loforðin — hjerna dreymdi hann drauma sína. Og að eins hjerna tókst honum einstöku sinnum að gleyma sjálfum sjer við hugsanir sínar eða einhverja bók.

Hann kveikti á lampa sínum og dró tjöldin fyrir gluggann. Svo settist hann í hægindastól og sat kyr og reykti ....

Alt í einu mundi hann glögt og greinilega eftir einni samræðu þeirra feðga — samræðu, sem eiginlega hafði ákveðið samband þeirra. Það gerðist í þessu herbergi .... Það var skömmu eftir að hann kom heim frá Höfn að loknu prófi. Af heimskulegri þverúð stofnaði hann nokkrum sinnum til ósvikinna svallgilda þarna uppi, bauð strákum og stelpum, söng og ólmaðist. Það var að því komið, að faðir hans yrði sviftur embætti fyrir það .... En einkum var það þó út af sögunni um hana Laugu, sem einhver hafði sjeð koma þaðan út snemma morguns. Það var líka ljót saga og heimskuleg. — Svo var barið að dyrum kvöld eitt og faðir hans kom inn, undarlega hljóður. Hann settist í legubekkinn og sat þar lengi, en kom engu orði upp. Svo reis hann alt í einu upp .... vandræðalegur, eins og það væri hann, sem ætti að biðja afsökunar. Úlfur mundi greinilega eftir honum meðan hann stóð þarna. Svo hóf hann loksins máls, stilt og slitrótt. Úlfur mundi enn þá hvert einasta orð. — Ja, drengur minn .... nú ertu orðinn svo gamall, að þú verður vitanlega að breyta í öllu eftir samvisku sjálfs þín og líkamlegum og andlegum þrótti .... Ef þú g e t u r ekki fylgt þeim lífsreglum, sem jeg af vanmætti hef reynt að kenna þjer — — þá kemur það þjer og guði einum við .... Ef til vill er það mjer að kenna

.... Jeg ætla að eins að biðja þig að draga ekkert slíkt inn á heimilið, sem vitanlega er alveg óskylt öllu heimilislífi. Mjer þætti leiðinlegt ef þú flyttir samfundi þína og vina þinna, sem jeg geri ráð fyrir að þeir sjeu, sakir þessara orða á opinbera veitingastaði. Jeg ætla þess vegna, þó það sje dálítið skrítið föðurráð, að stinga upp á því, að þú leigir þjer sjerstakt herbergi til þessara samfunda. — Jeg vona, drengur minn, að þú reiðist ekki af því, þó jeg sletti mjer svona fram í málefni þín — jeg geri það ekki í illum ásetningi .... og jeg reyni að gera það eins varlega og jeg get. Síðan hún móðir þín fór hjeðan, finst mjer jeg eiginlega eiga þig einan eftir í þessum heimi. Og jeg þoli ekki að hugsa mjer að nokkur komi og skilji okkur ....

Faðir hans hætti alt í einu, brá hendinni fyrir augun og gekk hratt út úr stofunni.

Daginn eftir var hann alveg eins og hann átti að sjer — kátur og blíður, eins og ekkert hefði í skorist. Og síðan mintust þeir aldrei á þetta. En hann sá oft, hve faðir hans þjáðist. ....

Ást föður hans á honum var ekki venjuleg föðurást; þess var hann viss, og það sagði hann oft við sjálfan sig. Í rauninni var honum alveg óskiljanlegt, að föður sínum þætti svo vænt um sig — hann skildi ekki hvernig á því gæti staðið, — skildi ekki hvaðan honum kom öll þolin mæðin og umburðarlyndið .... Ef til vill var skilningsleysi föður hans sök á því .... ef til vill skildi hann ekki, hve lítið hann var ástar hans verður ....

Og nú komu hugsanirnar um sjálfan hann, samfara þjakandi þunga.

Hjartað barðist og blóðið þaut örar en áður og Úlfur endurlifði í huga sjer alt líf sitt — frá örlögstundinni

Það þjakaði hann og þjáði, og að lokum sat hann í einu svitalöðri og ógeðið læstist eins og þróttarþrot út um líkama hans og þyngdi limi hans, svo að honum virtist hann ekki geta hreyft sig. En hann varð, varð, v a r ð að komast að raun um, h v a ð fyrir hann hefði komið og að hve miklu leyti hann ætti sjálfur sök á því .... En hann fjekk aldrei neinn botn í þetta. Endirinn var alt af sá, að hann kendi sjer kæruleysilega um alt saman — og var engu nær.

Hann byrjaði að hugsa um fyrstu ferð sína til Kaupmannahafnar ....

Hann mundi greinilega eftir Margrjeti, vextinum og yndisþokka fyrstu æskuáranna í hverri hreyfingu, dökkbrúnu augunum og mikla, svarta hárinu. Hann sá hana í huga sjer, sitjandi í bátnum, er hún fylgdi honum á skipsfjöl með foreldrum hans. Hann mundi hve þögul hún var, hlátur hennar hljómaði aldrei allan þann dag. En þó var hún svo kæruleysislega köld í viðmóti. Einstöku sinnum varð hann var við að hún starði á hann, og augu þeirra mættust, en hún leit undireins undan. Seinustu dagana áður en hann fór, var hann stöðugt að hugsa um að fara til hennar og segja henni alt saman .... Því honum fanst, að hann gæti ekki farið svo, að hann segði henni ekki, hve innilega hann elskaði hana og fengi vissu sína um, að hún elskaði hann einnig. Hann h j e l t að hún gerði það. Hann var eins viss um það í hjarta sínu og kvíðinn, ástfanginn unglingur getur verið. En hvað oft, sem hann ásetti sjer, að nú s k y l d i hann segja henni það, þá varð aldrei neitt af því. Það kom alt af eitthvað fyrir. En þó reið það baggamuninn, að honum fanst það hlægilegt að biðja sjer stúlku svo ungur og hafa svo smátt að bjóða — átta ára bið. Hann ætlaði

að fresta þessu .... gera það seinna. Þetta vantraust á Margrjeti var eiginlega fyrsti glæpurinn, sem hann drýgði gagnvart ást þeirra .... Síðasta daginn hugsaði hann ekki um annað en það, að finna eitthvert orð til að segja henni, orð, sem fæli í sjer sem allra minst, en gæti þó sagt henni alt, ef hún vildi skilja. Hann smíðaði hverja klungursetninguna á fætur annari. En þegar á átti að herða stóðu þær allar í honum. Hann varð að eins æstur og skapillur og ruglaður. Og að lokum smaug milli þeirra þessi einkennilegi, ósjálfráði kuldi, sem komið getur yfir skilnað tveggja elskenda, — og eitraði að minsta kosti honum skilnaðarstundina. Og svo kvaddi hann, orðalaust, að eins með lauslegu handtaki, en með þeim ásetningi að skrifa henni um ást sína, undir eins frá Skotlandi. Hann skrifaði líka langt brjef, að sumu leyti í ljóðum, sem hann orkti á leiðinni — en þar var ekkert orð um ástina. Hann skrifaði henni einnig undir eins og hann kom til Kaupmannahafnar. Hann hafði skrifað henni fjögur brjef, full af kvæðum, þar sem lesa mátti víst ástina greinilega milli línanna, áður en hann fjekk fyrsta brjefið hennar. Aldrei á æfi sinni hafði hann verið eins hrærður, og þegar hann fjekk brjefið hennar .... Hann hjelt lengi á því og þorði ekki að opna það .... þangað til loksins að hann reif umslagið skjálfandi fingrum. Og vonbrigðin voru afskapleg .... Brjefið var að eins lauslegt þakklæti fyrir brjef hans, nákvæm og gamansöm lýsing á skemtunum hennar — og að lokum bað hún hann að skrifa sjer fljótt aftur .... og ekkert, ekkert annað. Hann las það aftur og aftur og fanst hann deyja hægt og hægt. En hvað kuldinn var nístandi .... Hugsanir hans snerust lengi um þetta óskiljanlega efni: en hvað hún var breytt — eða hvað hún var alt öðru vísi

en hann hjelt — og hvað mismunurinn á tilfinningum þeirra hvors gagnvart öðru var afskaplegur .... Hann skrifaði henni samt nokkrum sinnum aftur, og fjekk nokkur brjef, — sem öll voru eins. Þegar hann fjekk síðasta brjef hennar, sagði hann í gremju sinni: Nú jæja, hún skemtir sjer alt af jafnvel, — þá er líklega óþarft, að jeg sje að auka nokkuð á skemtunina. Síðan skrifaði hann henni aldrei. — — — Fyrst hjelt hann að sjer ætlaði að takast að gleyma henni. Hann tók að svalla með fjelögum sínum, þó það væri yndissnautt, en ylli honum ærins samviskubits, þunglyndis og höfuðverkjar. Hann tók einnig að sækja alls konar fjelagadansleiki og skemti sjer þar betur. Hann varð ástfanginn í snoturri, dansólmri telpu og náði ástum hennar svo fljótt og fullkomlega, að hann hrylti við því, þegar hann hugsaði rólega um það eftir á. Samt fór hann að hafa gaman að þessum auðunnu smásigrum. En jafnframt óx ógeðið í huga hans og af því spratt þráin .... þráin .... Og svo alt í einu, þegar hann hjelt, að hann hefði alveg gleymt Margrjeti, kom mynd hennar skýr og lifandi fram í huga hans .... Margrjet! Margrjet! .... Og nú fyrst fór hann að gruna hið rjetta samhengi. — Hvernig átti Margrjet að skrifa honum öðru vísi, fyrst hún mátti ekkert segja honum, ekki láta hann skilja neitt? .... Einmitt svona hlaut hún að skrifa. — Var glaðværð hennar ekki dálítið þvinguð stundum? Ef til vill voru skemtanirnar henni ekki það áhugamál, sem hún ljet. Hugsanir þessar vöktu honum í einu gleði og sára, sára kvöl. Því hann var sjálfur orðinn annar maður — hafði brugðist ást sinni. Hann mundi aldrei geta opnað henni hjarta sitt, aldrei sagt henni alt um sjálfan sig og líf sitt .... Og jafnvel þó hann gerði það, mundi hún ekki skilja hann.

Að lokum kvöldu þessar hugsanir hann svo, að hann reyndi að beita því sem eins konar ósjálfráðri sjálfsvörn, að þetta væri að eins ímyndun hans, að ást hennar á honum væri að eins hugarórar heimsks heila. En honum tókst að eins stutta stund að bæla kvölina á þennan hátt. Þráin og draumarnir drógust stöðugt að hjarta hans. Og smásaman varð Margrjet persónugerving alls þess, sem hann þráði en gat ekki fengið .... þá orkti hann í þunglyndi sínu þessa sónettu, sem hann alt af mundi:

Nú nálgast myrkrið dula' á hverjum degi
og dauðans gáta' er enginn ráðið hefur.
Er hverfur sól í geislagliti' að legi
þá glúpnar hjartað, örvænting það vefur.

Við gæfutindinn tíminn bíður eigi
nje táradalnum í, þar kvölin sefur.
Í fölri minning fallast gleði' og tregi
í faðma, uns eilíft myrkur bæði grefur.

Hver dagur er sem dropi af rauðu blóði
úr djúpi hjartans. Hægan, hægan flæðir,
en látlaust, vínið lífs míns út úr skál.

En eftir því sem brjósti meira blæðir
og bikar tæmist vínsins dropasjóði
jeg heitar þrái hamingjunnar bál.

Já, þá gat hann enn þá þráð, þá gat hann enn þá vonað. .... En var hann ekki undir eins þá farinn að skilja að vonin var vonlaus, þráin árangurslaus ....

Næsta sumar, meðan hann dvaldi heima í leyfinu, hitti hann Margrjeti alloft .... Og von hans tærðist smásaman upp — — — aðallega sakir þrekleysis sjálfs hans, að þora ekki að nálgast hana. Blygðan hans fjarlægði

þau æ meira og meira hvort frá öðru. Honum ljetti næstum þegar hann fór að heiman. Í næsta sumarleyfi kom hann ekki heim — kom aldrei heim fyr en að loknu prófi. — — Það voru ægileg ár. Hann svallaði og svívirti sjálfan sig og vann eins og hestur til skiftis. Hann átti varla eina einustu mæta minningu frá þeim árum. Þau höfðu verið honum eins og vonleysis, leiðinda auðn. Best leið honum þegar hann sat liðlangan daginn heima í herberginu sínu. Þá var stundum einhver yndissnefill í þunglyndi hans.

Já, það voru erfið ár, þunglyndi og örvænting skiftust á, rofin einstaka krampakendum gleðiglampa, sem þó var ávalt blekking og skildi eftir enn þá ægilegra ógeð á öllu. . . .

Svo kom hann heim um það leyti sem Geir Thorgeir varð ráðherra og fjekk stöðu þá í stjórnarráðinu, sem hann hafði haft á hendi í fjögur ár .... verstu árin af þeim öllum.

Á þessum árum fjekk alt hið illa, þróttlausa og þrekvana yfirhöndina hjá honum.

Honum var það sjálfum fullljóst frá öndverðu, hvert stefndi. En sumpart vakti það honum ljettúðga gleði að hneyksla, sýna fólkinu það skýrt og greinilega, að hann þorði að sigla sinn eigin sjó, og sumpart vonaði hann í leyni að Margrjeti þætti fyrir því, að hann hagaði sjer svona. Og nú fanst honum hann stundum jafnvel hata hana.

Fyrst eftir að hann kom heim hitti hann hana einstöku sinnum í samkvæmum, meðan óorð hans svifti hann ekki umgengni betri fjölskylda bæjarins. En eitthvað í viðmóti hennar og það, að hún var ógift og virtist ólofuð, vakti aftur hjá honum veika von um, að henni

þætti enn þá vænt um hann og hún biði hans. Hann reyndi einnig gætilega að nálgast hana og hún vísaði honum eiginlega ekki á bug. En alt af þegar hann var með henni, fanst honum sem öll orð sín hnigu máttvana fyrir ró hennar og kulda. Hann hugsaði oft á þessa leið: Annaðhvort er hún eitthvert ómerkilegt flón .... eða hún er mesta merkismanneskjan, sem jeg hef hitt til þessa. Hann ákvað hvað eftir annað að nú skyldi hann fara til hennar — nú skyldi hann segja henni alt saman og svo gæti hún gert það, sem hún vildi — en nú skyldi hann fá vissu sína. En honum fanst hann alt af þurfa að „gera upp reikninga sína“ áður en hann færi. Og af því að reikningarnir urðu alt af verri og verri, þvarr honum þrekið æ meira og meira. Að lokum gaf hann það alt upp á bátinn — hana og sjálfa sig í rauninni um leið.

Síðan hafði hann svallað og gert allskonar brek. Og að lokum tókst honum að gera sig óhæfan á öllum sviðum. Hann hafði enga ánægju af svallinu. Hann drakk ekki af því, að hann gæti ekki vínlaus verið. Hann átti ofurhægt með það. En þegar hann hafði ekki bragðað áfengi lengi, lagðist óþolandi byrði þjakandi ógeðs og örvæntingar-þunglyndis á sál hans. Og af því að reynslan hafði sýnt honum að deyfandi ölvan og örstutt ástar-ástríða, þó uppgerð væri, var einlægt bót í bili, varð endirinn ávalt sá, að hann greip til annars hvors þessa ráðs í örvæntingu sinni, oftast til hins fyrra.

Verst var þó að á síðkastið þoldi hann illa verulega algleymis ölvan. Fyrir áfengisáhrifin var hann tekinn að gera ótrúleg glappaskot — eins og til dæmis framkoma hans í dag sýndi .... glappaskot sem upprættu hjá honum alla virðingu fyrir sjálfum honum — glappaskot, sem

ykju á angur föður hans þegar hann frjetti um þau — glappaskot, sem jafnvel nú þegar höfðu gereytt svo góðvild Margrjetar til hans, að hún sýndi honum að eins smán og fyrirlitningu — — og þorði ekki einu sinni að heilsa honum lengur ....

Úlfur andvarpaði þungan, horfði örvæntingaraugum fram fyrir sig og sagði skjálfandi rödd:

Við brosið þitt glaða gleymi
jeg geima' og heima veg ....

Svo huldi hann andlitið í höndum sjer og grjet.

## VI

Daginn eftir mætti sjera Ljótur Úlfsson vini sínum, Geir Thorgeir ráðherra, á horni Lækjargötu og Austurstrætis. Vinirnir voru vanir því, að mætast þarna og ganga dálítið saman áður en þeir borðuðu miðdegisverð, þegar þeir höfðu tíma til þess og veður leyfði.

Þeir voru mjög svipaðir á velli. Báðir voru þeir háir og þreklegir. En ráðherrann var alrakaður, en dómkirkjupresturinn hafði tvískift, stutt alskegg. Ráðherrann var heldur ekki eins gráhærður og dómkirkjupresturinn.

— Himnesk blíða! sagði sjera Ljótur undir eins, meðan hann þrýsti hönd vinar síns. Hann varð alt af svo kátur, þegar sólin skein í þessum rigninga- og súldarbæ.

Geir Thorgeir brosti. Þessi glaðlegu orð sjera Ljóts voru svo skrítilega ólík hásu röddinni.

Eitthvað í brosi vinarins dró undir eins að sjer athygli sjera Ljóts. Það fór hrollur um hann, en hann ljet á engu bera og hjelt áfram eins glaðlega og áður:

— Hefurðu nokkurn tíma sjeð loftið svona fallegt — svona blátt og brosandi? Hvergi sjest skýhnoðri. Og þó er enn þá miður mars. Jeg man ekki eftir svona mildu vorveðri áður.

Geir Thorgeir jánkaði með nokkrum smáorðum og kinkaði kolli og ætlaði að vera glaðlegur, en varð ósjálfrátt dálítið vandræðalegur.

Þeir gengu af stað og fóru hægt upp Bankastræti.

Sjera Ljótur hjelt enn um stund áfram al tala um hina óvenjulegu veðurblíðu og báðir þóttust þeir horfa með athyglissvip upp í háan, heiðan himininn, sem hvelfdist glitrandi yfir fagran fjallahringinn umhverfis Reykjavík.

En alt í einu hætti sjera Ljutur þessu tali — og veðrið og loftið var gleymt.

— Já, það er satt — hvernig líður honum mági þínum? spurði hann hryggur.

— Jæja, þakka þjer fyrir, svaraði Geir Thorgeir hæglátlega að vanda — því miður líklega ekki eins vel og æskilegt væri — lungnabólgan er alt af hættuleg. En við vonum stöðugt að hann lifi það af.

Sjera Ljótur varð hugsandi undir eins og hann heyrði að líðan bankastjórans væri óbreytt. Hann hlustaði að vísu á, en kinkaði kolli eins og hann væri að samþykkja eitthvað annað með sjálfum sjer.

— Jájá — sagði hann hljótt við sjálfan sig — varirnar bærðust varla og ekkert hljóð heyrðist — jájá ....

— Hvað heldur Björn Halldórsson læknir um hann? spurði hann eftir stutta þögn.

— Hann segir eiginlega ekkert af nje á. Þú þekkir Björn Halldórsson og veitst hvað hann er varkár í orðum. En þegar hann loksins segir eitthvað, er hægt að reiða sig á það.

— Jájá, jájá. Sjera Ljótur var stöðugt dálítið utan við sig. Björn Halldórsson er ágætur maður, það er áreiðanlegt .... Það er heldur ekkert smáræði, sem sá maður hefur að gera nú orðið. Hann bolar nærri öllum hinum læknunum burtu.

Þeir beygðu við upp á Skólavörðustíg.

— En segðu mjer nú annað — og sjera Ljótur jafnaði sig alt í einu — heldurðu að bankastjórinn verði svo hress að hann geti setið á þingi í sumar, jafnvel þó hann nái sjer aftur, sem vonandi verður?

Geir Thorgeir leit einbeittu, rólegu, dökkbláu augunum á Ljót og sagði:

— Það vona jeg fastlega.

Sjera Ljótur hikaði dálítið og sagði svo hæglátlega:

— Já, því þú þarft víst á öllu þínu að halda í sumar .... býst jeg við?

— Já, það held jeg geti verið, svaraði Geir Thorgeir alt af jafn rólegur. Flokkur Helga Bjarnasonar ritstjóra reynir auðvitað hvað hann getur til þess að steypa mjer. Og það er vansjeð svona fyrirfram, hvernig miðflokkurinn tekur í málin, enn sem komið er er hann nokkuð óákveðinn. Og ef þeir bræða sig saman við hina, þá hef jeg rjett marnings meiri hluta á þinginu í sumar. En jeg vona að mjer takist að synda fyrir skerin í þetta skifti líka. Jeg er sem sje hræddur um, að við fáum að finna það seinna meir, ef Helgi Bjarnason nær í völdin núna. Og þó jeg væri allur af vilja gerður, get jeg ekki sjeð að þeir menn berjist fyrir öðru en því, að hrifsa völdin af okkur. Aðra hugsun finn jeg ekki í þeirra stefnu. Þar að auki er flokkaskiftingin þannig, að ef okkar flokkur kemst í minnihluta — sem að eins getur orðið með því móti að einhver fylgismanna okkar bein-

línis svíki okkur, þá eigum við á hættu að fá annaðhvort einhvern þjóðmálaskúm eða ónytjung í ráðherrasætið. Og hvorki mjer nje landinu er nokkur bót í því. Annars er jeg orðinn sæmilega þreyttur á því að vera skotspónn.

— Já, jeg er þjer nú engan vegin sammála um, að svona lítið sje í andstæðingana spunnið, svaraði sjera Ljótur fljótlega. — Og því skyldu þeir ekki halda að þeirra málstaður sje rjettur — alveg eins og við? Vitanlega getur verið misjafn sauður meðal þeirra — það er eflaust svo í öllum flokkum.

— Getur verið — og jeg vildi óska að þetta væri rangt hjá mjer. Fyr eða seinna komast þeir að stjórninni. Hjer veltur það að eins á nokkrum árum.

— Og jeg held að það væri okkur engin veruleg hætta, ef þeir hefðu hugsun og hepni til að velja rjetta manninn — og það er ekkert ótrúlegt. Sjera Ljótur rak göngustafinn jafnt og þjett niður í götuna. — Í aðalatriðunum erum við líklega sammála.

— Getur verið. Geir Thorgeir var árangurslaust að hugsa um við hvern vinur sinn gæti átt — ef hann ætti við einhvern sjerstakan. En hann vildi ekki spyrja.

— Jeg hef samt enga tröllatrú á þessum mönnum, bætti hann nokkru seinna við fremur þurlega. En við skulum tala um eitthvað annað. Jeg held við höfum ekkert að óttast í þetta skiftið.

— Já, já, sagði sjera Ljótur og strauk lina flókahattinn hratt af höfði sjer, og fór útglentum fingrum nokkrum sinnum gegnum mikla, hvíta hárið. — Jeg ætla að eins að vara þig við, að vera ekki alt of öruggur. Jeg er hræddur um, að þessi ró, sem hvílt hefur yfir öllu á síðkastið, spái ekki neinu góðu. Það er eitthvað á seiði hjá

þeim, fyrst þeir eru svona rólegir. — Hefurðu nokkra hugmynd um, hvernig þeir ætla að haga árásinni núna?

Geir Thorgeir hristi höfuðið.

— Nei, og jeg er heldur ekki hræddur. Jeg hef sannast að segja aldrei verið eins öruggur og nú. Þessi ró, sem þú talar um, er ekki af neinu öðru sprottin en því, að þeir hafa ekkert til að rífast um. Svona held jeg nú að í öllu liggi.

Jæja, sagði sjera Ljótur hlæjandi, og jeg skal áreiðanlega ekki reyna að raska ró þinni, það sje fjarri mjer, og allra síst af því, að jeg hef enga vissu fyrir mjer. En jeg get ekki að því gert — jeg hef það á tilfinningunni að eitthvað sje á seiði — einhver vandræði bíði okkar. En það getur vel verið vitleysa.

Þeir voru komnir upp á Skólavörðuhæðina. Þeir stóðu kyrrir og þegjandi um stund og litu í kringum sig.

En hvað hjerna er fallegt. Það var Geir Thorgeir, sem loksins rauf þögnina.

— Já, svaraði sjera Ljótur lágt, hjer er fallegt, fallegra en nokkurstaðar annars í heiminum, lá mjer við að segja. En það er víst fullmikið í lagt. — Það þarf líka að vera fallegt í kringum okkur hjerna í Reykjavík, því bærinn sjálfur er vægast sagt hræðilegur með öllum bárujárnshúsunum og götunum, sem flóa í for hvað lítið sem rignir og eru óslitið kviksyndi tvo þriðju hluta ársins.

— Ojá, það er rjett, sagði Geir Thorger utan við sig, en tók svo eftir hverju hann hafði svarað, og bætti við: — Jeg er farinn að venjast þessu.

Sjera Ljótur leit snögglega á vin sinn, hvast eins og hann ætlaði að sjá í gegnum hann.

— Það skil jeg ekki. Það var bitur blær yfir röddinni, þó það heyrðist varla. Jeg get aldrei skilð, að

nokkur geti vanist því, sem er ljótt. Og jeg skil allra síst, að þ ú getir það ....

— Ja-a, mjer finst að við verðum að sætta okkur við hlutina, eins og þeir koma fyrir, og nú e r þetta svona ....

Sjera Ljótur horfði aftur á hann, snöggvast og í laumi.

— Já, jeg hef tekið eftir því, að þú getur gert þjer gott af litlu, sagði hann og hló, til þess að mýkja hörku svarsins — það finst mjer galli, sem þú ættir að vara þig á.

Geir Thorgeir var vanur því, að, vinur hans segði það, sem honum bjó í brjósti. En samt brá hann lit í þetta skifti.

— Mjer fyrir mitt leyti finst ávalt, hjelt sjera Ljótur rólega áfram, að Reykjavík muni verða einn fegursti bær heimsins, sakir legu hennar, þegar hann verður sæmilega bygður, og í hvert sinn, sem jeg hugsa mjer bæinn, eins og hann ætti að vera og vonandi verður einhvern tíma, finst mjer hann miklu ljótari, eins og hann er núna.

— Jeg held að það hafi slæm áhrif á fólk að búa í svona ljótum bæ.

— Jeg held, að það geti horft á fjöllin, þegar það þarf að sjá eitthvað fallegt. M j e r finst fallegt hjerna. Og húsin lít jeg ekki á. Annars eru steinhúsin nú óðum að ryðja sjer til rúms.

— Það g e t u r horft á fjöllin, já, svaraði sjera Ljótur fyrri orðum ráðherrans, en hvað heldurðu að margir geri það?

— Jeg held við sjeum ekki verri hjerna í Reykjavík en fólk er flest. Blærinn á rödd ráðherrans var svo önugur, að sjera Ljótur skelti upp úr.

— Þetta getur vel verið, en jeg held að það sakaði ekki neitt, þó við reyndum að verða dálítið betri en aðrir.

— Það eru hyggindi, sagði Geir Thorgeir og hló líka að stefna aldrei hærra en svo, að maður komist það leikandi.

Sjera Ljótur kiptist við. Brosið hvarf úr augum hans. — Já .... en þú ætlast auðvitað ekki til, að þetta eigi við nema að eins — svona í daglega lífinu. Hann talaði gætilega, næstum kuldalega.

— Nei, vitanlega ekki, — hinn dökki hörundslitur Geirs Thorgeirs dökknaði enn þá meira, — vitanlega ekki ....

Hann var gramur við sjálfan sig. Hvernig í ósköpunum fór þetta að hrjóta út úr honum? hugsaði hann. Þetta er ekki skoðun mín. — Alt í einu rámaði hann í að mágur sinn hefði einhvern tíma sagt eitthvað þessu líkt — við sig. — Já, nú mundi hann meira að segja hvenær það var. Og hann mundi einnig hvað fátt honum fanst um þessi orð mágs síns þá.

— Já, sagði sjera Ljótur hægt og eins og ósjálfrátt slitrótt, já, ef orð þín hefðu átt við alt, sem við stefnum að — og jafnvel þó þú hefðir að eins átt við það, sem við stefnum að í stjórnmálunum, þá hefði jeg álitið það hámark heimskulegrar eigingirni.

Augu þeirra mættust .... og Geir Thorgeir leit ósjálfrátt undan. — En jafnframt var hann að hugsa um, að þetta væri í rauninni heimskulegt. Vinur sinn hefði illan grun á sjer sakir orða, sem honum hrutu af vörum í hugsunarleysi og ekki voru skoðun hans samkvæm. Og svo kom hann fram eins og hann væri sekur. Hann ætlaði að skýra þetta. En honum vafðist tunga um tönn. Og það var eins og hugsunin neitaði að starfa. Smásaman

kviknaði hjá honum einhver óþokki á vini hans, sem hann fann þó jafnframt að var heimskulegt.

Talið fjell niður.

En eftir nokkurrar stundar þögn sagði sjera Ljótur og benti út á sjóinn:

— Líttu á fjörðinn, Geir, sjerðu ekki hvað hann er sljettur og lygn, sljettur og lygn eins og enginn stormur og ekkert sjávarrót væri til .... Þetta er alt svo skrítið.

Geir Thorgeir leit snöggvast spyrjandi augum á vin sinn — og um leið hvarf óþokkinn úr huga hans, án þess að honum væri ljóst hvers vegna og hvernig á því stæði.

Maður skyldi ekki halda, að þetta væri sami fjörðurinn, þegar rokið rótar honum upp, svo hann er eitt óslitið löður landanna milli, hjelt sjera Ljótur áfram. Jeg trúi því eiginlega alls ekki, að hann geti breytst í fnæsandi, froðufellandi ófreskju, eins og jeg sje hann núna — jeg get ekki hugsað mjer það. Og þó hef jeg oft sjeð hann svona með eigin augum .... Fyrst að það er svona erfitt að trúa því, sem við vitum, af því að við höfum sjeð það sjálf, þá hlýtur það að vera miklu erfiðara að trúa því, sem við vitum ekki um — svo við getum þreifað á því. Þess reyni jeg alt af að minnast gagnvart þeim, sem ekki trúa á guð. — En við vorum að tala um fjörðinn. Af hverju er hann ekki alt af eins ljós og lygn og í dag. Taktu eftir hvað hann er næmur á öll litbrigði — eins og hann væri skapaður til þess að þyggja og gefa fegurðina — — og fylla sál okkar friði .... En jeg veit ekki, hvernig á því stendur .... jeg get ekki að því gert .... jeg hef beyg af þessum firði ....

Hann hristi höfuðið.

— Það er óskiljanlegt — alt saman .... undarlegt —

undarlegt .... Og ættum við ekki trúna — þá væri tilveran tilgangslaus.

Geir Thorgeir stóð og starði fram fyrir sig.

— Þú hefur víst rjett að mæla, sagði hann hljóðlega.

— Jeg skil ekki, hjelt sjera Ljótur áfram, hvernig allur sá fjöldi fólks, sem ekki trúir, fer að lifa og skýra lífið fyrir sjálfu sjer. Því að það er þó nokkurs vert, að gera það — eða finst þjer ekki? Þetta er mjer hreinasta gáta — gáta, sem jeg fæ víst aldrei ráðið .... Annað hvort hljóta þeir að eiga ótrúlegan — kjark, sem jeg fæ ekki skilið — — eða að þeir eru að öðrum kosti alveg hjartalausir. ....

Hann þagnaði, og stóru, gráu augun voru starandi og hugsandi.

Geir Thorgeir horfði stundarkorn með athygli á vin sinn, án þess að sjera Ljótur tæki eftir því.

— Þú talar stundum, eins og þú værir ekki öruggur sjálfur, sagði hann loksins lágt.

—Þjer skjátlast, svaraði sjera Ljótur fljótt og rödd hans gerbreyttist í einni svipan, varð róleg og ákveðin. — Væri jeg ekki öruggur sjálfur, þyrði jeg ekki hugsa um þetta — hvað þá heldur að tala um það.

Vinirnir lögðu hægt af stað í áttina til bæjarins.

Stundarkorn gengu þeir báðir og drupu höfði.

Svo rjetti sjera Ljótur úr sjer. Hann horfði rólega á vin sinn og spurði mjúklega:

— Jæja, hvað er það þá, sem þú ætlar að segja mjer, en kemur ekki almennilega upp? Þó hann reyndi að hefta það, kvað við dálítill kvíðatitringur bak við ró raddarinnar.

Geir Thorgeir leit upp og horfði flóttalega á vin sinn og virtist að öðru leyti ekkert undrandi. Það var eins og

honum kæmi það ekki á óvart, að lesið var í hug hans. Samt var hann orðlaus í upphafi. Honum þótti fyrir því, að þurfa að færa vini sínum þessar leiðindafrjettir. Hann vissi, að þær mundu hryggja vin sinn. En fyrst nú vissi hann hve mikið það mundi hryggja hann.

— Jeg sá það undir eins og við mættumst, að þú hafðir einhverjar óþægindafrjettir að færa mjer, hjelt sjera Ljótur áfram, og það var raunablær á röddinni. — En það var eins og mig brysti kjark til þess að hlusta á það undir eins — það er víst eitthvað um Úlf?

— Já. Geir Thorgeir talaði hægt og hálf þvoglulega, og hann fann að honum vöknaði um augu. — Jeg er neyddur til að segja honum upp.

— Jeg bjóst við því — já .... jeg bjóst við því. —
— Hvað hefur nú komið fyrir hann?

Geir Thorgeir ypti öxlum — honum var óhægt um mál í svipinn. Og hann vildi ekki segja sjera Ljóti frá síðasta afreki sonar hans, fyrst hann vissi ekki um það áður.

— Einmitt já — þetta sama og áður .... já, já.

— Og svo það í þokkabót, að hann er farinn að vanrækja vinnu sína, sagði Geir Thorgeir og gerði sig hastan í málrómi, til þess að hylja geðshræringu sína. — Jeg get ekki varið það, að hafa hann lengur. Kvartanirnar eru orðnar alt of sannar. Mjer liggur við að segja, að það hefði mátt þola það á hvaða skrifstofu, sem væri — en ekki í stjórnarráði ....

— Jájá, jeg skil það vel, tók sjera Ljótur fram í fyrir honum, — vesalings drengurinn ....

— Hann er nú ekki barn lengur, held jeg, — þrítugur maðurinn.

— Öll erum við börn, Geir Thorgeir, öll saman börn .... Og þörfnumst öll fyrirgefningar og umburðarlyndis.

— Getur verið. En hann vill ekki batna neitt.

Sjera Ljótur tók vin sinn undir hönd sjer.

— Þú mátt ekki halda, Geir, að jeg ætli að reyna að hafa áhrif á ákvörðun þína. Það er ekkert fjær mjer. Fyrst þú segir honum upp, hlýtur það að vera af því, að þú getur ekki haft hann. Jeg skoða málið þegar útkljáð. — Jeg þóttist vita, að einhvern tíma kæmi að þessu .... En hann er samt, og verður alt af barnið mitt. Og þó margt sje að honum, er hann samt, guði sje lof, góður drengur.

Geir Thorgeir var hálf-óánægður með sjálfan sig. Eins og til þess að verja sjálfan sig, sagði hann þurlega:

— Mjer finst nú fara skolli lítið fyrir þessum gæðum hans.

— Já, ykkur finst það, sem þekkið hann ekki og skiljið hann ekki — og þykir ekki vænt um hann, svaraði sjera Ljótur blíðlega. — En þú ættir að vita .... Nei, annars, Það gerir ekkert til. — Nú fer jeg heldur heim.

— Jeg hef þó þekt hann frá því hann var barn, hjelt Geir Thorgeir áfram jafn þurlega og áður, og jeg verð að segja ....

—Nei, segðu ekkert, — segðu ekkert .... Við getum verið með mönnum árum saman, frá morgni til kvölds, án þess að hafa hugmynd um, hvað í þeim býr, inst og dýpst.

Hann rjetti vini sínum höndina í kveðjuskyni.

Geir Thorgeir hjelt hönd hans.

— Mjer þykir fyrir þessu þín vegna .... hann kom orðunum varla upp og hætti stamandi.

Sjera Ljótur kinkaði kolli.

— Það þarftu ekki að segja mjer — jeg hef sjeð það. Og þú mátt ekki halda, að jeg liggi þjer neitt á hálsi fyrir þetta.

Hann þrýsti hönd vinar síns enn einu sinni. Svo kinkaði hann til hans kolli og afskræmt bros ljek um sorgmædda andlitið. Hann gekk burtu undarlega tifandi.

Geir Thorgeir stóð kyr og horfði á eftir honum eitt augabragð. Svo rak hann stafinn reiðilega niður í gangstjettarsteinana.

— Þessi bölvaður ormur, muldraði hann — eins og til að velta sökinni á sorg vinar síns af sínum herðum. Hann hefði átt að vera sonur minn! ....

En á heimleiðinni þjáði hann þó hugsun, sem hann vildi ekki fallast á:

Gat hann ekki haft Úlf enn þá? .... Nei, hann gat það ekki. Úlfur var orðinn alræmdur. — En hvaða ráð skyldi mágur hans hafa gefið honum, ef hann hefði getað spurt hann? .... Það var annars leiðinlegt, með þessi veikindi mágsins. Nú hafði hann orðið að taka ákvörðun um þrjú mál, án þess að tala við hann. Og hann var í vafa um öll málin. Hann komst fljótt að rjettri niðurstöðu í hverju máli og kvaldist af engum efa eftirá — ef hann að eins gat náð tali af mági sínum. Það hlaut að vera nærvera mágs hans ein, það hvernig hann hlustaði á, sem hafði þau áhrif á hann, að hann eins og fann meira til sjálfs sín, varð öflgari og ákveðnari. Því það var ekki mikið á stuttu, dulu athugasemdunum hans mágs hans að græða. Og bein ráð gaf mágur hans honum aldrei. Það var eins og hann forðaðist það viljandi að hafa áhrif á hann. Og það hefði líka verið til lítils fyrir hann að reyna það. En það var nú komið upp í vana fyrir honum að segja honum frá málunum,

ræða þau þegar hann væri viðstaddur og hann saknaði þess, að hafa ekki getað gert það nú um tíma. En hann var líka svo vanafastur ....

Hann fór að hugsa um að ef mágur sinn dæji nú .... Þá gæti hann aldrei oftar setið og rabbað við hann um öll þessi erfiðu og ábyrgðarmiklu mál. Og það var alveg eins og hann gæti ekki án þess verið, að tala við einhvern, áður en hann tæki ákvörðun um hvert mál.

Hann fór ósjálfrátt yfir kunningjahóp sinn, til þess að vita, hvort hann rækist þar á nokkurn, sem ef til vill gæti komið í stað mágs síns. Honum duttu ýmsir í hug — meðal annars kona sín — en nei, ænei, — og hann hristi höfuðið. Loksins lenti hann með ógeði á Úlfi Ljótssyni.

Hann varð svo undrandi, að hann stansaði og stóð kyr örlitla stund og starði niður fyrir sig, eins og hann hefði komið auga á eitthvað fyrir framan sig á gangstjettinni.

Já — Úlfur Ljótsson var óneitanlega viðkunnanlegur maður að tala við hann — — þegar hann var í því skapinu. Hann var bara svo skolli mislyndur — það var ekkert á hann að treysta. En hann var nú samt sá eini þeirra, sem hann þekti, sem hann gat hugsað sjer að tala við — á þennan hátt. — Eiginlega var það óðs manns æði! .... Úlfur Ljótsson, sem var nærri .... En gáfaður, — það var hann nú samt sem áður jafnvel þó hann sýndi ekki mikla skynsemi, þegar hann átti sjálfur í hlut.

Nú mintist hann þess einnig, að hann hafði undrast það, að mágur hans sýndi Úlfi Ljótssyni alt af einhverja kuldalega virðingu, en því var hann ekki vanur við aðra.

Ef til vill var það rangt af honum, að segja Úlfi upp? .... En hvernig í fjandanum stóð líka á því, að mágur

hans þurfti endilega að veikjast einmitt núna? — En hvað um það, hann hafði þegar skýrt föður hans frá því. Og ef til vill mundi sjera Ljóti alls ekki líka, að hann breytti ákvörðun sinni. Og afstaða sjálfs hans varð svo undarlega efasöm. Og þar við bættist: ef þetta var rjett, þá átti Úlfi að vera sagt upp fyrir löngu. — Og þegar öllu var á botninn hvolft, var víst mikið af þessu þvættingur ....

Sannleikurinn var víst sá, að hann var dálítið æstur þessa lagana, dálítið utan við sig, vegna veikinda mágs síns.

En mági hans mundi batna ....

Í þeirri von beygði Geir Thorgeir hugrór inn á veginn meðfram tjörninni. Og þá var hann kominn heim.

## VII.

Þegar Úlfur kom upp í stjórnarráðið um morguninn, var hann þess fullviss, að sjer yrði sagt upp stöðunni, undir eins og hann kæmi inn úr dyrunum.

En svo varð ekki og hann afsakaði sig því þurlega fyrir skrifstofustjóra þeim, sem átti yfir honum að segja, með því, að hann hefði verið sjúkur daginn áður. Og gamli, góðsami nöldrunarseggurinn muldraði eitthvað geðvonskulega í barm sjer.

— Nú, jájá, hugsaði Úlfur, svo hans hágöfgi ætlar þá sjálfur að framkvæma það.

Svo heilsaði hann hinum aðstoðarmönnunum lauslega og settist við borð sitt og tók til starfa — nóg var að gera.

Hann var vel fyrirkallaður í dag. Í rauninni var hann í óvenju góðu skapi — eins og alt af, þegar hann hafði jafnað sig dálítið eftir svallið. Líkurnar fyrir því, að verða sviftur stöðunni einhvern tíma dagsins, vöktu að eins snöggvast leiðindi í huga hans.

Sólin skein inn á borðið hans. Kyrð hvíldi yfir skrifstofunni. Alt í kringum sig heyrði hann veikt pennaskrjáf, sem færðist hægt yfir pappírinn. Og vinnan sóttist vel. Hann fann, að hann var beinlínis farinn að kunna vel við sig þarna í skristofuhorninu. Það var eiginlega skömm að því, að þurfa að fara hjeðan. . . . .Þá varð víst að reyna að taka eitthvað annað fyrir.

Hans hágöfgi kom undir hádegið. Hann talaði nokkur orð við gamla nöldursegginn, sem var alveg eins afundinn við hann og alla aðra, og gekk svo virðulega áfram gegnum skrifstofurnar. Úlfi tókst ekki að sjá í augu honum, þegar hann heilsaði öllu skrifstofufólkinu í einu, en þegar hann kom aftur, horfðust þeir snöggvast í augu og hann sá undir eins á kuldasvipnum, að hann hafði orðið einhvers vísari. Og hann tók eftir því með dálítilli gremju, að honum hnykti svolítið. Nú var um að gera, að vera rólegur og láta á engu bera, til þess að verða ekki fyrir minstu meðaumkunarögn af hálfu skrifstofufólksins, þegar hann innan skamms yrði kvaddur inn til ráðherrans. Líklega væri best,að hann setti á sig drembnissvipinn.

Við og við ætlaði hann ekki að geta varist hugsunum um Margrjeti. En hann hrakti þær burtu. Það var að minsta kosti áreiðanlegt, að Margrjet hirti ekkert um h a n n. Og þegar öllu væri á botninn hvolft, ætli ást hans á henni væru þá ekki eintómir hugarórar . . . .? Nú, hvað um það — hann v i l d i ekki hugsa um það.

í lífinu, hugsaði hann, þurfum við að eins að gleyma og gugna og reyna að uppræta hjá okkur draumana — því aldrei verða það annað en draumar, — og slá af kröfunum .... Og þá líður ekkur vel.

Hann vissi mætavel, ef hann vildi annars vita það, að þessar og þvílíkar hugsanir voru einskær sjálfsblekking. En það var ekkert við því að gera. Þessi blekking var nauðsynleg, ef lífið ætti ekki að vera óþolandi.

Fyrri hluti dagsins leið og ekkert kom fyrir. Nema ef telja skyldi það, að skrifstofustjórinn heimtaði eitthvað af honum, sem hann átti að hafa lokið við fyrir löngu, og að það var tekið af honum og fengið öðrum, af því að hann hafði ekki lokið við það.

Það hafði þau áhrif ein, að Úlfur fór að hugsa vingjarnlega til ráðherrans. — Ef til vill ætlar hann að eins að auðmýkja mig dálítið og koma mjer í ilt skap, hugsaði hann — en það væri svei mjer hundhepni, ef jeg slepp svo laglega núna!

Hann fór heim til morgunverðar á venjulegum tíma. Á eftir hitti hann Eldjárn í herbergi sínu í veitingahúsinu. Þeir drukku kaffibolla saman og skeggræddu ýms efni, aðallega stjórnmál. Eldjárn var dálítið ræðnari í dag. Úlfur tók greinilega eftir því, að það fjörgaði vin hans, þegar hann sagði honum, að sjer hefði ekki verið sagt upp enn þá. — En það er ekki öll nótt úti enn, bætti hann við — en þó trúði sýnilega hvorugur þeirra á það. Hann fann, að honum leitst æ betur og betur á Eldjárn. Þegar þeir skildu komu þeir sjer saman um að hittast aftur, eitthvert kvöldið, þegar Eldjárn kæmi úr sjóferð — heima í herbergi Úlfs.

Svo fór Úlfur aftur í stjórnarráðið.

Hann var heldur ekki kvaddur inn til ráðherrans í

það skiftið. Hann fór fullkomulega að trúa á það, að ekkert yrði úr þessu í þetta sinn. Og þegar hann af hendingu komst að því seinna um daginn, að hans hágöfgi væri farinn burtu úr stjórnarráðinu, var hann hjer um bil sannfærður um það. —

Hann kom heim til miðdegisverðar í besta skapi og hafði bestu matarlyst.

En hann setti hljóðan von bráðar, því í svip og augnaráði föður síns sá eitthvert angurvært ráðþrot.

Og faðir hans bragðaði varla matinn.

— Þú ert þó vonandi ekki veikur, pabbi? spurði Úlfur loksins.

— Nei, drengur minn, svaraði sjera Ljótur svo blíðlega, að Úlfur lagði ósjálfrátt hlustirnar við — en jeg hef ekki vel góða matarlyst.

Þá hefur einhver sagt honum frá h i n u, því í gær! datt Úlfi alt í einu í hug. Hann lagði frá sjer hníf og gaffal. Hann gat ekki borðað bita meira.

— Hvað er þetta, drengur minn — ætlarðu ekki að borða meira? spurði sjera Ljótur.

Úlfur stóð upp og gekk að föður sínum.

— Þú mátt ekki reiðast mjer, pabbi, sagði hann lágt. — Jeg sárblygðast mín fyrir það. Það var eins og jeg gæti ekki gert að því. Jeg veit ekki hvernig á því stóð. Það er að segja .... jeg drakk of mikið.

Sjera Ljótur stóð líka upp. Fyrst stóð hann kyr, dálítið undrandi. Svo gekk hann niðurlútur um gólfið.

— Svo það var þess vegna, að þú komst ekki til þess að borða í gær, — og komst svo seint heim. Jájá, drengur minn, svo ekki voru órarnir alveg ástæðulausir í gær .... Þorðirðu ekki að segja mjer frá því?

— Jú, svaraði Úlfur og stóð niðurlútur — en þegar

jeg sá, að þú vissir ekkert um það, vildi jeg ekki angra þig.

—Nú, einmitt, já .... jájá, drengur minn — en þú hefðir nú samt heldur átt að segja mjer satt — — — En er þjer nokkuð á móti skapi að segja mjer ....

Sjera Ljótur hætti — honum duttu ekki þau orð í hug, sem hann þóttist geta notað.

Úlfur leit upp — og undrunarglampa brá fyrir í angurværum augunum.

—Veitstu það þá ekki, pabbi? spurði hann eftir stutta þögn.

Sjera Ljótur hristi höfuðið.

Úlfur var ruglaður um stund. Hafði hann ekki getið rjett um ástæðuna til ógleði föður síns. — En hvernig sem því veik við, mátti hann nú til að segja honum alt saman.

— Jeg gekk syngjandi um göturnar, sagði hann, svo að varla heyrðist, — það varð mesta uppþot. Og svo lenti jeg í ryskingum.

Löng þögn. Sjera Ljótur gekk stöðugt niðurlútur um gólf.

— Við hvern lentirðu í ryskingum, spurði hann loksins, og röddin var undarlega dauf.

— Við Eldjárn skipstjóra á Voninni, svaraði Úlfur eins lágt og áður. — Reyndar urðum við bestu vinir á eftir ....

Sjera Ljótur stansaði alt í einu og leit á son sinn, leit lengi og athugult á hann. Nú datt hann enn þá einu sinni um þetta óskiljanlega í fari sonar síns — hvað hann gat verið þveröfugur við alt, sem menn áttu annars að venjast. Nú lenti hann í handalögmáli við mann og þeir urðu svo perluvinir eftir á. En svo datt honum í hug að

í þetta skifti væri skýringin ef til vill einfaldari, en hann hjeldi. — Var hann líka drukkinn, spurði faðir hans loksins og gat ekki varist dálitlu brosi.

Úlfur leit upp, og undir eins og hann sá svipbreytinguna á andliti föður síns brosti hann líka — en undarlega klaufalega og feimnislega, eins og barn.

— Nei, pabbi .... Og eiginlega tuskuðumst við ekkert, því jeg var miklu sterkari en hann — og lúbarði hann, sagði hann iðrandi og feimnislega. Það orsakaðist af dálitlu, sem hann sagði .... en jeg vil helst ekki segja frá því. — — Hann fer nú á morgun. En hann lítur hingað inn, eitthvert kvöldið, þegar hann er kominn aftur. Það er ágætismaður, pabbi. Viltu ekki heilsa upp á hann?

Sjera Ljótur braut heilann.

Er það sá Eldjárn skipstjóri .... byrjaði hann — sem bjargaði botnvörpungsskipshöfninni hjerna á árunum, já, það er hann — bætti Úlfur við, fyrir hann. —

— Já, mjer þætti gaman að heilsa upp á hann, sagði sjera Ljótur blátt áfram.

Svo gekk hann dálítið lengur um gólf og velti fyrir sjer, hvort hann ætti að segja Úlfi frá hinni fyrirhuguðu uppsögn, því sjálfur vissi hann auðsjáanlega ekkert um hana.

En hann hætti við það. Það er ekki til neins að hann fari að brjóta heilann um það og kveljast af því, fyr en nauðsynlegt er, hugsaði hann .... Ef til vill gæti hann gert eitthvað til þess að draga úr kvölunum.

Hann gekk til hans og klappaði á öxl honum.

— Jæja, drengur minn, sagði hann glaðlega, þetta hefur kanske ekki verið neitt .... Tef jeg þig? — Ætlarðu eitthvað?

Úlfur hristi höfuðið ákveðinn.

— Nei, pabbi, svaraði hann og varð alt í einu skapljettur, og þakklátur föður sínum.

— Þá getum við setið svolítið og rabbað saman, sagði sjera Ljótur, — sótti gestavindlakassann, bauð syni sínum og kveikti sjálfur á eldspýtu handa honum. Svo settist hann í legubekkshornið, — þar kunni hann best við sig í stofunni.

— Segðu mjer annars, Úlfur, sagði hann og reyndi eftir mætti að koma samræðublæ á röddina — hefurðu haldið nokkuð áfram með þessar sögurannsóknir, sem þú varst einhvern tíma að tala um við mig?

Úlfur svaraði ekki undir eins, því hann skammaðist sín fyrir, hve þær ráðagerðir hefðu fljótt orðið að engu, eins og svo margar aðrar, sem hann til allrar hamingju hafði ekki sagt föður sínum frá. En til að vera sannleikanum samkvæmur, varð hann að svara neitandi.

— Er ekki þessi tilbreytingarlausa vinna í stjórnarráðinu hálf-leiðinleg, þegar til lengdar lætur? hjelt sjera Ljótur áfram. Jeg er alveg viss um, að svona verk verður helmingi erfiðara og seinunnara í hjáverkum, heldur en ef hægt væri að nota allan tímann til þess .... En er ekki eimitt þarna óunnið verk — og það verk fyrir þ i g. Eftir því sem jeg komst næst, ætlaðirðu að skrifa stjórnmálasögu landsins — og skrifa hana eins hlutdrægnislaust og auðið er. Og jafnvel þó þú sjert ekki lærður sagnfræðingur, þá held jeg samt, að þú hafir nóga söguþekkingu til þess að geta skrifað svona bók — og mjer finst lögfræðingur eiga að skrifa hana. Það er ekki fjarri mjer að halda, að þarna sje verulega mikilvæg köllun — og bíði rjetta mannsins. Slíkt stjórnmálayfirlit gæti verið góður spegill, til þess að sýna fólkinu framan í sjálft sig á ýmsum tímum. Jeg býst reyndar við, að mynd-

in verði ekki alt af jafn falleg. Þegar glamrinu og gjálfrinu er slept, verður oft undarlega lítið eftir af stjórnmálastarfinu og mönnunum. Og það, sem eftir er: megindrættir þróunarinnar, leiðir ekki alt af í ljós það sama og við fljótt álitið hefðum getað búist við. Sennilega kæmi það í ljós, að drættirnir lægju oft niður á við, þar sem menn byggjust við að þeir lægju upp — og líklega hið gagnstæða líka. Jeg held að það gæti verið lærdómsríkt, bæði fyrir stjórnmálamennina okkar og kjósendur þeirra, kannske mest fyrir þá síðari, að eiga slíka handbók í því, sem er í raun og veru.

— Já, það var einmitt þetta, sem jeg var að hugsa um, tók Úlfur fjörlega til máls.

Og svo fóru feðgarnir að ræða nákvæmlega um niðurskipun slíks verks.

Þegar þeir skildu, þrýsti sjera Ljótur hönd sonar síns óvenju innilega.

— Þú ættir að hugsa um þetta, drengur minn, sagði hann ákveðið en ástúðlega og Úlfur tók eftir tárum í augum hans ....

## VIII.

Geir Thorgeir var í mjög slæmu skapi, þegar hann kom upp í stjórnarráðið daginn eftir.

Honum hafði liðið illa um nóttina — en venjulega svaf hann eins og steinn. Hann svaf lítið og þá sjaldan að honum sofnaðist, ásóttu hann illir draumar. Sjer til mikillar gremju tók hann eftir því, að ró hans raskaðist meira og meira.

Það voru þessi þrjú mál, sem hann hafði orðið að gera út um án þess að tala við mág sinn, sem stöðugt kvöldu hann.

Eitt málið, það heyrði beint undir stjórnarráðið, var þegar útkljáð. Það var um umsókn frá stofnun, sem stjórnarráðið átti yfir að segja, og fór hún fram á, að einum af starfsmönnum stofnunarinnar, er ekki var í stjórninni, yrði vikið frá, með því að afstaða hans til stjórnarinnar gerði samvinnu illkleifa, og hann hefði ekki skilyrði til þess, að leysa starf sitt sómasamlega af hendi. Málsskjölin sýndu, að stjórnin hafði beitt þennan starfsmann all-óviðkunnanlegum njósnum, til þess að safna ásökunum á hendur honum, en ekki tekist það fylllilega. Enn fremur var það augljóst, að það atriði málaleitunar stórnarinnar, sem ræddi um skort á hæfileikum til þess að geta leyst starf sitt sómasamlega af hendi, stóð í beinni mótsögn við fyrri framkomu stjórnarinnar. Því fyrir einu ári hafði hún mælt með því, að starfsmaður þessi yrði skipaður í stöðu sína, en undanfarin ár var hann settur í hana. Úrskurður ráðherrans varð því auðvitað sá, að maðurinn ætti að halda stöðu sinni.

Hann fjekk því ekki skilið þann ertnisblæ, sem á var umsögnum blaðanna um úrskurð hans eða það, að jafnvel blöð sjálfs flokksins fóru heldur hikandi og gætilegum orðum um hann.

Og jafnvel þó samviska hans væri í góðu lagi, hafði hann á tilfinningunni að sennilega hefði hann gert einhverja skyssu. En hverja? ....

Hitt málið var uppsögn Úlfs. Það var einnig sama sem útkljáð, eftir samtal hans við dómkirkjuprestinn, föður hans, og hann hafði því ákveðið að segja Úlfi upp nú um daginn. Samviska hans var einnig í lagi út úr því.

máli, — hann gat ekki farið öðru vísi að, að honum fanst. Þó hafði hann eitthvert óþægilega nærgöngult hugboð um, að einnig þar væri hann að gera einhverja skyssu. Hann gat að eins ekki fundið í hverju hún lá. Og þess vegna fanst honum skynsamlegast, að hagga ekki ákvörðun sinni.

Aftur á móti var þriðja málið enn þá óútkljáð. En hann átti ekki hægt með að draga það lengur á langinn. Það var um veitingu sýslumannsembættis, eins hins besta á landinu og þess vegna höfðu margar sótt. En meðal þessara mörgu voru eiginlega að eins tveir, sem komið gátu til mála, annar þeirra, ungur sýslumaður, var eflaust hæfileikamestur, hinn var aftur á móti einn elsti sýslumaður landsins og hafði því meiri aldursrjett. Hann átti því að velja milli þessara tveggja. Og hann var alt af í vafa um valið. Hann fjekk ekki hjá því komist, að taka tillit til þess, að þeir voru báðir alkunnir stjórnmálamenn og ákafir flokksfylgjendur. Ungi maðurinn var einn ákveðnasti fylgismaður ráðherrans, en hinn var miðflokksmaður, Það var þetta, sem einkum gerði honum málið erfitt. Hann sagði við sjálfan sig, að ef því hefði ekki verið til að dreifa, þá hefði hann að eins litið á hæfileikana en ekkert tillit tekið til aldursrjettar eldri umsækjandans, — einkum þar sem embætti hans var allmiklu betra en hins yngra. — En það yrði kanske álitin hlutdrægni. En um það hefði hann lítið hirt, ef hann hefði verið alveg laus við það með sjálfum sjer að halda að það væri einmitt hlutdrægni. Og nú hafði hann hjer um bil ákveðið að láta aldursrjettinn ráða. En einnig það gat misskilist. Hann var í vafa. En niðurstaðan varð stöðugt sú, að hann þorði ekki að veita flokksmanni sínum embættið af því, að hann var ekki viss um hvatir sínar. —

Og ofan á alt þetta bættist svo það, að fyrsti maðurinn, sem baðst áheyrnar um daginn, var sýslumaðurinn ungi.

Jón Sölvason, stjórnarráðsþjónninn gamli, kom inn og afhenti nafnspjald hans — átti að spyrja, hvort hans hágöfgi þóknaðist að taka á móti honum núna, eða hvort hann ætti heldur að koma seinna í dag.

Geir Thorgeir stóð kyr um stund og leit hugsandi á spjaldið — og ósjálfrátt beit hann á vörina.

Jón gamli Sölvason stóð og beið svarsins. Virðingarþolinmæðis-svipur var yfir honum öllum, augu hans voru lítil og kringlótt, yfirskeggið þunt, langt og lafandi og höfuðið snoðklipt, svo hann minti skrítilega mikið á sel.

Þegar ráðherrann loksins hafði hugsað sig um, benti hann Jóni Sölvasyni með hendinni, að hann skyldi láta manninn koma inn. Þjónninn fór, skringilega varlega, því hann gat aldrei vanist þeirri hugsun vel, að þykku gólfábreiðurnar ráðherrans væru til þess að ganga á þeim og í hvert skifti, sem hann steig á þær, gerði hann það eins og köttur, sem ætlar yfir forugan veg.

Það var lítill maður, hvikur, í fallegum ferðafötum og einhver festa og rándýrslipurð í hverri hreyfingu, sem kom inn, og hneigði sig djúpt undir eins og hann kom inn úr dyrunum.

Geir Thorgeir gekk á móti honum, brosti vingjarnlega og rjetti honum höndina.

— Jeg vissi ekki, að þjer væruð í bænum, hr. Högni Pjetursson. — Það gleður mig að sjá yður.

— Jeg þakka, yðar hágöfgi — og sýslumaðurinn hneigði sig aftur. Jeg er líka að eins á snöggri ferð hjer. Kom hingað í nótt og fer aftur á morgunmálinu. Yðar há-

göfgi fyrirgefur því búninginn. Í svona snöggum ferðum verður maður að hafa leyfi til þess að skilja sinn ytri stjórnmálamann eftir heima — þegar maður skýtst þetta á hestbaki, sagði hann brosandi.

Geir Thorgeir bauð gestinum sæti í hægindastólnum við skrifborðsendann, hló og bauð vindil.

Högni Pjetursson þakkaði, kveikti í honum, þakkaði aftur — og sagði síðan varlega, er hann hafði púað vindilinn hægt nokkrum sinnum:

— Mjer fanst jeg ekki geta komið svo til bæjarins, jafnvel svona snögga ferð, að jeg heilsaði ekki upp á yðar hágöfgi ....

Geir Thorgeir hreyfði sig ofurlítið í viðurkenningarskyni — hann var setstur í stóra, þægilega skrifborðsstólinn.

— En annars kom jeg líka til þess að skygnast eftir, hvernig málum mínum væri komið, hjelt Högni Pjetursson áfram. Jeg býst jafnvel hálfvegis við, að yðar hágöfgi hafi kannske þegar tekið ákvörðun í málinu, bætti hann hæglátlega við.

— Ja-á, — hm .... það er að segja, endanleg ákvörðun er engin tekin enn þá — svaraði Geir Thorgeir og forðaðist ósjálfrátt að horfa í augu Högna Pjeturssyni. Í fátinu, sem alt í einu kom á hann, fór hann að teikna myndir á þerriblaðið með blýanti, og hjelt, að með því hyldi hann vandræði sín.

Svo hertinn hann upp hugann, lagði blýantinn frá sjer og leit beint framan í hinn.

— Jeg skal hreinskilnislega játa, að málið veldur mjer dálítilla vandræða. Sjálfs mín skoðun er sú, að þjer ættuð að fá sýsluna, Högni Pjetursson. ....

Sýslumaðurinn þakkaði með því að hneigja sig bros-

andi, en Geir Thorgeir gramdist það dálítið, af því að honum fanst hinn leggja meira í orð sín, en rjett væri.

— En það kemur fleira til greina, hjelt hann áfram, og svipur hans og rödd varð dálítið kuldalegri. — Sigurður Einarsson er eldri maður, og það er venja, að taka mest tillit til aldursrjettarins við slíkar embættaveitingar. Úrslitin eru undir því komin, hvort jeg sje ástæðu til þess að brjóta þessa venju í þetta skifti.

Högni Pjetursson sat alt af jafn brosandi. En þegar ráðherrann sagði þessi síðustu orð, komu nokkrir rauðir blettir í ljós fyrir neðan augun og virtust nærri málaðir á grátt hörundið.

— Má jeg ekki leyfa mjer — — sagði hann blíðlega eftir dálitla þögn, og reykti enn þá hægar en áður. Mjer er sem sje áríðandi vegna nokkurra annara mála, að fá fullnaðarsvar undir eins, eftir því sem hægt er — skaut hann inn í. — Og leyfi þjer mjer þess vegna, að spyrja hvort þessi síðustu orð yðar hágöfgi eiga ekki að skiljast sem gætileg og í kyrþey gefin yfirlýsing um það, að jeg megi ekki gera mjer alt of háar vonir?

— Jeg lofa yður því, að taka málið til nýrrar og nákvæmrar rannsóknar, öðru get jeg ekki lofað yður, sagði ráðherrann og stóð upp. En ef svo færi, að Sigurður Einarssson yrði tekinn fram yfir yður, og það yrði þá einungis sakir aldursins, þá fer hann úr embætti, sem er allmiklu betra en það, sem þjer hafið núna. Þjer getið verið viss um fullkominn stuðning minn, ef þjer sækið um það.

— En það geri jeg ekki — en annars þakka jeg yðar hágöfgi góðvildina. Högni Pjetursson var nú líka staðinn upp.

Geir Thorgeir gat ekki gert sjer ljóst, hvort hann þakk-

aði af einlægni eða hvort eitthvert hnýfilyrði væri falið í ummælum hans.

— Jeg skil ósköp vel þær hvatir, sem ef til vill verða þess valdandi, að yðar hágöfgi velur Sigurð Einarsson heldur, hjelt sýslumaðurinn áfram. Og jeg játa, að þjer hafið rjett fyrir yður, að sumu leyti. Sýslumaðurinn hafði svo fullkomið vald yfir rödd sinni og fasi, að Geir Thorgeir vissi enn þá ekki, hvernig honum væri í skapi.

— Nú, þá ætla jeg að kveðja yðar hágöfgi — sagði Högni Pjetursson og rjetti ráðherranum kæruleysislega mögru höndina — og þakka yður fyrir, í þetta skiftið, lá mjer við að segja, bætti hann við og hló vingjarnlega. — En nú ætla jeg að láta það bíða að þakka yðar hágöfgi þangað til jeg hef eitthvað til þess að þakka fyrir.

Han hneigði sig og gekk að dyrunum, og ráðherrann á eftir honum, en áður en hann var kominn að dyrunum, hálf-sneri hann sjer við og sagði eins og í gamni:

— En jeg get huggað bæði sjálfan mig og yðar hágöfgi á því, að ef aldursrjetturinn fellir mig í þetta skifti, þá verður það áreiðanlega í fyrsta og einasta skifti. Vona að við sjáumst heilir aftur — hann hneigði sig mjög kurteislega og hvarf út úr dyrunum ....

Þegar hann var farinn, gekk Geir Thorgeir stundarkorn um gólf, hljóðlega, og áhyggjuhrukkur komu á ennið. Það var líka skrítið, að hann skyldi ekki geta með sjálfum sjer komist að neinni niðurstöðu um það, hvað væri rjett í þessu máli ....

Svo hringdi hann. En hann settist þreytulega í skrifborðsstól sinn, án þess að bíða komu Jóns Sölvasonar, og fór að blaða í skjölum, sem lágu fyrir framan hann og var fát á honum og óánægjusvipur á andlitinu. — Ný mál, hugsaði hann leiður, — ný mál .... alt af ný mál.

Þegar hann heyrði dyrnar opnast, hálfleit hann við og sagði um öxl sjer:

Biðjið þjer Úlf Ljótsson að koma.

Geir Thorgeir heyrði dyrunum lokað. Og þar sem hann hjelt Jón Sölvason farinn til þess að framkvæma skipun sína, sneri hann sjer hálf-hranalega við, þegar hann heyrði veika ræskingu og varlegt fótatak eftir gólfábreiðunum að baki sjer.

— Heyrðu þjer ekki hvað jeg sagði? spurði hann, en sá í sama bili að þjónninn hjelt á korti. — Nú, jæja?

Jón Sölvason rjetti ráðherranum spjaldið og sagði, og var auðheyrður ánægjuhreimur í röddinni, yfir að koma svona vel fyrir sig orði:

— Dr. Björn Halldórsson bað mig að tilkynna yðar hágöfgi, að hann kæmi í mjög áríðandi erindum.

Ráðherrann stóð einnig í þetta skifti hugsandi andartak, áður en hann benti þjóninum að láta manninn koma inn.

Honum fanst hann alt í einu vera afskaplega þreyttur.

— Svo það var þá s v o n a alvarlegt, hugsaði hann. Hann efaðist ekki um, að heimsókn læknisins stæði í sambandi við sjúkdóm mágs síns.

Svo var eins og öll hugsun hans hyrfi. Í meðvitund hans var ekkert eftir, nema hvarflandi óvissutilfinning.

Þegar hugsanir hans náðu aftur jafnvægi, beindust þær að spjaldinu, sem hann hjelt á: — En hvað það var áþekt manninum, sem látið hafði prenta nafn sitt á það með feitu letri: dálítið hrokafult, en traust. Og honum datt ennfremur í hug, og brosti við, að jafnvel af slíku smávægi sem nafnspjaldinu mætti sjá, að Björn Halldórsson væri af bændafólki.

Svo gerði hann loksins þá bendingu með hendinni, sem

Jón Sölvason beið auðmjúklega eftir — og lagði spjaldið á skrifborðið.

Jón Sölvason fór og opnaði dyrnar.

— Geri þjer svo vel, sagði hann lágt og hleypti inn hjá sjer manni, klæddum fráhneptum skinnfrakka og með spánnýja, gula skinnhanska og gullbúinn staf, sem hann hjelt fyrirmannlega á, og ljet skína vel á skrautið. Svo fór hann og lokaði dyrunum virðulega á eftir sjer.

Geir Thorgeir stóð fljótt upp og gekk á móti lækninum.

Hann heilsaði honum innilega og tók vingjarnlega í hönd hans. En þegar hann leit framan í lækninn hætti hann ósjálfrátt við brosið, sem annars hefði verið ofureðilegt að heilsa með mikilsvirtum flokksfjelaga. Hann vísaði honum með alvörusvip til sætis í hægindastólnum við skrifborðsendann og settist aftur sjálfur í sitt sæti.

Björn læknir Halldórsson var hár maður og samsvaraði sjer vel, skeggið dökt alskegg og hárið snoðklipt og andlitið sællegt. Augun voru brún og skynug bak við gullspanga-gleraugu, sem sátu á nefi, sem honum til sárrar gremju var söðulnef, þó ekki sjerlega ljótt. Hann hagræddi sjer makindalega, lagði annan fótinn ofan á hinn, studdi vinstra olnboganum á stólbríkina og sagði með allójafnri og hálf-másandi rödd:

— Jeg var að hugsa um að heimsækja yðar hágöfgi undir eins í morgun. En jeg hætti við það, bæði af því að hættan var ekki svo y f i r v o f a n d i, og af því, að heimsókn á heimili yðar hágöfgi, einkum á þessum tíma dags, hefði ef til vill getað valdið meiri óróa, en vert var að vekja, fyr en full ástæða væri til. Jeg ákvað því, að leita fundar yðar hágöfgi hjer í stjórnarráðinu,

jafnvel þó að það yrði til þess að þjer fengjuð frjettirnar nokkrum stundum seinna.

Geir Thorgeir kinkaði kolli, alvarlega og þakklátlega.

— Jeg skil yður vel, kæri læknir, og er yður þakklátur fyrir nærgætni yðar.

— Mjer fanst það skylda mín, hjelt læknirinn áfram, að segja yðar hágöfgi frá því í tæka tíð, hvernig líðan mágs yðar, bankastjórans, í raun og veru er, en hún gefur nú því miður ástæðu til alvarlegra áhyggja.

— Er það svo alvarlegt, sagði ráðherrann lágt, og það var eins og kökkur sæti í hálsi hans.

Læknirinn horfði rólega og alvarlega í augu honum.

— Eins og horfurnar eru núna, er satt að segja frá læknis sjónarmiði lítil von. En reyndar eru dæmi til þess, að sjúklingar, sem menn hafa haldið að gætu ekki lifað, hafa náð sjer. Það er sagt, að vonin treynist meðan lífið tóri. Og jeg mun vitanlega ekki láta undir höfuð leggjast, að gera það, sem í mínu valdi stendur, jafnvel þó jeg sje þegar farinn að óttast, að tilraunir mínar verði árangurslausar. Því miður — mjer þykir það leitt. —

— Jeg hef enn þá ekki viljað skýra konu bankastjórans frá því, hvað ástandið er í rauninni alvarlegt í svipinn. En jeg áleit best .... já, sem sagt, jeg áleit skyldu mína, að vekja athygli yðar hágöfgi á því, að hjer er hætta á ferðum.

— Já, jeg þakka yður fyrir, læknir góður, þakka yður fyrir, svaraði Geir Thorgeir dauflega og strauk um enni sjer með annari feitu hendinni.

Hann var að reyna að gera sjer grein fyrir þeim afleiðingum, sem dauði mágs síns hefði fyrir sig. Hann grunaði, að þær mundu miklar.

Var nú til dæmis ekki undir eins komin dálítil breyting

á fas læknisins, örlítil breyting — mjög óveruleg og varla svo að tekið yrði eftir henni og sennilega manninum sjálfum ekki meðvitandi. En var hann ekki vanur að koma fram með dálítið meiri virðingu? Nú, en ef til vill skjátlaðist honum.

En hann gat ekki hrynt einhverjum þjakandi ama úr huga sjer, sem spratt af óljósum grun þess, að dauði mágs síns mundi hafa gagngerð áhrif á líf sitt.

En Geir Thorgeir missýndist ekki alveg með breytinguna, sem hann þóttist hafa orðið var við á lækninum. Læknirinn tók eftir því, undir eins og hann kom inn, að frjettirnar, sem hann hafði að færa, höfðu enn þá meiri áhrif á ráðherrann en hann bjóst við. Og hann var undir eins á verði, og varð ósjálfrátt nokkru óþýðari í viðmóti, þar sem hann gætti sjálfs sín ekki eins og hann átti að sjer.

Björn Halldórsson hafði nú sagt það, sem hann áleit að sjer bæri að segja, að svo komnu, og beið því þögull.

En af því að hans hágöfgi sagði ekkert og þögnin var orðin svo löng, að hann hefði mátt skilja hana sem ráðherrann áliti áheyrninni lokið, tók hann ákveðinn aftur til máls:

— Jeg vona, að yðar hágöfgi misskilji mig ekki — og misvirði það ekki við mig, þó jeg víki undir eins nú að þeirri hlið málsins ....

Geir Thorgeir hafði starað hugsandi út í loftið, en kom nú alt í einu til sjálfs sín — augu hans opnuðust meira og örlitlum undrunarsvip brá fyrir í þeim.

Læknirinn tók mjög vel eftir svipbreytingunni á andliti ráðherrans og sem svar við henni varð rödd hans ákveðnari:

— Yðar hágöfgi er það vitanlega sjálfum miklu ljós-

ara en mjer, hvert skarð yrði að fráfalli bankastjórans einmitt nú.

— Já, svaraði ráðherrann utan við sig — með Gísla Torfasyni missi jeg góðan vin ....

— Og hygginn vin — hrökk út úr Birni Halldórssyni, en til allrar hamingju tókst honum nógu tímanlega að sleppa þessu „mjög“, sem hann var alveg kominn af stað með.

— Já, svaraði Geir Thorgeir utan við sig — já, — og með sjálfum sjer var hann að hugsa um við hvað læknirinn ætti, og hvert hann stefndi.

Viðmót ráðherrans vakti æ meiri og meiri gremju hjá Birni Halldórssyni. Hann gat ekki trúað, að ráðherrann skildi ekki hvert hann stefndi og tók því orð hans sem tregðu á því, að ræða við sig þá hlið málsins, sem óneitanlega lá honum þyngst á hjarta. Ef til vill áleit Thorgeir hann ekki verðan einlægni sinnar?

Rödd hans varð ósjálfrátt enn þá hvassari.

— Yðar hágöfgi verður að fyrirgefa, en jeg hef ekki fært yður þessar frjettir eingöngu sem einstaklingi — heldur — liggur mjer við að segja næstum frekar sem ráðherra og flokksforingja. Jeg álít flokknum það mjög mikinn hag, að við vitum nú hvernig málunum er komið, þar sem andstæðingarnir geta aftur á móti ekki vitað um það fyr en seinna, að þingsæti verði autt innan skamms. Og það er nú mín skoðun, að það sje beinlínis skylda okkar, að hagnýta okkur þessa betri aðstöðu eftir föngum. Við verðum að ákveða þingmannsefni undir eins, og undirbúa kosningu þess af alefli. Yðar hágöfgi er það fullkunnugt, að undanfarin ár hefur bankastjórinn haldið kjördæminu, af því að — já, af því hann er nú einu sinni Gísli Torfason. Ef flokknum tekst

að halda kjördæminu að bankastjóranum dánum, þá verður það að skoðast stór sigur — og það sigur, sem ekki verður mjög auðunninn.

Geir Thorgeir hlustaði hálftregur á þetta og reis nú þreytulega upp.

— Finst yður það ekki vera ögn viðkunnanlegra, að lofa manninum að deyja fyrst.

— Fyrst yðar hágöfgi finst það — sagði Björn Halldórsson og stóð einnig upp hvatlega — þá beygi jeg mig —auðvitað. En ef við kynnum að iðrast þess einhvern tíma seinna, að hafa ekki hagnýtt okkur þá yfirburði, sem ástandið gefur okkur, þá ætla jeg að biðja yðar hágöfgi að minnast þess, að ábyrgðin hvílir ekki á mjer. — — En annars er maðurinn sama sem dauður. Það er að minsta kosti kraftaverk, ef hann tórir.

— Einmitt það, svaraði Geir Thorgeir, og virtist bresta kraft til þess að koma eins fram og hann áleit best viðeigandi — hvern hafið svo til dæmis þ j e r hugsað yður sem eftirmann mágs míns, Björn Halldórsson?

Geir Thorgeir spurði helst af því að hann fjekk alt í einu grun um, að eigingjarnar hvatir rjeðu framkomu Björns Halldórssonar. En hann virtist ekki hafa hitt naglann á höfuðið, því læknirinn svaraði eins og hann hefði búist við þessari spurningu:

— Mjer finst við eigum að reyna alt sem við getum til þess að fá sjera Ljót Úlfsson til þess að bjóða sig fram. Ef það tekst eru líkur til þess að við sigrum, annars .... og hann barði reiðilega út í loftið með hendinni, sem hjelt á hattinum, stafnum og hönskunum.

— En það tekst ekki, sagði Geir Torgeir og hristi höfuðið — hann gerir það ekki. Jeg get talað um það við hann. En jeg veit, að það verður árangurslaust.

Hann þagnaði dálítið. Svo sagði hann varlega og vingjarnlega:

— En þ j e r Björn Halldórsson, væri það óhugsandi að þjer væruð fáanlegur til þess að bjóða yður fram sem þingmannsefni flokksins í þessu erfiða kjördæmi?

Björn læknir Halldórsson hristi höfuðið.

— Jeg vil l a n g helst vera laus við það, yðar hágöfgi, svaraði hann svo einlæglega, að enginn efi var á að hann meinti það. — Starf mitt er á alt öðru sviði. Jeg hefði varla tíma til þess, nema með því að vanrækja sjúklingana. En verði ástandið þannig, að flokkurinn álíti það óumflýjanlega n a u ð s y n, þá skoraðist jeg nú samt sem áður ekki undan. — En það er ekki til neins — sagði hann og hristi höfuðið alvarlega — jeg hef það ekki. Eins og jeg sagði yðar hágöfgi áðan — og Björn Halldórsson bjó sig til brottferðar — ef okkur tekst ekki að fá sjera Ljót til þess að bjóða sig fram, þá hef jeg nauðalitla von um að okkur takist að halda kjördæminu.

Björn læknir Halldórsson kvaddi og fór.

Geir Thorgeir fylgdi honum til dyra og reyndi eins og hann gat að vera vingjarnlegur í viðmóti, en honum fanst hann alt í einu svo yfirkominn, að hann átti bágt með það.

Svo gekk hann þunglamalega að stól sínum aftur, settist og studdi hökunni á hendur sjer.

Hugsanir hans þeyttust hingað og þangað — voru á algerðri ringulreið.

Þegar gamli þjónninn leiddi Úlf Ljótsson inn skömmu seinna, sat Geir Thorgeir enn þá í sömu stellingum.

Skipunin um að koma inn til ráðherrans kom Úlfi alveg á óvart. Hann var orðinn þess alviss, að ekkert ætl-

aði að verða úr hryðjunni í þetta skifti. Í fyrstunni kom slíkt fát á hann, að honum hefði fallið allur ketill í eld, ef hann hefði komið inn undir eins. En hann varð að bíða svo lengi í forherberginu, að hann gat jafnað sig. Hann ljet því undrunarsvip ráðherrans ekkert á sig fá þegar hann kom inn — því Geir Thorgeir hafði steingleymt Úlfi í svip — en sagði undir eins rólega:

— Yðar hágöfgi gerði boð eftir mjer ....

— Já, já, — það er rjett, sagði hann, og benti Úlfi að koma nær — benti honum jafnvel í fátinu á hægindastólinn, en Úlfur hirti ekki um það.

Úlfur hjelt áfram og gaf ráðherranum ekki færi á að tala:

— Og það vildi einmitt vel til, því að jeg hafði hugsað mjer að gera yðar hágöfgi dálítið ómak í dag.

— Einmitt það? spurði Geir Thorgeir, og hvað er yður á höndum?

— Jeg er að gera dálítið, hjelt Úlfur rólega áfram — og það væri æskilegt að jeg gæti notað allan minn tíma til þess, og jeg er þess vegna neyddur til að segja af mjer. Og nú ætlaði jeg að spyrja yðar hágöfgi, hvort nokkuð væri á móti því, að jeg gæti fengið bráðabirgðarorlof þangað til jeg get fengið formlega lausn. Yðar hágöfgi gerði mjer mikinn greiða með þessu, því jeg gæti þá byrjað undir eins.

Þessi bón Úlfs kom Geir Thorgeir svo óvænt, og um leið svo vel, að hann stóð ósjálfrátt upp og gekk að honum.

— Hvaða verk er þetta, Úlfur Ljótsson? spurði hann, alveg tortrygnislaust.

— Það átti að verða all-nákvæmt yfirlit yfir stjórn-

málasögu okkar, svaraði Úlfur dálítið feimnislega, sakir þess, hve spurning ráðherrans var blátt áfram.

Svo datt honum alt í einu dálítið í hug, sem honum fanst geta gert þetta enn þá trúlegra.

— Mjer var reyndar að detta í hug, að sækja um dálítinn styrk til þingsins í sumar. — Jeg held að svona rit gæti verið all-mikils vert.

— Já, já, en við skulum nú sjá hvað setur, svaraði Geir Thorgeir vingjarnlega, jeg skal athuga, hvað jeg get gert fyrir yður þangað til. Því það er enginn hægðarleikur að hjálpa yður, Úlfur Ljótsson.

Geir Thorgeir stóð hugsandi augnablik. Honum fanst nú til einskis að segja Úlfi, að það hefði einmitt átt að segja honum upp. En til hvers átti hann annars að segja, að hann hefði látið kalla á hann? ....

Hann greip það, sem honum datt fyrst í hug.

— Jeg ætlaði að tala við yður um — — — Þjer vitið víst, að Högni Pjetursson sækir um Fjarðarsýslu. Hann er skólabróðir yðar og þjer þekkið hann, eða er ekki svo? Er það ekki maður, sem vert er að styðja?

— Áreiðanlega, yðar hágöfgi, svaraði Úlfur og faldi undrun sína.

— Já, mjer hefur fundist til um dugnað hans í embættisfærslu sinni. Og jeg hafði þess vegna hugsað mjer að veita honum Fjarðarsýslu. En Sigurður Einarssson sækir líka. Og það er ekki gott að ganga þegjandi fram hjá honum. Og þar á ofan bætist, að hann er stjórnmálaandstæðingur minn.

— Ef jeg má segja mitt álit, yðar hágöfgi, á í þessu tilfelli að eins að taka tillit til hæfileikanna. Þessi veiting væri óaðfinnanleg — og siðferðislega sjeð sú eina rjetta. Hitt gætu menn líka auðveldlega álitið þrekleysi.

Geir Thorgeir hugsaði sig um — honum leið alt í einu svo vel.

— Já, þetta er rjett hjá yður, svaraði hann einbeittur, — þetta sama hugsaði jeg sjálfur.

Hann gekk dálítið fram og aftur. En af því að honum fanst Úlfur hafa í hyggju að fara, spurði hann alt í einu:

— Þekki þjer skjölin í lánsfjelagsmálinu — en í því var stjórnarráðið nýbúið að kveða upp úrskurð.

— Já, yðar hágöfgi.

— Hvað finst yður um það? spurði Geir Thorgeir og reyndi að vera kæruleysilegur. — Finst yður ekki það eina rjetta, að láta manninn halda stöðunni?

— Það var áreiðanlega r j e t t l á t u r úrskurður, svaraði Úlfur dálítið hikandi, að svo miklu leyti sem tæplega voru fyrir hendi nægar ástæður til þess, að svifta h a n n e i n a n starfi sínu. En ef jeg má segja mína skoðun, yðar hágöfgi, þá hefði átt að sneiða hjá ádeilublænum í svari stjórnarinnar; stjórn landsins á, eftir minni skoðun, helst ekki að varpa sjer í deilur við stofnun, sem hún á yfir að segja — fyrirgefi þjer, yðar hágöfgi. Annars finst mjer að rjettast hefði verið, að — eins og það kallað í daglegu tali — að svæla grenið.

Geir Thorgeir hló, dálítið óstyrkur.

— Ætli það hefði ekki verið full-hart að gengið? En þjer eruð ungur, Úlfur Ljótsson ....

Með sjálfum sjer fjelst Geir Thorgeir alveg á skoðun hans. Já, það, einmitt þ a ð ætti jeg að hafa gert, hugsaði hann.

Núnú, jeg óska yður allra heilla og hepni í starfi yðar, Úlfur Ljótsson, sagði hann vingjarnlega. Og þakka yður fyrir þann tíma, sem við höfum unnið saman — yfirleitt hefur það gengið vel. Hjeðan í frá geti þjer

skoðað yður leystan undan skyldum yðar hjer í stjórnarráðinu — jeg skal svo koma öllu í lag við skrifstofustjórann. Vilji þjer ekki reykja? Geri þjer svo vel — veri þjer sælir, Úlfur Ljótsson, — hann þrýsti hönd hans vingjarnlega — jeg skal nú sjá hvað jeg get stutt yður í sumar. Beri þjer föður yðar bestu kveðju mína.

Geir Thorgeir fylgdi Úlfi til dyra — hann var mjög ánægður með þessi heppilegu málalok.

En Úlfur var alls ekki ánægður.

Hafði hann gert axarskaft? hugsaði hann — stórkostlega heimsku? Var það alls ekki ætlunin að segja honum upp?

Á heimleiðinni gerði hann ekki annað en bölva sjálfum sjer með mergjuðustu orðum málsins.

Og við morgunverðinn sagði hann feimnislega við föður sinn:

— Jeg sagði upp stjórnarráðsstarfinu í dag, pabbi.

Sjera Ljótur leit upp óttalostinn.

— Gerðirðu hvað? spurði hann tortrygginn; hann gat ekki trúað að sonur sinn ætlaði að dylja sig sannleikans.

— Já, pabbi — það var víst mesta heimska, svaraði Úlfur stúrinn. Jeg var kallaður inn til ráðherrans, og hjelt að það ætti að segja mjer upp, vegna þess í fyrradag. Og jeg vildi heldur að nafninu til verða fyrri til. Jeg skýrskotaði til ritsins, sem við töluðum um í gær, og bað um lausn. Og jeg fjekk hana vitanlega undir eins. En Geir Thorgeir var svo vingjarnlegur — hann bað að heilsa þjer — hann gaf mjer vindil — að jeg held nú eftir á, að mjer hafi hlotið að skjátlast — hann hristi hryggur höfuðið.

Sjera Ljótur gat ekki að sjer gert — hann hló.

— Þú komst vel í gegnum þetta, drengur minn.

— Við hvað áttu, spurði Úlfur undrandi.

— Það átti sem sje að segja þjer upp. Sjera Ljótur var aftur orðinn alvarlegur. — Jeg vissi um það undir eins í gær. Geir Thorgeir talaði um það við mig. En mjer fanst rjettast að segja þjer ekki frá því.

— Jæja, þá var gott að jeg bjargaði því við, svaraði Úlfur blælaust. En jeg get bara ekki skilið .... hann var að hugsa um viðmót ráðherrans.

Þeir hjeldu þegjandi áfram að borða.

Úlfur sökk niður í hugsanir. Sjálfum sjer til dálítillar undrunar fann hann, að honum þótti vænna um Geir Thorgeir eftir en áður. En hann var víst enn þá veiklyndari maður, en hann hafði haldið, hann Geir Thorgeir .... En sá, sem aftur á móti var ekki veiklyndur, það var faðir hans. Alt af hjálpaði hann honum. Alt af aðstoðaði hann hann trúlega .... maður, sem líklega gat ekki svikið. — En hann sjálfur .... Hann fann hjarta sitt ólga af ást til föðurins — og samt angraði hann hann alt af — gerði honum alt af nýjar sorgir og áhyggjur — brást trausti hans hvað eftir annað. Hann var ekki einasta veiklyndur, hann var ræfill. Og hann yrði líklega aldrei öðruvísi ....

Sjera Ljótur sleit þessum hugsunum sonar síns með því að spyrja hæglátlega:

— Byrjarðu þá ekki af kappi á vinnunni, drengur minn?

Úlfur hrysti hryggur höfuðið.

— Jeg held það sje ekki til neins, pabbi. — Jeg lýk hvort sem er aldrei við það, ef jeg þekki sjálfan mig rjett.

— Jú, það gerir þú, drengur minn, svaraði Ljótur í huggunarróm.

Og það sem eftir var máltíðarinnar reyndi hann af alefli að tala kjark í son sinn og hvetja hann til þess að byrja.

## IX

Gísli gamli Torfason lá í andarslitrunum.

Hann streittist á móti meðan hann gat. Hann ofurseldi sig ófús dvala og drunga hitasóttarinnar. Eftir hverja hóstakviðu gaut hann geðilskuaugum á blóðuppganginn. Og þá sjaldan að hann hafði kyrra og kvalalausa stund, jagaðist hann við konu sína, bugaða af sjúkleika hans, og alla aðra, sem eitthvað áttu saman við hann að sælda, og húðskmmaði lækninn fyrir að láta sig liggja svona í leti og eyða tímanum, þó hann hefði meira en nóg að gera.

Og þá sjaldan honum hugkvæmdist ekkert til þess að hreyta úr sjer skömmum og skætingi við, bældi hann sig niður og bölvaði nöldrandi heiminum svona yfirleitt.

Það var ekki nokkurt vit í þessu, að liggja svona iðjulaus viku eftir viku .... Hann var nú kominn undir sjötugt og hafði aldrei fyr legið í rúminu heilan dag í einu. Að fá ofurlitla iðrakvöl eða höfuðverk morguninn eftir kátínu-kvöld, það hafði hann komist lengst í sjúkdómunum. Og hann hafði alt af borið megnustu fyrirlitningu fyrir þeim, sem „flatmöguðu í leti“, en svo kallaði hann það að liggja veikur. En það var þetta bannsetta blóð í uppganginum — svo það hlaut að vera komið gat, einhverstaðar þar sem hann sá ekki — og honum leitst ekki á það. Og svo var það horngrýtis hitinn, sem dró úr honum allan þrótt — þremillinn sá arna! Annars

hefði hann umsvifalaust farið á fætur og ofan í banka — hvað svo sem allir læknar segðu. Læknar—það voru þá líka menn, eða hitt þó heldur — að geta ekki eytt örlítilli hitaögn — eða klastrað í þetta gat á lungunum, eða hvar það var. Það var hrein og bein háðung!

En hvert hann Björn Halldórsson skyldi líka ekki fá að bíða eftir borguninni — það gæti hann reitt sig á. Hann skyldi fá að bíða árum saman!

En smásaman fór að sljákka dálítið í Gísla Torfasyni. Þó ekki svo að skilja, að viðmótið yrði blíðara eða betra — öðru nær.

Einu sinni kallaði hann aftur á Björn lækni Halldórsson, þegar hann var að fara frá honum, eftir óróasama heimsókn frá sjúklingsins hálfu, og þegar læknirinn stóð aftur við rúm hans sagði bankastjórinn mjúklega:

— Þú skalt fá hundrað krónur — Gísli gamli Torfason hafði tekið upp á því á seinni árum að þú-a alla, undantekningarlaust — viltu fá þær undir eins? — því ekki? — Þú skalt fá eins mikið og þú vilt — skilurðu það — eins mikið og þú vilt. En þá verðurðu að sjá um að jeg komist á fætur núna einhvern daginn. — —

En svo opnuðust augu Gísla gamla Torfasonar alt í einu fyrir því, að það var ilt ástand með hann — og að hann dæji líklega.

Honum hafði einu sinni orðið litið á nakta fæturna. Fyrst ætlaði hann varla að trúa sínum eigin augum. — Þessar grönnu spýtur þarna — voru það hans fætur! Fætur Gísla Torfasonar! .... Hann óraði eitthvað fyrir því, að líklega hefðu fæturnir alveg sagt honum upp þjónustu sinni. Hann vissi ekki hvort sjer mundi nokkurn tíma auðnast að eins að reyna að stíga í svona fætur.

Og alt í einu laust hugsunin um dauðann hann — svo

óvænt og ákaft, að hann reyndi ekki ögn að streitast á móti .... Það var auðsjeð, að með svona fætur var ókleift að lifa.

Í fyrstunni varð hann óttalostinn.

Hann hafði aldrei hugsað neitt sjerstaklega um dauðann í sambandi við sjálfan sig. Og hugsunin kom honum alveg á óvart. Eyðingin olli honum barnalegs ótta. Og þar við bættist, að endurminningar úr barnalærdóminum um líf eftir dauðann komu upp í huga hans og hræddu hann. Hann mundi eitthvað eftir umbun og náð — og eitthvað eftir eilífri útskúfun og eilífri sælu. Hingað til hafði hann alt af látið sjer nægja þá skoðun, og áleit hana örugga, að ekkert annað líf væri til.

En þegar hann náði sjer eftir fyrstu hræðslukviðuna, varð hann sjálfum sjer líkari.

Það var víst ekki vel sæmandi að liggja hjer og hræðast. Hann var hvort eð er ekki fyrsti maðurinn, sem dó. Og hann hefði það víst af eins og hinir.

Að vísu fanst honum drottinn hafa getað valið heppilegri tíma, en nú fanst honum rjettast að gera ráð fyrir að drottinn væri til, þetta gæti svo sem verið, og varð því alt í einu dús við hann. En hann hafði nógu oft rekið sig á það, að dauðinn spyr ekki hvaða tími sje heppilegastur, áður en hann kemur í heimsóknirnar. Og einhverntíma kæmi hvort eð væri að þessu. Og fyrst ekki varð hjá því komist, var myndarlegast að reyna að bera sig dálítið karlmannlega. Það hlyti þó að hafa bestu áhrifin á drottinn — en hann gat ekki hugsað sjer drottinn án karlmannlegra eiginleika og skoðana.

Og úr því Gísli gamli Torfason hafði sætt sig við hugsunina um það að hann væri búinn „í þetta skifti", eins og hann með sjálfum sjer kallaði það, þó hann vissi

ekki hvernig á því stæði — þá fór hann eins og hann átti að sjer, að búa sig undir að deyja dauðanum myndarlega, eins og hann hafði lifað lífinu myndarlega.

Fyrsti undirbúningurinn var sá, að hann sendi samstundis eftir lækninum.

Björn Halldórsson var nýkominn frá ráðherranum og fór undir eins.

Gísli Torfason hafði látið konu sína hlaða koddum við bakið á sjer og sat nú uppi að hálfu, þegar læknirinn kom. Undir eins og hann kom inn úr dyrunum ljet hann konu sína á sjer skilja með óþolimóðlegu augnatilliti, að hún mætti fara.

— Nú dey jeg, er ekki svo? spurði hann lækninn undir eins og konan var komin út.

Lækninum datt ekkert betra í hug í svipinn, til þess að hylja hugsanir sínar, en að ganga rólega fram og látast ætla að þreifa á slagæð sjúklingsins.

— Engin fíflalæti! sagði Gísli Torfason og kipti að sjer hendinni. Segðu mjer bara eins og er. Jeg er enginn hvítvoðungur. Það þarf ekki að dylja sannleikann fyrir mjer.

— Finst herra bankastjóranum ekki að sjer líði eins og ögn betur í svipinn?

— Nei, svaraði Gísli Torfason reiður, — það er langt frá því að herra bankastjóranum finnist það. Þá hefði mjer ekki dottið í hug að jeg færi að deyja. Jeg vil ákveðið svar.

— Já, — en ....

— Nú, einmitt, þú þarft ekki að segja meira. Hvað getur það dregist lengi?

— Ef herra bankastjórinn forðast ekki allar ónauðsynlegar geðshræringar eftir mætti, þá get jeg ekki ábyrgst neitt.

— Jæja, jæja, það er gott — þú ert duglegasti maður, læknir, sagði Gísli Torfason dálítið þreytulega og slitrótt. — En það sje jeg, að það er ekki hægt að teygja út úr þjer eitt einasta skynsamlegt orð. Heldurðu að jeg geti átt undir því að laumast svona burtu, án þess að ráðstafa málum mínum einhverja ögn. Hefurðu ekki eitthvað, sem þú getur haldið mjer uppi með — þó það væri ekki nema til kvöldsins? Gefðu mjer einhverja inntöku úr apótekinu. Eða gerðu hvað sem þú vilt. Heldurðu að þú getir það ekki?

— Ef herra bankastjórinn er aðeins rólegur og varasamur eins og jeg sagði áðan, og — umfram alt forðast alla æsingu, — þá held jeg að okkur sje óhætt að vona, að ekkert slæmt komi fyrir fyrir kvöldið.

— Það er gott, læknir, svaraði Gísli Torfason rórri. — Það yrði fjelegt ....

Hann hætti ögn. Og augu hans hvörfluðu hálf vandræðalega þegar hann tók aftur til máls:

— Nú, svo langaði mig til þess að tala við sjera Ljót — — og mág minn .... Þú getur víst ekki verið við hendina, læknir, ef jeg þyrfti á þjer að halda?

— Jú, því lofa jeg yður, herra bankastjóri. Verði jeg neyddur til að fara, skal jeg að minsta kosti vera mjög fljótur. En nú skal jeg skila þessu, svo að það verði gerð boð ....

— — — Sjera Ljótur kom fyrst.

Hann hafði þekt Gísla Torfason í mörg ár, en aldrei talað við hann um trúarefni.

Hann vissi, að gamli maðurinn fór aldrei í kirkju og hafði heyrt ýmislegt haft eftir honum, sem benti á að honum væri ekki einasta sama um öll trúarefni, heldur væri jafnvel kalt til þeirra.

Hann bar eins konar kalda virðingu fyrir honum sakir dugnaðar þess, sem hann heyrði alla lofa hann fyrir. En annars var honum jafn hlýtt til hans og allra annara, sem vöktu ekki beinlínis viðbjóð hans — og til þess þurfti mikið.

Hann taldi víst að Gísli Torfason væri illa staddur, fyrst hann ljeti senda eftir sjer. Og frá þeirri stund var Gísli Torfason í augum hans að eins gamall, veikur maður, sem hann átti að aðstoða á erfiðustu stund lífsins.

Hann gekk því að rúminu og brosti vingjarnlegu hluttekningarbrosi og spurði hvernig honum liði, þýðlega, eins og hans var vandi.

— Nú er jeg búinn að vera, svaraði Gísli Torfason dálítið önuglega — það er ekkert við því að gera. Helldurðu að það sje til nokkuð annað líf? — það var það, sem jeg ætlaði að spyrja þig um. Jeg veit vel, að þú átt að trúa því — að það er þinn atvinnuvegur að trúa því. — En trúirðu því í raun og veru, það er það, sem jeg hefði gaman af að vita. Þjer er alveg óhætt að segja mjer eins og er — jeg skal steinþegja um það — meðan jeg get á annað borð nokkuð sagt — og bráðum þagna jeg fyrir fult og alt — og mörgum hefði víst staðið á sama, þó það hefði verið dálítið fyr. — Nú, en trúirðu því þá?

Já, svaraði sjera Ljótur brosandi — því trúi jeg og það veit jeg — og sannfæringin skein út úr andliti hans.

— Hvernig geturðu vitað það? Nú, en mjer er nú sama um það, því þú getur ekki vitað neitt um það. Nú, en þú trúir því samt .... En segðu mjer eitt — helldurðu að drottinn sje mjög strangur maður?

— Jeg held, svaraði sjera Ljótur hæglátlega — að drottinn sje fyrst og fremst náðarinnar guð.

— Náðarinnar guð — át Gísli Torfason eftir honum alt af jafn önugur — þá finst þjer lífið víst líka einhver náðargjöf.

— Já, svaraði sjera Ljótur — það finst mjer.

— Einmitt — en það skil jeg ekki, sagði Gísli Torfason hugsandi — .... Einu sinni þekti jeg fátæka ekkju, sem átti þrjú börn. Einu sinni átti hún í þrjá daga ekkert annað en eitt súrbrauð til þess að lifa á. Brauðinu skifti hún milli barnanna sinna, — þetta var sem sje hún móðir mín — sjálf fjekk hún ekki neitt. Heldurðu nú að h ú n til dæmis hafi álitið lífið náðargjöf.

Sjera Ljótur hugsaði sig dálítið um. Svo spurði hann:

— Manstu ekki eftir neinu, sem hún sagði og sem þú getur ályktað eitthvað af um lífsskoðun hennar.

— Jeg man að eins að hún grjet oft. Við mistum hana svo fjótt, að jeg man ekkert, sem hún sagði ....

— Hún hefur þó áreiðanlega álitið ykkur börnin gæfugjöf lífsins, sagði sjera Ljótur blíðlega.

— Það getur verið, svaraði Gísli Torfason. — — Jú, hún hefur víst gert það. En hvað græðum við á því? — Við erum engu nær fyrir þetta.

Hann hugsaði sig um andartak og hjelt svo áfram smá-slitrótt:

— Jeg hef verið mesti syndari, sjera Ljótur — það er jeg hræddur um. Jeg hef eiginlega aldrei hugsað um neitt nema sjálfan mig — og það er víst stór synd. Og nú er jeg að velta því fyrir mjer, hvort rjettlætið hinu megin sje meira en hjerna — því þá verður mjer víst hegnt harðlega. Hjerna er sem sje mikið fremur gott að skifta við rjettlætið — og skjótast hjá því. — En

það dugir kanske ekki hinumegin. Og þó er eiginlega gremjulegt til þess að hugsa, ef maður skyldi nú eiga að fara að þola óviðeigandi þungar refsingar fyrir það, að koma ekki með alla reikninga sína kvittaða og í reglu.

— Jeg held nú, svaraði sjera Ljótur, að lífið haldi, að sumu leyti, sjálft uppi rjettlætinu. Undir eins í þessu lífi er eflaust rjettlætt fyrir fleiri brot okkar, en við höldum — með iðrun og mótlæti.

— Jeg hef aldrei iðrast, sagði Gísli Torfason og hristi höfuðið. Þegar jeg hef gert einhverja skyssu, sem mjer er víst óhætt að segja án þess að hrósa sjálfum mjer, að sjaldan hefur komið fyrir, þá hefur mjer gramist við sjálfan mig — og það er alt og sumt. Og jeg finn að jeg get ekki iðrast .... Eiginlegt mótlæti hef jeg heldur ekki átt við að stríða. — Jeg er hræddur um að það sje töluverður halli á reikningnum.

Sjera Ljótur virti hann alvarlega fyrir sjer.

— En hefur lífið þá eiginlega orðið þjer til nokkurrar gleði?

— Gleði? — ojá .... gleði .... jeg veit ekki ....

— Já, þarna sjerðu, svaraði sjera Ljótur. Menn, sem hafa góða samvisku eru vanir að gleðjast af ýmsu smávegis — jafnvel mitt í áhyggjunum, af sólskininu — og stjörnunum — og snjónum og vatninu og blómunum — svo fjarska mörgu. Hefur þ ú gert það?

— Nei, svaraði Gísli Torfason önugur — jeg hef aldrei átt við neina smámuni. Og jeg skil ekki þá menn, sem alt af eru að gleðjast af því, sem ekkert er.

— Nú talar þú eins og sá skammsýni maður, sem þú ert, svaraði sjera Ljótur blíðlega alvörugefinn. — En jeg held að þú getir huggað þig við það, að reikningarnir standist nokkurn veginn á. — Reiddu þig að eins á guð —

og reyndu að fá frið í sál þína. Algóður guð lætur eflaust enga skepnu sína glatast.

Eftir nokkra þögn spurði Gísli Torfason:

— Þorirðu að gefa mjer altarissakramentið?

— Já, svaraði sjera Ljótur glaðlega og stóð upp.

— Nei, nei, við skulum láta það bíða ofurlítið, sagði Gísli Torfason og bandaði á móti honum. — Jeg geri boð eftir þjer ef jeg .... Nú, en þakka þjer fyrir að þú komst.

— — — Geir Thorgeir hafði komið meðan sjera Ljótur var inni hjá bankastóranum og beið um stund í stofunni við hliðina, ásamt lækninum og vesalings gömlu, harmlostnu frúnni.

Sjera Ljótur kastaði kveðju á vin sinn og lækninn og fóru þeir báðir inn til sjúklingsins. Hann var kyr hjá gömlu frúnni og reyndi að segja nokkur huggunarorð við hana. En þar sem orð hans virtust árangurslaus kvaddi hann hryggur og fór.

Læknirinn fór inn með Geir Thorgeir til þess eins að líta snöggvast á sjúklinginn. En Gísla Torfasyni virtist eftir ástæðum líða vel og fór læknirinn því fljótt aftur, en bað hann að gæta þess vel að reyna ekki mikið á sig, en Gísli Torfason svaraði því engu nema nöldri.

Geir Thorgeir gat ekki dulið geðshræringu sína og spurði með skjálfandi rödd og tárvotum augum um líðan vinar síns.

— Hvernig mjer líður? — hreytti Gísli Torfason úr sjer. — Jeg held þú vitir það eins vel og jeg, að það fer að verða úti um mig. Hvað á þá þessi skrípaleikur að þýða! — Hefur nokkuð sjerstakt komið fyrir, meðan jeg hef legið?

— Ekkert markvert, svaraði Geir Thorgeir dapur —

honum fundust öll mál og viðburðir daglega lífsins fölna og verða fánýtir hjá þessu eina: að vera hjá vini, sem brátt ætti að yfirgefa þennan hverfulleikans heim.

— Jæja — svaraði Gísli Torfason. — En hver varð þá sýslumaður í Fjarðarsýslu?

— Högni Pjetursson verður það, eftir því sem jeg hef hugsað mjer, svaraði Geir Thorgeir og var ósjálfrátt eins lágróma og áður — hann skildi ekki að vinur sinn gæti verið að hugsa um þess háttar á slíkri stund.

— Nú, það var gott, svaraði Gísli Torfason undrandi. Spurðirðu nokkurn úr flokknum ráða, áður en þú tókst þessa ákvörðun?

— Þú veitst vel, að jeg leita aldrei ráða hjá neinum, svaraði Geir Thorgeir kæruleysislega, eins og til þess að sveigja talið að einhverju öðru. — Sá eini, sem jeg hef minst á málið við, er Úlfur Ljótsson, því jeg vissi að hann þekti Högna Pjetursson, þeir eru skólabræður. Hann var á sama máli og jeg: að í þetta skifti ætti að fara öðru vísi að en vanalega.

— Aha — einmitt já, Úlfur Ljótsson er skynsamur maður — þú verður að gá vel að því að missa hann ekki. — Gísli Torfason horfði hvast á ráðherrann.

Geir Thorgeir brá litum.

— Já, þú ert kanske ekki sammála mjer í þessu, hjelt Gísli Torfason áfram. En þjer er óhætt að trúa mjer. — Hann er dálítill óróaseggur, þessi Úlfur Ljótsson, en það verðum við að þola — og fyrirgefa. Það á að veita honum betri stöðu undir eins og færi gefst. Og ef það færi býðst ekki sem fyrst, þá verðurðu sjálfur að reyna að finna það.

Gísli Torfason hafði aldrei talað í þessum tón við mág sinn fyr.

Geir Thorgeir varð líka dálítið undrandi. En það, að mágur hans stóð á þröskuldi dauðans, gaf honum, eftir skoðun ráðherrans nokkurn rjett til þess að tala öðru vísi en ef þeir hefðu báðir svo að segja staðið jöfnum fæti. Hann sá því ekki ástæðu til þess að amast neitt við því að rödd mágs síns væri nokkuð skipandi og fræðandi.

— Það verður víst því miður ekki hægt, svaraði hann hæglátlega. — Úlfur Ljótsson er ekki lengur í stjórnarráðinu.

— Hvað á nú þetta að þýða? Rakstu hann? spurði Gísli Torfason fljótt.

— Nei, hann sagði sjálfur upp.

— Hvernig víkur því við? spurði Gísli Torfason og horfði stöðugt á mág sinn.

— Hann sagðist vera að gera eitthvað, sem hann þyrfti allan sinn tíma til, svaraði Geir Thorgeir.

— Nú-ú? — — — Hefur hann verið á þjóri aftur nýlega?

— Já, á dögunum gerði hann uppþot og ryskingar á miðri götu. Það var að því komið, að hann yrði tekinn fastur.

— Já, einmitt .... Ætlaðirðu að segja honum upp af þessu?

— Já, jeg hefði víst ekki hjá því komist — ef ekki hefði viljað svo heppilega til, að hann kom og bað um lausn.

— Nú, hann hefur þá að eins orðið fyrri til, sagði Gísli Torfason hranalega. — Já, jeg hef alt af sjeð að það var eitthvað í strákinn spunnið. — Þú verður að reyna að jafna þetta aftur.

— Hvernig áttu við? spurði Geir Thorgeir móðgaður

— nú fór honum að finnast þessi skipunarrödd mágssíns ganga fulllangt.

— Já, jeg skal hugsa um það. — Jeg þarf að tala um dálítið annað við þig. — Leiðindamál .... Þú manst víst, að hjer á áruum fjekstu mjer umráð yfir þeim eignum, sem þú lagðir inn í bankann, þegar hann var stofnaður, í skuldabrjefum og öðrum verðbrjefum. .... Jeg hef verið óheppinn.

Geir Thorgeir gat engu svarað, sat að eins og starði undrunar- og efaaugum á mág sinn.

— Það er farið, — hver eyrir, svaraði Gísli Torfason hranalega, honum gramdist augnaráð mágs síns. — Síðustu árin hef jeg greitt þjer vexti af höfuðstól, sem þú áttir ekki. — — Jeg ætlaði að gera eitthvað úr þessum fáu krónum, en það mistókst.

— Fáu krónum — yfir hundrað þúsund krónum — Geir Thorgeir steytti á orðunum — hann varð alt í einu svo kverkaþur.

— Jájá, hundrað þúsund — en hvað er það. — Jeg hjelt, að mjer tækist að margfalda það ....

— Það var aleiga mín, sagði Geir Thorgeir hálf ósjálfrátt. Eiginlega var hann enn þá ekki farinn að skilja, að nokkuð hefði komið fyrir svo heimskulegt og ótrúlegt, að hann væri alt í einu orðinn fátæklingur.

— Jájá, jeg veit það, svaraði Gísli Torfason hranalega. Það fór illa. Það er bölvað alt saman. En ef þú ferð skynsamlega að, geturðu komið því svo fyrir, að þú þurfir ekki að rifa seglin neitt sjerstaklega. Þú færð sennilega eftirlaun, þegar þú einhvern tíma lætur af embætti. Og svo geturðu eflaust krækt í einhvern smábitling, — þú fyrirgefur, að jeg tala svona blátt áfram — jeg hef ekki tíma til þess að vega orðin. Þú getur til dæmis

orðið bankastjóri. Hjer eru menn í þeim stöðum, sem hafa enn þá minna fjármálavit en þú. Svo þig þarf ekkert að skorta. En — það var þetta, sem jeg ætlaði að biðja þig um .... Gætirðu ekki dregið yfir það, hvernig í rauninni liggur í því með þessa peninga. Það er eflaust hægt, með dálítilli lægni og góðvild af þinni hendi. Og jeg bið þig um það.

Þó Gísli Torfason talaði alt af jafn hranalega, var þó einhver gremjulegur vandræðablær á fasi hans og rödd, þegar hann sagði þessi síðustu orð, og augnaráðið var flóttalegt.

— Og jafnvel þó þú þurfir ekki að taka neitt tillit til mín, þá finst mjer að þú ættir að gera það vegna konunnar þinnar. Viltu lofa mjer því?

— Já, svaraði Geir Thorgeir eins ósjálfrátt og áður. Alt hringsnerist fyrir honum. Hann gat engri skýrri hugsun haldið.

Hann hafði einkennilega tilfinningu þess, að hann hefði á einhvern hátt gerst brotlegur gegn Gísla Torfasyni og það væri göfugmannlega gert af máginum að fyrirgefa honum.

— Já, þakka þjer fyrir, svaraði Gísli Torfason málmýkri — það var nú þetta ....

Hann horfði hugsandi á mág sinn um stund.

— Það er miklu verra fyrir þig, að nú missirðu mig, sagði hann loksins — og var ekki laust við að hann hrærðist nokkuð sjálfs sín vegna. — Það verður erfitt fyrir þig að eiga í og gera út um öll þessi vandamál þegar jeg er farinn. Jeg er ekki viss um að þjer sje full ljóst, hvað þú átt mjer mikið að þakka — í öll þessi ár.

— Jú, þú hefur verið mjer góður vinur, svaraði Geir Thorgeir blælaust, — en í sömu svipan var eins og hon-

um yrði ljóst að eiginlega hefði mágur sinn svikið sig. Og þó hann sæi enn þá ekki fyrir endann á því, sem skeð hafði, og hefði ekki ljósa hugmynd um hina svívirðilegu framkomu mágs síns, tók þó hjarta hans alt í einu að slá ákaft og reiðin og gremjan óx smásaman í hug hans.

— Já, það veit guð að jeg hef verið, svaraði Gísli Torfason ákveðinn og með einhverri kergju, til þess að ákveða einu sinni fyrir alt, hvað mágur hans ætti honum mikið að þakka — það hefði aldrei orðið mikið úr þjer, ef þú hefðir ekki notið mín við. Það finst mjer að þú hafir gott af að vita einu sinni fyrr alt, — nú, þegar það er saklaust að þú fáir að vita það.

— Við hvað áttu eiginlega? svaraði Geir Thorgeir lágróma og barðist við að bæla niður reiði sína.

— Það þarf ekki að fjúka svona í þig, svaraði Gísli Torfason. — Jeg skal ekki segja meira. Þú sjerð það líka best sjálfur, þegar jeg er farinn .... og þú getur ekki lengur leitað til mín.

— Því talarðu svona við mig? Mjer er næst að halda að þú sjert ekki alveg með sjálfum þjer, maður — gremjan urgaði gegnum hina lágu rödd Geirs Thorgeirs. — Það er næstum eins og þú teljir þjer það til tekna, að hafa sóað fje mínu gálauslega.

— Nú, nú, þaggaði Gísli Torfason niður í honum — nú nú Geir, segðu ekki meira .... sjálfs þín vegna. Ef jeg þekki þig rjett, iðrar þig þess seinna, að hafa talað ónotalega við deyjandi mann — jeg sleppi með vilja að segja vin, til þess að særa þig ekki. Og í rauninni hefur vináttan verið fremur grunn frá minni hálfu. Mjer hefur aldrei þótt verulega vænt um nokkurn mann. Jeg er víst einhvern veginn öðru vísi gerður en aðrir menn. Því þið

eruð öll fleytifull af vináttu og væntumþykju. Jeg hef jafnvel ekki getað haldið áfram að láta mjer þykja vænt um konuna mína, og elskaði jeg hana þó hjer áður fyr. Þessi óþreytandi umhyggja hennar og ástúð hefur stundúm ætlað að gera mig vitlausan. Þegar hún var vingjarnlegust við mig, fanst mjer jeg stundum jafnvel hata hana. Ef til vill hefði það orðið öðru vísi ef við hefðum átt börn, — já, ef til vill hefði alt orðið öðru vísi þá. Þó hef jeg ekki mikla trú á því. Jeg hefði víst orðið samur og jafn. — Nú, Geir, jeg sagðist áðan ætla að hugsa um, hvernig þú ættir að fara að jafna þetta aftur við Úlf Ljótsson. Nú hef jeg fundið það. Láttu flokkinn styðja hann til þings í gamla kjördæminu mínu. Þá hefur hann fengið uppreisn. Hann hefur það, ef þið farið skynsamlega að. Og hann kemur þjer að góðu haldi, ef þú ferð rjett að honum. Hann hefur munninn svo fyrir neðan nefið, pilturinn sá, að hann getur látið síga hjartað í þeim mörgum. Og fólki mun áreiðanlega geðjast að honum ef honum er haldið frá þessu. Og það er vel hægt, ef eitthvað er reynt til þess. Hann er svo sem ekki ótækur drykkjumaður — að eins óróaseggur. Og jeg held að þið gætuð skilið hvor annan og unnið vel saman.

— Þjer er þó ekki alvara með það, að flokkurinn eigi að styðja mann, sem af mörgum og alt of gildum ástæðum er orðinn að umtali, — já, beinlínis alræmdur?

— Þvaður og vitleysa! Hann hefur að eins verið dálítið ógætinn, það er alt og sumt. Í málum, þar sem aðrir eru vanir að fara eftir þjófseðli sínu — eða kanske heykjast af ragmensku — þar hefur hann flanað áfram. Það er æska — eða fjötrað fjör, eða hvað sem þú vilt nú kalla það — mjer er rjett sama, hverju nafni það nefnist. — En fyrst þjer finst þetta nú svona erfitt, þá skal

jeg hjálpa þjer enn þá einu sinni. Lofaðu mjer að tala við náungann.

Geir Thorgeir hristi höfuðið óánægjulega. Hann reyndi líka að malda í móinn. En alt var árangurslaust, Gísli Torfason vildi hafa sitt mál fram — og hafði það.

Úlfur var sóttur — — —

— Ætlarðu nú ekki bráðum að fara að hætta þessum barnabrekum þínum og haga þjer eins og fullorðinn maður? spurði Gísli Torfason ólundarlega, þegar hann samkvæmt ótvíræðri ósk sinni var orðinn einn með Úlfi. — Mjer var sagt að þú hafir nýlega gert uppþot og götuóspektir. Þú ferð nú að verða of gamall fyrir þess háttar barnaskap.

Úlfur sat feiminn fyrir framan rúmið og leið illa. Honum fanst þetta alt svo heimskulegt. Einstöku sinnum gaut hann augunum allra snöggvast á sterka, föla andlitið, sem nú þegar bar merki dauðans, og gráu, slútandi, stóru augabrýrnar, hörkulega munninn og kuldalega augnaráðið.

Hann var þessu ekki vaxinn og fann það sjálfur, sjer til sárrar gremju. Hann gat ekki um annað hugsað en það, að bráðum fjaraði lífið út úr þessum beinabera líkama .... og svo tæki rotnunin við. Eftir nokkrar klukkustundir væri þessi maður ekki annað en hræ, sem leystist upp. Hann fann ekki til neinnar sjerstakrar meðaumkunar með honum. Ógleðin við það að standa svona gagnvart dauðanum var af miklu persónulegri ástæðum .... Þetta var endir alls lífs. Einhvern tíma kæmist hann sjálfur í þetta ástand.

Þar að auki var hann ruglaður og órólegur yfir því, að hafa verið kvaddur til þessa manns á slíkri stund. Hann hugsaði að Gísli gamli Torfason væri annaðhvort vitstola eða hefði óráð — eða kanske hvorttveggja. Og

samt sem áður var það sem hann sagði að sumu leyti skynsamlegt. Hann skildi bara ekki hvað honum kom það við, þó hann hefði lent í ryskingum, og því síður, að hann væri að skifta sjer af því.

—Nú, jeg bjóst núvarla við að þú værir svo skynsamur, að hafa vit á að skammast þín, hjelt Gísli Torfason áfram með skrítnum viðurkenningarblæ á önugri röddinni, af því hann misskildi þögn Úlfs. — Það er altjend góðs viti. En best væri að þú legðir alla þess konar ljettúð á hilluna. Því að þá þyrftirðu ekki að skammast þín fyrir hana. Svona svall á ekki við þá stöðu að vera löggjafi og leiðtogi, bætti hann í gamni við. — Já, þú þarft ekki að glápa svona, eins og þú ætlir að jeta mig. Jeg er ekki vitlaus. Jeg hef ákveðið að þú átt að erfa kjördæmið eftir mig. Jeg vona, að þú kunnir að meta heiðurinn og jafnframt erfiðleikana, sem með fylgja. Jeg get ekki veitt þjer annan stuðning en þann, sem felst í skipun minni, hahaha — hæðnishlátur hans varð að hóstahviðu.

— Þú verður sjálfur að sjá um það, sem eftir er, sagði hann þreytulega, þegar hviðunni var lokið.

Hann ljet höfuðið hníga magnlaust niður á koddann um stund og lokaði augunum.

Þegar hann opnaði augun aftur varð honum litið í augu Úlfs. Þau voru undrandi og skilningslaus og hálf óttafull og þóttaleg.

— Nú, þetta eru svei mjer þakkir, muldraði Gísli Torfason í nöldrunarróm eins og áður. — Láttu hin koma og vertu kyr sjálfur.

Úlfur stóð upp, viljalaust eins og í draumi og með þeirri lausnartilfinningu sem maður hefur, þegar maður losnar við að vera einn hjá vitstola manni.

Frúin, læknirinn, Geir Thorgeir og kona hans, sem nú var einnig komin þangað, gengu gætilega inn, þegar Úlfur opnaði dyrnar.

Frú Thorgeir virti Úlf þannig fyrir sjer, að enginn efi var á, hvert álit hún hefði á því, að hann væri þar viðstaddur.

— Jeg vildi að eins, tók Gísli Torfason til máls og honum varð alt í einu erfitt um mál, en var þó hryssingslegur — jeg vildi að eins að þið heyrðuð það öll, að það er vilji minn, að þessi ungi maður þarna, Úlfur Ljótsson, erfi þingsæti það, sem losnar við dauða minn.

Þau hlustuðu á hann eins og þegar látið er eftir barni eða farið eftir dutlungum sjúks manns.

Þegar hann hafði sagt þetta, lá hann dálítið stynjandi. Þau gengu öll að rúminu nema Úlfur, hann ætlaði að fara, en stóð samt kyr við dyrnar.

— Nú — þá fer víst að síga að því, sagði Gísli Torfason og var enn þyngra um mál en áður. — Vertu sæl, Guðrún — hann skimaði um eftir konu sinni — lofaðu mjer að taka í höndina á þjer .... Þakka þjer fyrir að þú hefur verið góð við mig.

Gamla, hrukkótta, hruma frúin greip hönd hans og kysti, svo fjell hún á knje við rúmstokkinn og grjet og kysti hönd hans í sífellu.

— Svona, svona, sagði Gísli Torfason önuglega. Veri þið sæl, hin líka .... og fari þið svo — fari þið öll saman, þú líka, Guðrún .... Jeg vil fá að deyja í friði.

Kona hans hlýddi honum ósjálfrátt eins og vanalega. En af því Gísla gamla Torfasyni fanst þau fara hægt, brýndi hann röddina:

— Burt! burt! segi jeg. Hann hálf sat uppi í rúminu og reyndi að banda þeim burtu með magnþrota hendinni.

Þau fóru líka. En þau ljetu hurðina standa í hálfa gátt, til þess að geta sjeð hvernig honum liði og hjálpað, þegar á þyrfti að halda.

En nú var Gísla Torfasyni nóg boðið ....

Hann blótaði svo þau heyrðu öll og reyndi að fara út úr rúminu.

Þegar þau sáu að hann ætlaði sjálfur á fætur til þess að loka dyrunum, ljetu þau eftir honum. Dyrunum var lokað.

En í sama bili heyrðist skellur innan úr herberginu.

Þau flýttu sjer inn og fundu bankastjórann gamla liggjandi á gólfinu fyrir framan rúmið.

Blóðfroða freyddi úr munni hans. Undarlegt korr, að engu leyti mannlegt, heyrðist úr hálsi hans og fokvonskusvipur var í hálfbrostnum augunum.

Svona dó Gísli gamli Torfason.

## X.

Þegar Úlfur hafði hjálpað lækninum og Geir Thorgeir til þess að leggja hinn dána líkama Gísla Torfasonar upp í rúmið, skautst hann burtu svo lítið bar á og kvaddi engan.

Hann þreif hatt sinn í forstofunni og hljóp niður steinriðið, gegnum litla garðinn og út á götuna, eins og einhver elti hann.

Hann fór hendinni ótt og eirðarlaust, eins og hann væri að bursta eitthvað af sjer, um blettinn framan á jakka sínum, þar sem mögru, stirðu fæturnir dauða mannsins komu við hann, þegar hann tók hann upp.

Hann sá alt af í huga sjer þá sjón, þegar gamli maðurinn lá deyjandi fyrir framan rúmið og líkami hans engdist í síðustu krampateygjunum.

Og korrið hljómaði enn þá í eyrum hans, þegar hann fór fljótum flóttaskrefum ofan götuna.

Alt í einu stansaði hann, til þess að hlusta á eitthvað, sem honum fanst einnig hljóma inni í höfði sjer, en gat ekki skilið fyllilega. Hann stóð kyr og hlustaði þolinmóður á þessa innri rödd, ef ske kynni að hún hrekti korrið úr meðvitund hans.

Hljóðið varð æ skýrara. Og alt í einu komu brot úr greftrunarsálmum upp í huga hans .... Hann flýtti sjer aftur af stað, því það var engin bót í þessu. Greftrunarsálmarnir hljómuðu í eyrum hans, sungnir jarmandi, grátklökkum, ramfölskum kerlingaröddum. Þessar jarmandi raddir og hugmyndin um stórar, votar tungur og opna, tannlausa munna, brendust inn í meðvitund hans einu sinni þegar hann af hendingu var viðstaddur jarðarför og vöktu hjá honum óbugandi viðbjóð á sálmum, sem honum fundust fallegir áður. En verst var þó, að frá því í þetta skifti mátti hann aldrei heyra andláts getið, svo að þessi minning vaknaði ekki hjá honum.

Í hvert skifti, sem hugsanir þessar fengu vald á honum, var eins og þær neyddu hann til þess nauðugan viljugan að vera við jarðarför. Eins varð nú. Honum fanst hann horfa á, að mannslíki í svörtum kassa væri sökt ofan í moldina við jarmandi sálmasöng. Hann fann það svo greinilega, að kaldur svitinn spratt fram á enni hans. Og alt í einu kom það aftur, þetta ægilega korr, þessi hryllilega skrípamynd af ljettum hlátri lífsins — vitfirringshlátur, þrunginn allri ógn og örvænting lífsins —

og það var eins og hann kæmi úr svörtu kistunni þarna niðri í dimri gröfinni. ....

Úlfur hraðaði sjer áfram.

— Jeg verð vitlaus, hugsaði hann, verð vitlaus, ef jeg næ ekki í eitthvað til þess að drekka ....

Og hugsunarlaust lagði hann leið sína eftir þeim götum, er lágu að veitingahúsinu. Hann var of ruglaður til þess að veita því athygli, að hann átti ekkert til þess að drekka, þar frekar en annarstaðar.

Skamt frá veitingahúsinu var hann stöðvaður, því maður kom á móti honum og sló á öxl hans:

— Hæ, þarna lagsi — það er nú aldrei gangur á þjer!

Úlfur hrökk við og leit ruglaður í kringum sig.

— Nú, það ert þú, sagði hann þegar hann sá framan í breiða, brosandi barnsandlitið á skógfræðingnum. Hann heilsaði honum mjög hjartanlega og fanst sjer ljetta mjög. Það er svo gott að geta þrýst hönd lifandi manns, flaug honum í hug og hann hjelt áfram að þrýsta hönd skógfræðingsins.

— Jeg kem einmitt þarna ofan að, sagði Arngrímur Ávaldason og benti á veitingahúsið. — Jeg skautst þangað til þess að gá að hvort þú værir heima. Sveinn Ólafsson er farinn niður að höfn. Skepnan er komin!

— Skepnan? át Úlfur eftir og röddin skalf og var utan við sig og másandi — hann gat varla talað og varð að berjast við að dylja skjálftann, sem hristi allan líkama hans.

— Já, já, — Arngrímur Ávaldason nefndi eitt millilandaskipið. Komdu nú. Við fáum kampavínið, sem þú vanst á dögunum. Sveinki borgar — jeg er blankur eins og vanalega.

Hann hló glaðlega.

Úlfur stæltist og hló líka.

— Þetta var hepni, sagði hann og tennur hans skulfu næstum. Jeg þarf einmitt hressilega neðan í því núna.

Þeir flýttu sjer ofan götuna, röbbuðu glaðlega og voru í besta skapi út af líkunum til þess að fá dropann. Ölvunarþörf Úlfs varð alt í einu að beinlínis líkamlegum þorsta. Hann greikkaði sporið, því honum fanst hann þurfa að komast undan einhverju sem elti sig.

Í Pósthússtræti lentu þeir beint í flasið á Högna Pjeturssyni og heilsuðu honum.

— Nei, það er satt — óska þjer til hamingju! sagði Úlfur glaðlega.

— Við hvað áttu? spurði Högni Pjetursson og dró hann dálítið til hliðar.

— Það er satt, þú veitst það varla enn þá. Þú færð sýsluna.

— Hvað segirðu? Hvernig veitstu það?

— Eftir bestu heimildum, eins og sagt er — frá Geir Thorgeir sjálfum.

— Hvenær talaðirðu við hann? spurði Högni Pjetursson ákafur.

Úlfur nefndi tímann.

— Ertu viss um að það hafi ekki verið fyr?

— Áreiðanlegt. Jeg fór beint heim til morgunverðar frá honum. En af hverju spyrðu?

— Jeg hef líka talað við ráðherrann í dag, svaraði Högni Pjetursson hugsandi.

— Og fanst þjer eitthvað annað? spurði Úlfur forvitnislega.

— Já, dálítið annað, já, svaraði sýslumaðurinn utan við sig. — Nú, en þakka þjer fyrir — mjer þótti vænt um þetta. Annars var jeg, þjer að segja, að hugsa um

að segja af mjer og setjast að sem lögmaður hjerna í þessari rigningar-gósen ykkar. Reyndar leitst mjer ekki meira en svo á það. En jeg er orðinn þreyttur á að hýrast þarna norður frá. — Mjer sýnist flaggað í hálfa stöng á þinghúsinu. Hver ætli sje dáinn?

— Gísli gamli Torfason, svaraði Úlfur og flýtti sjer að kveðja.

Högni Pjetursson gekk hugsandi upp í bæ. Var Geir Thorgeir ekki sá maður, sem hann hafði haldið til þessa? Var lyndiseinkunn hans ekki eins lýtalaus og hann hafði alt af álitið? Var hann hræddur um að hann ljeti stjórnmálasannfæringu sína velta á því, hvort hann fengi sýsluna eða ekki? .... En sýsluna fjekk hann. Og vakandi auga skyldi hann hafa á blessuðum ráðherranum.

Úlfur og skógfræðingurinn ruddust gegnum mannþröngina sem þegar hafði safnast saman á hálfgerðu bryggjunni og til Sveins Ólafssonar, sem valið hafði sjer stað einmitt þar, sem hann sá fyrir að landgöngustiginn yrði settur niður.

Sveinn Ólafsson var í besta skapi. Hann hafði alveg gleymt að síðast skildi hann við Úlf í vonsku.

— Það var gott að þú komst, sagði hann glaður við Úlf og svo lækkaði hann röddina: — við skulum gera okkur glaðan dag. Jeg sá áðan Ara Sigurðsson frá Steinfirði úti á skipi og kom undir eins á þráðlausu sambandi. Hann sýndist kunna kerfið, því hann kinkaði kolli og hvarf. Hann hefur farið til þess að sjá um pöntunina og við þurfum ekki annað en sækja hana í káetu hans. En hvernig í fjandanum komum við þeim í land? Því það er ekki svo sem að þetta verði ein einasta flaska, sagði hann hlæjandi. — Nú, við sjáum nú þegar þar að kemur.

— Hvaða kerfi er þetta, sem þú talar um? spurði Arngrímur Ávaldason forvitnislega.

—Hahahaha! Sveinn Ólafsson skellihló! Svo sagði hann lágt: — Hattinn hart beint upp í loftið — það merkir eina flösku, — jeg ljet hann fara þrisvar, hahahaha, sagði hann hlæjandi, og sagði svo aftur lágt: — Hattinn hátíðlega af höfðinu með smáveifingum — það merkir: dálítið af hverri tegund — hvað mikið fer eftir því, hvað veifingarnar eru margar — og jeg veifaði og veifaði, hahahaha!

Loksins komust þeir út á skip.

Úlfur og Sveinn heilsuðu Ara Sigurðssyni kunnuglega og þeir Arngrímur Ávaldason, sem ekki höfðu sjest áður, voru kyntir. Ari var lítill maður, bústinn, ljóshærður og yfirskeggið mikið og ljóst, augun kringlótt og einfeldnisleg.

Þeir stóðu kyrrir um stund og töluðu saman, uns Sveinn Ólafsson sá sjer færi á að hvísla að honum:

— Skildirðu mig áðan?

— Já, jeg er nú eldri en tvævetur, svaraði Ari Sigurðsson hreykinn, sneri sjer á hæli og benti þeim að koma á eftir sjer.

Þeir brutu sjer braut gegnum fólksfjöldann, sem þegar fylti þilfarið og var þjappað saman í göngunum niður á fyrsta farrými.

Þegar gestirnir þrír voru komnir inn í káetu Ara Sigurðssonar, læsti hann dyrunum vandlega.

Svo lyfti hann ábreiðunni af einu rúminu og sást þá tvísett flöskuröð.

— Guð minn góður! hrópaði Sveinn Ólafsson fagnandi — en það var undir eins þaggað niður í honum.

— Já, hef jeg kanske ekki staðið vel í stöðu minni?

spurði Ari Sigurðsson og horfði á þá hvern á fætur öðrum einfeldnislegum, skrítnum alvöruaugum og huldi flöskurnar aftur, — ef eitthvað kynni fyrir að koma.

— Þakka þjer æfinlega fyrir, hvíslaði Sveinn Ólafsson. — Þú ættir meira að segja skilið, að jeg kysti þig. En segðu mjer eitt, þú hefur víst ekki tösku, eða þó það væri ekki nema kassi, sem þú getur lánað okkur? Því það tæki nokkra daga, ef við ættum að koma því öllu í land í vösum okkar, hahaha!

— Þey, þey, þaggaði Ari Sigurðsson niður í honum. — Nei, ertu vitlaus, maður! Heldurðu að jeg komi með tómar töskur frá kóngsins Kaupinhöfn. En vertu rólegur — hann hugsaði sig um — jeg held áfram með skipinu. Þá læt jeg dótið vitanlega vera hjerna kyrt, nema rjett það sem jeg þarf þessa fáu daga í veitingahúsinu.

Hann tók alt í einu að tæma leðurtösku, en í henni voru föt, nærföt og ýmislegt smádót, og kastaði hann því hingað og þangað í eitt rúmið.

— Þú getur fengið þessa — sagði hann svo og rjetti Sveini Ólafssyni töskuna. Við getum fylgst að í land og það getur litið út eins og annar ykkar beri hana fyrir mig. — Ha — hinkraðu við — sagði hann og stansaði Svein Ólafsson, sem ætlaði undir eins að fara að setja flöskurnar í töskuna — jeg má þó líklega heilsa ykkur.

Hann tók kampavínsflösku, sem falin var í einu rúmshorninu, og rjetti Sveini Ólafssyni, að hann drægi úr henni tappann.

— En þú mátt svei mjer ekki láta smella í honum, sagði hann og fór að leita að glösum.

— Hver fjandinn — nú hefur hún gleymt að láta mig hafa glös.

Hann hringdi.

Rjett á eftir var barið að dyrum og þjónustustúlkan rak höfuðið inn úr gættinni.

— Hr. Sigurðsson hringdi, sagði hún og brosti dálítið íbyggin.

— Já jómfrú, get jeg fengið fjögur glös?

Glösin komu.

Og kampavíninu var helt á.

— Skál allir — sagði Ari Sigurðsson.

Skál — og velkominn heim aftur — þeir klingdu við hann.

Úlfur sötraði úr glasinu eins og maður, sem verið hefur að örmagnast af þorsta.

— Sjáum Úlfinn, sagði Ari Sigurðsson ánægður og fór að dæmi hans — þetta líkar mjer — hann hringdi. En fyrst þið komið svona blessunarlega þyrstir, þá er ein flaska ekki neitt.

Þegar stúlkan kom bað hann um eina flösku í viðbót og eitt glas.

Hún kom með það sem um var beðið, kom snöggvast innfyrir, fjekk glas sitt fylt — teygaði það eins og hinir, þakkaði og fór.

— Þú ert eitthvað svo þreytulegur, Ari, sagði Úlfur og fann vellíðanina seitla um sig þegar þeir drukku annað glasið af kampavíninu — úr ölglösum.

— Er það nokkuð skrítið? Ari leit á hann einfeldnislegu alvöruaugunum — þetta hefur verið erfið ferð. Maður verður svei mjer að gera það hressilega þá sjaldan að maður kemur í höfuðstað ríkisins.

Hinir hlógu — sagt var að Ari kæmi þangað að minsta kosti ársfjórðungslega.

— Hvað varstu lengi í Kaupmannahöfn í þetta skiftið? spurði Úlfur.

— Ekki nema þrjár vikur, svaraði Ari eins einlægnislega og áður — jeg komst ekki yfir helminginn af því sem jeg þurfti að gera.

— Vegna alls þess, sem þú gerðir af því, sem þú þurftir ekki að gera — hahahaha — skellihló Sveinn Ólafsson og skildi hvernig í öllu lá.

— Jeg held þú ættir ekki að tala margt um það, sagði Ari vingjarnlega alvörugefinn eins og vanalega. Jeg er þó ekki á hverju kvöldi á Thomas S. þegar jeg er þar.

Það er jeg heldur ekki, mótmælti Sveinn Ólafsson hlæjandi. Jeg er svei mjer vanur að koma í Kistuna líka — hahahaha.

— Jeg þarf að sigla aftur eftir nokkra mánuði, sagði Ari eins blátt áfram og áður — verðurðu með?

— Með þjer? sagði Sveinn Ólafsson og hló. Svei mjer ef jeg þori það. Við kæmum aldrei lifandi úr því ferðalagi.

Ari Sigurðsson helti á því sem eftir var af kampavíninu.

— Eigum við svo ekki að drekkka út og reyna að sleppa í land, sagði hann. — Jeg er nú samt feginn að vera kominn heim aftur. Skál gamla landsins.

— Þar sem lindirnar vella — jafnvel þó reynt sje að stansa þær — bætti Úlfur napurlega við.

Þeir hlógu og drukku í botn.

Svo tróðu þeir flöskunum í tómu töskuna og fengu hana svo Arngrími Ávaldasyni „ af því að hann væri svo sakleysislegur“.

Ari Sigurðsson tók dálítið til í káetunni og læsti töskunni, sem hann ætlaði með í land.

— Þá förum við?

— Bíddu ögn, sagði Sveinn Ólafsson og tók upp vasabók sína — þú átt að fá eitthvað af peningum.

— Það getum við gert upp, þegar við komum í land. Komdu nú.

— Jeg læt þig vita það, sagði Úlfur við Svein Ólafsson, að jeg áskil mjer tvær whisky-flöskur og einar þrjár — fjórar flöskur af hinu góðgætinu, handa sjálfum mjer einum.

— Góðgæti, segðu ekki þetta, maður, sagði Sveinn Ólafsson hlæjandi.

— Og það borga jeg sjálfur, hjelt Úlfur áfram.

— Nú jæja, eins og þú vilt, svaraði Sveinn Ólafsson mjúklega — við erum ekki smásmugulegir.

Þeir sluppu vandræðalaust með töskuna í land og skiftust á um að bera hana upp til veitingahússins; sakir þess, sem í henni var, vildu þeir ekki fá burðarmann.

Ari Sigurðsson fjekk herbergi á öðru lofti, það þriðja í röðinni hægra megin við herbergi Úlfs.

Þegar hann hafði komið tösku sinni fyrir þar inni fór hann inn til Úlfs — honum var boðið að vera með í að stúta kampavínsflöskunum þremur. Þeir sátu og ræddu um alla heima og geima. Þegar talið hnje að veðmálinu á dögunum og berserksgangi Úlfs — hló Úlfur líka en varð þó ekki um. Ari vildi ólmur heyra vísurnar um Aðalbjörgu og sungu þeir þær þríradda. Svo fjekk hann að heyra alla söguna um agent Jensen — Sveinn Ólafsson var kominn í það skap, að ósvífni agent Jensens fór aftur að verða all-stórskorin í huga hans.

— Nú, hefurðu þá barið á honum? spurði Ari einfeldnislega.

— Ekki enn þá, svaraði Sveinn Ólafsson myrkur í skapi. En hann skal eiga mig á fæti. ....

Þegar kampavínið þraut, tók Úlfur tvær whiskyflöskur og dálítið af konjaki og portvíni af hinum ríkulegu birgðum.

Svo borgaði hann það, sem hann hafði fengið, og Sveinn Ólafsson notaði tækifærið til þess einnig að gera upp viðskifti sín við Ara.

— Finst ykkur ekki kampavín leiðinlegt á bragðið, er til lengdar lætur, spurði Ari barnalega eins og vant var. Komi þið nú heldur inn til mín og fáið ykkur einn ærlegan strammara.

— Já, en jeg held nú rjett að eins að jeg þurfi fyrst að koma flöskunum mínum undir þak, hahaha—sagði Sveinn Ólafsson og hló. Kemurðu með Arngrímur? Má jeg lána töskuna á meðan?

Ekkert var því til fyrirstöðu. Skógfræðingurinn og Sveinn Ólafsson fóru og lofuðu að koma bráðum aftur.

Úlfur fór með Ara inn í herbergi hans til þess að fá „einn ærlegan strammara“.

— — —

Um sólarupprás daginn eftir kom Úlfur gangandi einsamall eftir mannlausum götunum.

Hann kom frá Sveini Ólafssyni og ætlaði til veitingahússins.

Honum var dálítið ilt í höfðinu eftir nætursvallið, en annars var hann alveg með sjálfum sjer.

Hann hugsaði um hina, sem lægju og svæfu úr sjer ölvímuna, og hann þráði það eitt að komast í rúmið, loka augunum, og losna frá þessu — losna frá þessu öllu — gleyma þessu öllu saman — þó ekki væri nema rjett sem snöggvast. Sá ætti gott, sem gæti lagst til svefns og vaknað aldrei aftur ....

Hann sá afskaplega skýrt, hvað nætursvallið var ljótt.

Já, í huga sjer gerði hann of mikið úr því, gerði það óþrotlega ljótt. Það var beinlínis ekki mönnum sæmandi; — maður, sem tók þátt í slíku, var ekki lengur maður — hann var skepna — skepna.

Fyrst höfðu þeir setið inni hjá Ara til klukkan tólf. Undir eins þá var Ari fallinn í valinn, þreyttur eftir ferðina, og þeir skildu við hann hrjótandi á legubekknum og breiddu ofan á hann yfirsængina úr rúminu.

Þeir fóru beint heim til Sveins Ólafssonar og drukku meira. Hann blygðaðist sín, þegar hann hugsaði um hvernig umhorfs hefði verið þegar hann fór, vindla- og vindlingastubbar á rúi um stúi um gólf og borð, öskublettir á öllum húsgögnum, oltin og brotin glös, vínslettur á borðplötunni, Arngrímur Ávaldason hangandi útúrdrukkinn í hægindastól og pollur af megnri spýju á gólfinu fyrir framan hann og Sveinn Ólafsson sat í legubekknum, hengdi sig utan í Arngrím og sárbað hann um að fara ekki, grjet og veinaði yfir unnustumissinum — alt af sama þvælan, nákvæmlega sömu orðin upp aftur og aftur. Hann komst ekki burtu fyr en Sveinn Ólafsson sofnaði loksins, grátandi og hóstandi.

En þetta var þó ekki verst. Ljótast var, að hann hafði setið og hlustað á allar þær saurugu sögur, sem þessir druknu menn báru á borð alla nóttina uns þeir urðu of druknir til þess. Ari byrjaði á því, einfeldnislega eins og vanalega, að segja nokkur æfintýri frá Kaupmannahafnarveru sinni og síðan vildu þeir ekki um annað tala. Og þrátt fyrir þann viðbjóð, sem Úlfur hafði á því, varð hann að sitja þarna og kyngja þessum sögum og þvaðri tímunum saman, — hann hafði hvorki kjark nje þrótt til þess að standa upp og fara. Dauðastríð Gísla Torfasonar — viðbjóðslegt og hræðilegt — leið honum aldrei

úr minni — það stoðaði ekkert, hvað mikið sem hann drakk — það vildi ekki verka á hann í nótt — og hann þ o r ð i ekki að vera einsamall.

Hlátur þeirra hjelt áfram að hljóma í eyrum hans, meðan hann gekk ofan götuna í morgunkyrðinni og hann gat ekki að því gert, að hann hugsaði sjer alt af þessar sömu raddir korrandi í dauðanum — hann g a t ekki losað sig við þá hugsun.

Honum fanst hann aldrei fyr hafa sjeð eins skýrt, hve lífið var einskisnýtt, hve lífið var innantómt, hve vesöld þess var ótakmörkuð og örvænting þess endalaus.

Hjegómi! — hjegómi! Það var eins og grafarklukkur klingdu í sál hans. Ekkert nema hjegómi! Ekkert nema svik .... Stundum gyltur hjegómi — glæsileg svik — en þó e k k e r t annað en hjegómi, e k k e r t annað en svik! ....

Í þessum hugsunum komst hann til veitingahússins. Hann henti sjer í rúmið í öllum fötunum, og vonaði að hann kynni ef til vill að sofna undir eins.

En svefninn vildi ekki síga yfir hann nú undir morguninn.

Hann lokaði augunum. Hann bylti sjer til. En alt var árangurslaust. Honum gramdist stöðugt við sólargeisla, sem skotist hafði inn fram með rifnu gluggatjaldinu.

Að lokum sá hann, að sjer mundi ekki takast að sofna og hætti að reyna það. Hann rjetti út höndina, náði í gluggatjaldsjaðarinn, tók í, slepti og tjaldið þaut brakandi upp og morgunsólin skein inn í herbergið, en það var svo óvistlegt og illa hirt að Úlfur lokaði augunum til þess að þurfa ekki að sjá það.

Hann lá kyr með augun aftur. Hann var sárþreyttur og hvíldarþurfi. Hann hefði helst viljað liggja í hugs-

unarlausum dvala. En hann gat ekki bælt niður hugsanir sínar. Þær hjeldu áfram að honum nauðugum. ....

Allur lífsdómur hans var áreiðanlega einskær hroki — og ekkert annað, hugsaði hann. — Í sjálfu sjer var ókleift að dæma nokkuð um lífið — — — af því að við gætum hvorki sjeð upphaf þess eða eygt endi þess.... Við þektum að eins örlítið brot tilverunnar. Og við fengjum aldrei að þekkja meira — að minsta kosti ekki í þessum heimi — þar sem því er nú einu sinni þannig varið, að það, sem liggur að baki upphafi og endi lífsins, liggur fyrir utan skilningsmörk okkar. Auðvitað var eitthvert vit, eitthvert samhengi í þessu öllu — en það snerist ekki um okkur, kom okkur ekki við. Mennirnir hjeldu í hroka sínum, að þeir hefðu einhverja sjerstöðu í náttúrunni — ja svei! — Tilveran var keðja, þar sem liðirnir voru hnitaðir saman .... Tímarnir liðu .... keðjan rynni .... en mennirnir væru ekki sál keðjunnar eins og þeir hjeldu .... Sál keðjunnar, — það mætti víst lengi leita að henni! Því sennilega væri hún ekki annað en vilji, kraftur náttúrunnar, lögbundið samband efnanna, myndun dýra og blóma — blint vald .... Og þess vegna var einn maður ekki meira virði en eitt blóm. Menn og blóm voru að eins glæsiskraut grimdarlífsins .... Lífið skreytti sig blómum mannsandans, eins og það skreytti jörðina blómum moldarinnar á hverju vori .... En annars var ekkert undir slíkum smámunum komið, sem einu mannslífi — það gátu allir sjeð, sem voru ekki blindir. Smábyltingar höfðu engin og gátu aldrei haft nein áhrif á heildina — það voru náttúrulög.

Þróunin fer leiðar sinnar — frá því óþekta til þess óþekta.

Blóm spruttu á vorin, voru týnd, troðin niður, eða

fengu að þroskast til fulls þegar best ljet — og helfrusu svo í faðmi frostsins .... Og líf mannanna var eins og blómanna.

Hollur kuldi! datt honum alt í einu í hug. — Hollur kuldi — h a n n er hið eiginlega eðli náttúrunnar .... þeir menn, sem eiga h a n n í eðli sínu, eins og náttúran, þ e i r komast áfram. Hinir — fíngerðari blómin, þar sem blöðin bærast fyrir minsta andvara og fjúka fyrir fyrsta blænum — þeir brotna og eyðast fyrir aldur fram. Ef til vill heldur blaðlaus stöngullinn áfram einhvers konar tilveru í nokkurn tíma — en er að eins ekki fallegur lengur .... En blómin, sem skemst lifa og eru fíngerðust — það eru a l d i n blómin! .... Engan hroka! .... Og hvernig var það annars: er ekki eins ástatt um eiturblómin.

En hvað sem þessu leið: ef hann ætlaði sjer að handsama eitthvert tangur af tilgangi tilverunnar, mátti hann ekki ganga út frá sjálfum sjer, sinni reynslu og sínum skoðunum að eins. Hann var einn þeirra, sem ekki fann neinn botn í neinu — og sagan var því ekki nema hálfsögð af honum. Hann varð að gera ráð fyrir að þeir sem fyndu hann, hefðu líka rjett til þess að láta til sín heyra — og þeirra skoðun væri ef til vill alt eins mikils virði og hans eða hans líka .... Við sæjum nú til dæmis hann föður hans. — Hann hafði orðið ákaft fyrir andstreymi lífsins — og var þó langt frá því að bugast — hann stæltist stöðugt af því. Konan, sem hann elskaði, var orðin geðveik — og það hafði að eins fært hann nær guði. Sonur hans, sem hann elskaði líka, bakaði honum stöðugt böl — og ekkert nema böl. Og einnig það styrkti hann og færði nær guði. Hinn mikli kærleikur hans — eðliskjarni hans — fleytti honum gegnum þetta alt. Af

því að eðli sjálfs hans var kærleikur, trúði hann á kærleika guðs og kærleikann í og bak við alla hluti. Af því að hann var sjálfur tryggur og umburðarlyndur, trúði hann á trygð og umburðarlyndi guðs. Af því að hann var heilagur maður efaðist hann ekki um heilagleika guðs. Heilagur maður — þaut í gegnum Úlf. Já, það var einmitt það, sem hann var — heilagur maður .... heilagur maður sakir eðlis síns, heilagur maður sakir trúar sinnar. — — — En var nú ekki öll ástæða til þess að ætla, að einmitt hann hefði í bjargfastri trú sinni komist nær sannleika tilverunnar en sá, sem reisti skoðanir sínar að eins á tilfinningalausum athugunum? — Jú, — vissulega, vissulega .... En því var nú þannig varið, að við urðum að mynda okkur skoðanir eftir ímyndunum sjálfra okkar ....

Úlfur var eyðingunni dæmdur af því, að eðli hans brast þrótt, áreiðanleika — hollan kulda náttúrunnar. Skynsemi hans kom honum að engu liði, því skynsemin ein ræður ekki manninum, en þegar öllu er á botninn hvolft verður hann að hlýða eðlislögum sínum. Vilji hans og viðleitni var árangurslaus af því hann var þar, eins og alstaðar annarstaðar, of hvikull og dreifður. Jafnvel þrá hans gæti aldrei hreinþvegið hann, því þó hún gæti blossað allsterkt upp — varð hún aldrei eilíf-brennandi bál ....

Já, svona var það. Hann fann og viðurkendi aflleysi sitt — — og hann sökk og sökk ....

Eina skiftið, sem lífið var honum miskunnsamt var þegar það skildi leiðir þeirra Margrjetar í tæka tíð .... Annars hefði því sambandi líka lokið viðbjóðslega eins og annari breytni hans. Fegurð þess hefði druknað í heildarskorti hans .... traust þess í óáreiðanleik hans ....

Meðan Úlfur lá þarna og níddi sjálfan sig, var barið hægt að dyrum. Hann lyfti höfðinu og leit þangað.

Aftur var barið, hægt eins og áður. Svo var snerlinum snúið hægt niður á við og dyrnar opnuðust .... faðir hans gekk rólega inn.

Úlfur spratt alt í einu upp úr rúminu, en seig niður aftur og sat kyr á rúmstokknum, hreyfði sig ekki, draup höfði og andlitið var sviplaust.

Sjera Ljótur ljet dyrnar hægt aftur á eftir sjer. Svo gekk hann varlega að legubekknum og settist þar og hjelt að sjer höndum, sú hægri lá svo undarlega guggin ofan á þeirri vinstri.

Hann hafði aldrei komið hingað áður .... og hann óskað einskis fremur, en að hafa heldur ekki farið hingað núna.

En nú var hann kominn — og það hafði atvikast þannig: Hann varð órór, þegar sonur hans kom hvorki heim um nóttina nje til morgunverðar. Ósjálfrátt knúði eitthvað hann út til þess að leita að honum. Hugur hans var einkennilega ókyr í dag og hvarflandi kvíði í hjarta hans. Hann gekk oft fram hjá veitingahúsinu áður en hann ákvað loksins að fara þangað upp — hann var hræddur um að sonur sinn misskildi komu sína — hræddur um að gera honum ónæði. En þessi einkennilegi kvíði hjelt áfram að kvelja hjarta hans, hann varð að fá vissu fyrir því, að sonur sinn væri þarna uppi og hvernig honum liði. Og því fór hann upp.

Og nú þegar hann sá, að ekkert var að syni sínum, að hann var í engri hættu, eins og hann hafði alt af haft óljóst á tilfinningunni, þó hann vildi ekki játa það með sjálfum sjer — nú fann hann skýrt, að hann hefði ekki átt að koma. Hingað átti hann ekkert erindi.

Meðan hann sat þarna gagnvart syni sínum, varð hann alt í einu kvíðinn út af öðru. Hann var ekki hræddur um son sinn lengur — en hræddur um sjálfan sig. Hann var hræddur um, að með komu sinni hefði hann spilt hinni góðu og tryggu sambúð milli sín og sonar síns .... Honum datt ekkert í hug til þess að segja — því hann hræddist einnig orð sín. En allra hræddastur var hann við það, að standa upp og fara og segja ekkert. Og að sitja kyr, það var ógerningur.

Hann stóð hægt upp, þjakaður vandræðaharmi. En þegar hann stóð þarna fyrir framan son sinn og var að því kominn að fara orðalaust, datt honum alt í einu dálítið í hug og fór eftir því:

— Þú hefur víst ekki sódavatnsdropa, Úlfur? spurði hann vingjarnlega.

Úlfur stóð fljótt upp. Hann hreinskolaði glas með skjálfandi höndum og helti í það sódavatni og fjekk það föður sínum — en þorði ekki að líta á hann, og í hjarta hans var titrandi tilfinning kærleika og kvalaljettis.

Sjera Ljótur tæmdi glasið, setti það varlega á borðið, klappaði hálf vandræðalega á öxl Úlfs og sagði: — Þökk, drengur minn, og fór leiðar sinnar eins rólega og hann kom.

Úlfur stóð lengi og hreyfingarlaus í sömu sporum og starði á dyrnar, eins og honum væri ekki vel ljóst, hvað fyrir hefði komið. Sál hans ólgaði og ólgaði — vesalmenskutilfinning hans varð að óþolandi spenningi .... Það var eins og eitthvað ætlaði að bresta ....

Og alt í einu og án þess að hugsa um, hvað hann gerði, helti hann stórt glas næstum fult af whisky og teigaði það — æstur — í löngum teigum.

Svo henti hann sjer í rúmið og lá í sljóum svima en gat ekki sofnað.

— — —

Nokkrum stundum seinna vaggaði Ari Sigurðsson sætkendur heim í veitingahúsið úr verslunarheimsókn, sem varað hafði hjer um bil allan fyrri hluta dagsins.

Hann vaknaði um morguninn höfuðveikur og stirður og byrjaði þess vegna daginn á nokkrum staupum. Svo skenkti hann sjer whisky og dreypti á því við og við meðan hann þvoði sjer og reyndi að laga eitthvað bögluð og fisuð fötin.

Og þegar hann á þennan hátt hafði búið sig sæmilega undir daginn, fór hann út í umrædda verslunarheimsókn. Vinur hans tók ágætlega á móti honum — og fullvissaði hann um að það „væri votlent“ hjá sjer. Þeim kom svo saman um að byrja daginn með nokkrum „ærlegum strömmurum“. Og áður en þeir skildu veitti vinurinn morgunverð — og ákavítið flaut í ómældum straumum í stað ölsins, sem vantaði.

Eftir morgunverðinn fór Ari samt að finna til dálítillar þreytu, og þar sem eins var ástatt um vin hans, fór Ari „til þess að hvíla sig dálítið“, eins og hann sagði.

En hreina loftið hafði ágæt áhrif á hann. Og þegar hann þrammaði upp stigann, studdi sig við handriðið og hnaut dálítið við og við var hann vel í essinu sínu og alls ekki syfjaður.

Það leiddi því af sjálfu sjer, að þegar hann kom auga á stúlku á stigapalli annars lofts, þá veifaði hann til hennar, jafnvel þó hann þekti hana ekki og hvíslaði með kankvísu brosi.

— Uss — uss — bíddu dálítið, jeg þarf bara að ljúka

upp hurðinni — hann vissi af reynslunni, að það gat verið erfitt.

Stúlkan sneri baki að honum, eins og hún vildi ekki láta þekkja sig, og fór lengra inn í dimman ganginn vinstra megin og Ari fór að baxa við hurðina.

Hann þuklaði og þreifaði í ákafa. Að vísu fann hann skráargatið hvað eftir annað, en honum var ókleift að hafa hvorttveggja í höfðinu í einu: skráargatið og lykilinn. Að lokum hætti hann við það bölvandi og fór og skelti á herbergishurð Úlfs.

Stúlkan stóð stöðugt dálítið inn í ganginum vinstra megin og sneri baki við honum — og skildi Ari það svo, að hún biði eftir því að dyrnar yrðu opnaðar.

Úlfur slengdi opnum dyrunum og spurði reiðilega:

— Hvað gengur á?

Stúlkan hrökk við og hreyfing hennar dró athygli Úlfs að henni. Hann greip í dyrastafinn í skyndilegu svimakasti.

— Kondu snöggvast og hjálpaðu mjer að ljúka upp — læsingin er líklega eitthvað biluð, skrökvaði Ari og fjekk Úlfi lykilinn.

Úlfur ýtti honum orðalaust á undan inn ganginn, gat fljótt opnað hurðina, skaut Ara inn og fór sjálfur á eftir.

Hann horfði að eins þetta eina skifti á stúlkuna sem stóð í rökkri hins gangsins og þekti hana undir eins — vöxtinn, fasið, klæðnaðinn — þó hún sneri baki að þeim. Hann reyndi ekki að geta upp á hvers vegna hún stæði þarna. Alt snarsnerist líka aftur og fram í höfði hans og hann gat enga skýra hugsun hugsað. Alt, sem hann í þessum svifum vissi, var það, að hinn mátti ekki sjá hana — þess vegna var hann svo fús á að opna dyrnar fyrir honum, þess vegna skaut hann honum inn á undan

sjer og þess vegna stóð hann nú rjett fyrir innan dyrnar og sneri baki að þeim, eins og til þess að gæta þess, að hann færi ekki út aftur, áður en hún gæti komist burtu.

— Viltu fá konjak fyrir hjálpina? spurði Ari, sem sjálfur var mjög þyrstur. Hann beygði sig yfir tösku sína og leitaði að konjaksflösku. — En þú verður að flýta þjer að „stinga hana út“ því stúlkan mín bíður.

— Hvað segirðu? spurði Úlfur hásraddaður — hann gat varla komið orðunum upp sakir ákafs hjartsláttar.

— Jeg segi, að þú verðir að flýta þjer að drekka konjakið, svaraði Ari rólegur — því stúlkan mín bíður eftir mjer úti í göngunum.

Úlfur rjeðst á hann, greip í báðar axlir hans og hristi hann svo eftirminnilega að hann misti flöskuna og hún valt eftir gólfábreiðunni.

— Þú lýgur! öskraði hann — blóðið þaut í eyrum hans og hjartslátturinn var að kvelja hann svo hann kom orðunum varla upp. Þorirðu að segja það einu sinni enn? spurði hann.

— Sleptu mjer nú! Hvað á þetta að þýða? Ari reyndi árangurslaust að rífa sig lausan.

Annars jók það að eins þrjósku hans að finna hvað hinn var honum miklu sterkari. Og í ölæði sínu greip hann til þess heimskuúrræðis að halda áfram að endurtaka orð sín — til þess að hafa yfirhöndina að minsta kosti að því leyti.

— Jeg segi að stúlkan mín bíði eftir mjer þarna úti, asninn þinn, stundi hann upp.

Úlfur vissi ekki framar hvað hann gerði, hjelt honum föstum með vinstri hönd en barði og barði látlaust með hægri hnefanum, án þess að hugsa um hvað hann hitti.

Svo slengdi hann Ara móður frá sjer og sparkaði í hann — hann datt kveinandi á legubekkinn og sat þar.

— Asninn þinn, helvítis asninn þinn, hálfsnökti Ari inn á milli kveinstafanna. — Jeg segi að ....

Úlfur skimaði öskureiður um eftir einhverju barefli, kom auga á konjaksflöskuna og þeytti henni í höfuð Ara. Hann öskraði ægilega af misþyrmingunni og alt í einu rann hjer um bil af honum og hann æpti neyðaróp svo glumdi í húsinu. En hróp Ara og blóðstraumarnir úr andliti hans æstu Úlf enn þá meira. Hann hjelt áfram að sparka í hann og berja á honum eins og óður maður.

Alt í einu var hurðinni hrundið upp og veitingamaðurinn æddi inn. Þegar hann sá, hvað um var að vera, grátbændi hann Úlf í guðsbænum um að hætta. En Úlfur skeytti því ekki — hjelt að eins áfram að slá og sparka.

Göngin smáfyltust fólki. Veitingamaðurinn bað nokkra sterkustu gestina að koma inn og hjálpa sjer og sendi stúlku af stað eftir lögreglunni. Ara var svo misþyrmt orðið að hann þorði ekki annað.

Úlfur varð ofurliði borinn, dreginn inn í herbergi sitt og hurðinni aflæst að utan, en eftir því tók Úlfur ekki.

Hann lá örstutta stund á gólfinu, þar sem þeir skildu við hann og kastaði mæðinni. Svo stóð hann upp og henti sjer í rúmið og hjelt höndum fyrir augun.

Enn þá var hann alt of æstur til þess að geta hugsað. Alt var á ferð og flugi í höfði hans. Hann beit saman kjálkunum í vitfirtri sálarkvöl. Blóðugt afskræmt andlit Ara var eina sefunin.

— Það er lygi! — Það er lygi— stamaði hann stöðugt hugsunarlaust, uns hann loksins tók eftir orðum sínum.

En hvers vegna misþyrmdi hann hinum, þegar hann

var svona viss um að það væri lygi? datt honum alt í einu í hug. — Og hvers vegna stóð Margrjet þarna — og sneri baki að þeim .... Nei, nei — það var óhugsanlegt — og vitanlega var það lygi, — vitanlega var það lygi. — — En nú óskaði hann þess allra helst að vera dauður. ....

— Því líklega var það ekki hann, sem Margrjet ætlaði að heimsækja? datt honum skyndilega í hug. — Þaut sú hugsun reyndar ekki um huga hans undir eins og hann sá hana í ganginum? .... En það er vitfirring — vitfirring .... Hún sem vildi ekki einu sinni heílsa honum um daginn ....

Hann fór alt í einu að gráta — ekki sárum örvæntingargráti, en blítt og hægt eins og barn. — Við brosið þitt glaða gleymi .... þetta vísubrot raulaði í huga hans. Og grátur hans varð ákafari og örvæntingin meiri ....

Meðan hann lá þarna og grjet, var hurðinni alt í einu hrundið upp og fjórir lögregluþjónar komu inn.

Úlfur starði á þá stórum undrunaraugum og spratt upp úr rúminu.

Samkvæmt bendingu hins elsta þeirra gengu tveir þeirra fram og tóku sinn í hvorn handlegg Úlfi, en hann sleit sig lausan.

— Hvað viljið þjer mjer? spurði hann reiðilega.

— Komi þjer nú með okkur með góðu, sagði sá lögregluþjónanna vingjarnlega, sem orð hafði fyrir þeim, — þjer höfðuð nærri drepið Ara Sigurðsson. Við verðum að koma yður undir lás og loku, meðan berserksgangurinn er að renna af yður.

Reiðin ólgaði aftur í Úlfi. Hann ætlaði að hlaupa fram hjá þeim út úr herberginu, en þeim tókst að handsama hann. —

— Til hvers er nú þetta? sagði elsti lögregluþjónninn í ávítunarrómi. Komi þjer nú heldur sjálfviljugur með okkur.

— Ef jeg á að fara í „steininn“, stundi Úlfur gremjulega og barðist við lögregluþjónana — þá vil jeg að minsta kosti drepa hann alveg áður.

Gamli lögregluþjónninn sneri sjer alt í einu að þeim fjelaga sínum, sem ekki tók þátt í viðureigninni.

— Hlauptu og sæktu vagninn — annars eigum við á hættu að hann rífi sig lausan og hlaupi frá okkur á miðri götu. Hann er alveg snarvitlaus.

Úlfur æstist enn þá meira, þegar hann heyrði orð hans og vissi hvað hann átti í vændum. En hann hafði ekki skap til þess að láta undan og komast ef til vill þannig hjá svívirðingunni. Nú fanst honum hann berjast fyrir lífi sínu.

Hann barðist um og sparkaði eins og hann gat. En það var alt árangurslaust, ofureflið var of mikið og að lokum tókst lögregluþjónunum að koma honum undir. Svo lömdu þeir hann eftirminnilega nokkrum sinnum, til þess að lama hann.

Það dugði.

Úlfur lá kyr, með augun aftur og gaf upp alla vörn. Lögregluþjónarnir hagnýttu sjer þetta til þess að koma á hann handjárnum.

Svo sleptu þeir honum, stóðu upp og ljetu hann liggja eftir.

Hljeið þangað til „vagninn“ kom notuðu þeir til þess að leita í herberginu og gera upptækt alt áfengi, sem þeir fundu.

Loksins kom lögregluþjónninn aftur, sem sendur hafði verið.

Úlfi var draslað á fætur og hann dreginn ofan stigann og veittu gestir og þjónar því öllu nánar gætur.

Niðri á götunni hafði allálitlegur skari safnast um vagninn. Frjettin, um að Úlfur hefði næstum drepið mann, þaut frá einum til annars, og þegar lögregluþjónarnir komu með hann var hann hrópaður háði og heiftyrðum. Hann gekk á milli lögregluþjónanna, andlitsdrættirnir voru næstum stirðnaðir og hvítir og augun lokuð, en hægur titringur fór um þau við og við.

Vagninn var dragvagn og á honum brúnleitur kassi, rúmlega þriggja álna langur, álnar breiður og hálf alin á dýpt. Í báðum göflunum var kringlótt gat. Lokið var hvelft og á því þrjú járnbönd. Á kassabotninum lá óhrein motta.

Úlfi var slengt á bakið ofan í kassann og leðurreimar spentar fast yfir brjóst hans og knje. Svo var lokinu skelt yfir og hespað aftur.

Svo óku lögregluþjónarnir á stað með vagninn og settu upp alvarlegan embættissvip, en æpandi götulýður elti þá.

## X.

Síðari hluta þessa sama dags kom Geir Thorgeir gangandi ofan Skólavörðustíg.

Hann hafði farið burt úr stjórnarráðinu nokkru fyr en vanalega og gengið dálítið inn Hafnarfjarðarveginn.

Honum fanst hann þurfa að vera einn, fanst hann þurfa að komast að einhverri niðurstöðu í hugsunum sínum, og hann hjelt að löng gönguferð gæti ef til vill styrkt sig. En árangurinn fór engan veginn eftir vonunum. Þegar

hann kom þarna gangandi fann hann að eins til sárrar þreytu — en var engu nær í því sem ásótti hann, en þegar hann fór.

Honum fanst það ekki vera peningamissirinn, sem mest kveldi sig. En þegar á átti að herða brast hann þó þrek til þess að geta hugsað sjer sjálfan sig öreiga, og tók eftir því, sjer til nokkurrar undrunar, að með sjálfum sjer var hann farinn að reikna út, hve há eftirlaun sín yrðu og hvað auðveldast yrði að taka fyrir, þegar ráðherrastarfinu lyki. Það var heldur ekki dauði mágs hans. Hvorutveggja hefði þetta valdið honum sárrar hrygðar og haft miklu meiri áhrif á hann en nú varð raun á, ef það hefði borið að sitt í hvoru lagi og ekki ásamt þessari ógn, sem hreint og beint hótaði að svifta hann allri fótfestu í tilverunni.

Og þessi ógn — þetta, sem ofsótti hann eirðarlaust, sem deyfði harminn yfir dauða mágs hans, sem ljet hann hvað eftir annað gleyma eignamissinum, það var hugsunin um að hafa um langa æfi flaskað svona ægilega í áliti sínu á Gísla Torfasyni. Meðvitund þess stakk hann stöðugt eins og eituroddur. Hún eitraði alt fyrra líf hans — alt, sem fyrir hann hafði komið meðan hann mundi eftir. Því að sem fyrsti og í öndverðu eini vinur hans tók Gísli þátt í öllu saman, tók þátt í því á þennan dula, hægláta hátt, sem honum var eiginlegur.

Orð mágs hans um það að hann — Geir — hefði víst aldrei orðið neitt sjerlegt, ef h a n s hefði ekki notið við, brendust óafmáanlega í sál Geirs Thorgeir. Fyrst fanst honum það stakasta og staðlausasta heimska. Það var beinlínis vitfirring og óskiljanlegt, að mági hans skyldi detta slíkt í hug. En svo fór efinn að bæra á sjer .... rökkur hans reifaðist hægt og hægt um hug hans .... En

hann vildi ekki láta undan og viðurkenna rjettmæti staðhæfinga mágs síns — vildi ekki vita að þrátt fyrir alt hafði mágur hans á rjettu að standa .... en með sjálfum sjer vissi hann það.

Og þegar hann fór að óra fyrir þessari ægilegu vissu með sjálfum sjer, fór hann í örvæntingu sinni að skáka í valdi hreinnar samvisku sinnar, óaðfinnanlegrar framkomu og lýtalauss lyndislags síns .... og honum tókst, þó ekki væri nema að sumu leyti, að deyfa vissuna, svo hún lifði hálf meðvitundarlausu lífi í undirdjúpi eðlis hans. En dýpst í huga hans lá hann — þó hann væri fjötraður lífsvilja hans, fastbundinn sjálfbjargarþrá hans — þessi miskunnarlausi sannleiki að hann hefði alt af og í öllu verið verkfæri í annars manns höndum .... lá þar eins og naðra og glápti á hann hálfsofandi gljúpum glirnunum .... eins og í draumnum í nótt. Og hvernig sem hann reyndi að komast undan ægiaugum hennar, sá hann þau alt af fyrir sjer ....

Þegar Geir Thorgeir sá að tilraunir sínar til þess að fá einhvern botn í þessum efnum, urðu til þess eins að hann sökk dýpra og dýpra í vonlausa ófærð, hætti hann því og sneri blindandi við.

Hann vildi ekkert vita, vildi ekki hugsa meira um þessi efni. Hann sagði við sjálfan sig, að hann yrði að eins að reyna að komast klaklaust yfir efa og angist fyrstu daganna .... og lifa svo áfram .... lifa áfram — — eins og áður .... vita ekkert .... hugsa ekkert .... en starfa .... starfa! .... fara í öllu eftir sannfæringu sinni — láta rjettarmeðvitund sína ríkja í öllu .... þá kæmist hann áreiðanlega áfram.

Og þegar öllu var á botninn hvolft, voru þetta órar einir, sem hann kvaldi sig með. Gísli var ekki með fullu

viti, þegar hann sagði þetta. Og hann hefði aldrei talað svona áður. Sönnun þess að hann var ekki alveg með sjálfum sjer, var þessi alvitlausa útnefning Úlfs Ljótssonar sem eftirmanns hans í þinginu. Það var líka ofurskiljanlegt hvernig þessi hugsun fór að myndast í sjúkum heila hans: hann — Geir Thorgeir, — var alt af vanur að t a l a um málin við hann, en hann hafði aldrei l a g t þau f y r i r hann, aldrei spurt hann ráða í nokkru máli — — og a l d r e i fengið nein ráð hjá honum. — Hann ætlaði því ekki að telja þennan seinasta dag með — ætlaði að reyna að gleyma honum.

Hann ætlaði að halda fast við þá skoðun, sem hann hafði alt af til þessa haft á mági sínum: að hann væri áreiðanlegur dugnaðarmaður, dálítið ráðríkur og þrár í því, sem bankanum við kom og stundum óþarflega hvass í umræðum á þingi og kjósendafundum, en alt af knúinn óeigingjörnustu og hreinustu hvötum. Það,að mágur sinn hefði sóað fjenu, ætlaði hann að álíta óhepni — og þannig hafði mágur hans líka lýst því. Hann sagði að fjeð hefði tapast við tilraun til þess að margfalda það. Það var ógætni af honum að spyrja hann — Geir Thorgeir — ekki ráða áður en hann stofnaði fjenu í eitthvert glæfrafyrirtæki, en skylda hans var það ekki, fyrst hann hafði fengið fult leyfi til þess að ráðstafa því heppilega. Hann ætlaði ekkert að skifta sjer af því, hvernig á því stæði að hann reyndi nokkurn tíma að fá þennan ráðstöfunarrjett yfir því — og hann ætlaði heldur ekki að hugsa neitt um það, að eiginlega væri alt þetta ósamrýmanlegt varfærni mágsins.

Hann ætlaði að eins að reyna að gleyma þessu, sem kvaldi hann, reyna að fá ró, reyna að finna frið í huga sjer .... Og þá mundi tíminn leiða í ljós, að kvíði hans

var æstum taugum að kenna og efi hans ástæðulausum órum.

Þannig tókst honum til bráðabirgða og lauslega að greiða úr hugsunum sínum — tókst að breiða blæju sjálfsblekkinganna yfir vonlausan vanmátt og uggvænan ótta í djúpi huga síns.

Við alla þessa sálarkvöl bættist svo að við og við varð hann lostinn líkamsþreytu, sem lá eins og blý í blóði hans, gerði honum svo þungt um gang, að hann átti erfitt með að neita sjer um að setjast á tröppurnar, sem fyrir honum urðu.

Hann hengdi höfuðið, drógst næstum af stað og var svo gerþreyttur, að hann tók ekki eftir dálitlum skara, sem á móti honum kom með hrópum og alls konar háreysti, fyr en hann stansaði fyrir utan „steininn“ — fangelsi og hegningarhús bæjarins — og hann var sjálfur að eins örfá skref frá honum.

Götulýðurinn, sem einkum var í skaranum — fyrir utan lögregluþjónana og einkennilega vagninn — skautst fljótlega í allar áttir, er hann kom auga á hans hágöfgi Geir Thorgeir.

Lögregluþjónarnir áttu fult í fangi með að framkvæma hið ábyrgðarmikla starf sitt og þagga niður í hávaðaseggjunum og tóku því ekki eftir ráðherranum fyr en nú, að þeir litu við til þess að komast að því hvers vegna götustrákarnir flýðu. Þeir rjettu úr sjer og heilsuðu með virðingu — þeir höfðu nýlyft kassalokinu.

Geir Thorgeir, sem hrylti við að sjá þennan hrottalega kassa notaðan, svaraði kveðju þeirra lauslega og ætlaði að flýta sjer fram hjá. En um leið varð honum það á, eiginlega móti vilja sínum, að horfa snöggvast á manninn, sem spentur var fastur á kassabotninum — og hann stansaði.

Hann stóð kyr um stund og fann til og leit á hið föla andlit Úlfs — svo virtist sem ef til vill væri liðið yfir hann.

Svo sneri hann sjer að lögregluþjónunum og sagði óþolinmóðlega:

— Flýti þið ykkur nú svolítið að losa manninn.

Þegar Úlfur heyrði rödd ráðherrans lauk hann upp augunum og horfðist á við hann, fast og ákaft — og meðan lögregluþjónarnir leystu leðurreimarnar og lyftu honum upp úr kassanum hafði hann ekki augun af Geir Thorgeir.

Geir Thorgeir fann til innilegrar meðaumkunar og átti erfitt með að láta ekki eftir tilfinningum sínum. En um leið vaknaði í huga hans áköf reiði til unga mannsins. Og það var reiðin og tilfinningin um órjett þann, sem hann gerði bæði sjer og föður sínum, sem varð sterkari.

— Nú, þá eru þjer víst komnir þangað, sem yður lengi hefur langað, sagði hann svo napurt og fyrirlitlega að hann sá undir eins eftir því, en gat einu sinni ekki breytt þeim kalda hæðnissvip, sem ósjálfrátt kom á andlit hans.

Úlfur hjelt að eins áfram að horfa í augu hans, en svaraði ekki.

Geir Thorgeir gramdist augnaráð hans, og til þess að hafa einhverja átyllu til þess að losna við það, sneri hann sjer að gamla lögregluþjóninum:

— Hvað hefur hann gert? spurði hann stranglega.

— O-o — hann hefur svona hjer um bil drepið mann, svaraði lögregluþjónninn, dálítið feimnislega yfir því að standa augliti til auglitis við svo háttsettan mann. — En það er skiljanlegt — hann var drukkinn, bætti hann við, eins og til þess að draga úr hinu.

Geir Thorgeir hristi höfuðið.

Meðan Úlfur stóð og horfi á Geir Thorgeir vaknaði smá saman í huga hans gegndarlaus reiði við þennan rólega, dauflega, vingjarnleg mann, sem virtist svo öruggur, en Úlfur hafði fundið tómleika hans og efnisleysi, sem hann var sjálfur ánægður með. Og nú gat hann ekki stilt sig lengur. Það að ráðherrann hristi höfuðið var dropinn, sem renna ljet yfir bikarbarminn.

— Já, — hristu bara höfuðið! sagði hann gremjuþrunginn. — Þú getur hvort sem er aldrei annað meira gert en að hrista höfuðið — þú ert svo ragur, innantómur og heimskur. Þ ú drekkur þig ekki fullan, nei, — og þ j e r kæmi aldrei til hugar að reka níðingshættinum rjett utan undir — hundlyddan þín. Svo þú hefur svo sem meira en nóga ástæðu til þess að hrista höfuðið ....

Það var alls ekki þetta, sem hann ætlaði að segja, þegar hann byrjaði. En það var sem hugsanirnar hyrfu honum. Og meðan hann hjelt áfram talinu tóku tárin alt í einu að renna niður kinnar hans, við tilfinninguna um vanmátt hans og niðurlægingu, en grátsvipur kom þó ekki á andlit hans.

— Þú ert eiginlega ekki maður, Geir Thorgeir, ekki eiginlega lifandi maður .... því ef þú værir maður .... æ, en hvað þú hlytir að gráta .... en þú ert umbúðirnar einar, sálarlaus og viljalaus ....

Geir Torgeir ljet sem hann heyrði ekki til hans, en hvert einasta orð læstist fast í meðvitund hans.

— Taki þið af honum handjárnin, skipaði hann lögregluþjónunum.

Svo sneri hann sjer loksins að Úlfi.

— Vegna föður yðar ætla jeg að fara til bæjarfógetans og vita hvort jeg get ekki komið því til leiðar, að

þjer verðið látinn laus — þrátt fyrir öll skammaryrði yðar. Þjer ættuð að skammast yðar fyrir, að koma fram eins og þorpari og götustrákur. Og þjer ættuð að láta þetta sorgar-atvik verða yður að kenningu. Ef til vill þurftu þjer einmitt svona lexíu.

Geir Thorgeir kvaddi lögregluþjónana og fór.

Og Úlfur ljet mótstöðulaust setja sig inn í varðhald „steinsins“.

Geir Thorgeir fanst það ljettir, að hafa fengið eitthvað að gera, sem hann þyrfti að flýta sjer við. Beiskyrðum Úlfs ætlaði hann að eins að sökkva — gleyma, ásamt hinu, sem mátti ekki munast .... Hann fann lítið til þreytunnar lengur. Og hálf ósjálfrátt kom honum næring og styrkur úr þessum árekstri þeirra Úlfs.

Já, það varð ekki af honum skafið, þessum Úlfi Ljótssyni, að hann var dauðans ræfill. Nú kom það fram, hversu máginum skjátlaðist, þegar hann benti á hann sem þingmannsefni flokksins. Úlfur Ljótsson alþingismaður! Maður ætti beinlínis á hættu, að hann kæmi drukkinn á fundi og gerði uppþot — lenti kanske í ryskingum í sjálfum þingsalnum. Jú, það yrði ekki óþokkalegt ástand. Og þar að auki var það hrein og bein vitfirring, að styðja opinberlega á nokkurn hátt mann, sem svo gersamlega hafði brotið af sjer borgaralegt álit. Þá skjátlaðist mági hans — já, skjátlaðist svo fullkomlega, sem engum getur skjátlast nema þeim, sem eitthvað er ruglaður í höfðinu. Það var ekki nóg að kalla þessa ráðstöfun viðvíkjandi Úlfi fljótfærnislega, óhugsaða, hún var hrein og bein botnleysa. Og af því leiddi auðvitað, að þá átti heldur ekki að taka ofmikið tillit til annars, sem hann hafði sagt ....

Geir Thorgeir tók alt í einu eftir því, að hjá sjer vakn-

aði fast, gleðilegt hugboð um, að þessi Úlfs-atburður væri ef til vill ákveðinn af einhverju æðra valdi til þess að bjarga sjer út úr eyðandi efanum, og gefa sjer aftur festu sína og ró. Og hann hugsaði vingjarnlega til drottins — þó það væri með dálítið slæmri samvisku, því með sjálfum sjer fann hann, að þetta var alt einskær heilaspuni.

Í þessum hugsunum gekk hann Skólavörðustíginn á enda og ætlaði að fara að beygja niður í Bankastræti, þegar hann stóð alt í einu augliti til auglitis við sjera Ljót.

Geir Thorgeir stansaði og heilsaði. En þetta óvænta mót varð til þess að ósjálfrátt kom eitthvað vandræðahik fram í fasi hans og tók sjera Ljótur eftir því. Og dómkirkjupresturinn fann undir eins að þetta hik væri sjer eitthvað viðkomandi. En þó þetta vekti kvíðafulla forvitni hans, fanst honum hann ekki getað tafið hann svo lengi, að hann kæmist að því, hvað fyrir hefði komið, einkum þar sem Geir Thorgeir virtist í önnum. Honum tókst því að bæla forvitni sína og sagði að eins:

— Þú ert að flýta þjer — láttu mig ekki tefja þig.

Um leið reyndi hann að brosa, til þess að hylja hve þungt honum væri í skapi, og óró þá og kvíða, sem ekki vildi hverfa honum í dag, en brosið varð að eins að sorglegri grettu.

Geir Thorgeir sá það og kendi í brjósti um hann. Hann ákvað að fresta bæjarfógetaheimsókn sinni og ganga dálítið með sjera Ljóti.

— Jeg veit eiginlega ekki af hverju jeg flýtti mjer svona, sagði hann. Jeg ætlaði bara að skjótast sem snöggvast upp til bæjarfógetans. En það er ekkert svo sjerlega áríðandi. Jeg hef nógan tíma til þess að slást

í för með þjer upp á Skólavörðuhæðina. Svo þarf jeg líka að tala um dálítið við þig.

Ráðherrann sagði þetta seinasta svo glaðlega, að sjera Ljótur sneri sjer við og spurði dálítið undrandi:

— Nú, — hvað getur það verið! Hann hugsaði að það gæti áreiðanlega ekki verið neitt skylt hiki Geirs Thorgeirs áðan — líklega eitthvað sem honum hefði dottið í hug til þess að hylja það með.

En hann hafði varla lokið við orðin, þegar honum datt alt í einu í hug, að áður en þeir sveigðu talið að einhverju öðru yrði hann að minnast eitthvað á dauða Gísla Torfasonar. Þetta var í fyrsta skifti, sem hann sá vin sinn eftir dauða mágs hans. Það hafði dálítið ill áhrif á hann, að það skyldi ekki sjást meira á Geir Thorgeir en raun bar vitni, að hann hefði mist einn nánasta vandamann sinn — jafnvel þó það væri ekki ættingi hans. En um leið var þó vissulega líka eitthvað gott við það.

— Já, þar hlotnaðist þá Gísla Torfasyni hvíldin, sagði hann hægt. — Það varð heldur snögt um hann, heiðurskarlinn. Eins og þú veitst, átti jeg tal við hann rjett áður en hann dó. Þegar jeg fór, var víst í ráði að hann sendi eftir mjer seinna, — hann bað mig um hina heilögu kvöldmáltíð, en fanst það mega bíða dálítið. En hugarfarið hafði hann, og um það er mest vert.

Geir Thorgeir leið illa. Álit það, sem sjera Ljótur hafði fengið á sálarástandi mágs hans og sagði nú fallega og grunlaust frá, kom svo illa heim við hinn hræðilega dauða hans.

Samt sem áður notaði hann tækifærið til þess að biðja sjera Ljót að halda líkræðuna yfir hinum framliðna — og lofaði dómkirkjupresturinn því með gleði.

— En það, sem jeg ætlaði að tala við þig um, sagði svo Geir Thorgeir og reyndi að dylja ákafann, er hann greip færið til þess að sveigja talið frá þessu kveljandi efni — er mál, sem liggur nokkrum flokksmönnum okkar, og mjer líka, mjög á hjarta .... Þú veitst að við höfum átt í erfiðleikum með þetta kjördæmi síðustu árin. Mjer er víst óhætt að segja, án þess að taka of djúpt í árinni, að það, að flokkurinn hefur haldið því, er mest að þakka persónu Gísla Torfasonar. Við verðum þess vegna að fá í stað hans öflugan og óaðfinnanlegan mann, sem einnig nýtur trausts utan stjórnmálanna. Og við höfum þess vegna fyrst og fremst augastað á þjer, sjera Ljótur. — Nei, lofaðu mjer nú að segja það, sem jeg ætlaði mjer, sagði hann fljótt, til þess að verða á undan Ljóti, er hann ætlaði að svara undir eins. — Jeg veit ósköp vel, að þú hefur aldrei haft í hyggju að taka beinan þátt í stjórnmálum. En þú verður að minnast þess, að nú er staða okkar þannig, að þú og ef til vill enginn nema þú getur haldið kjördæminu fyrir þann flokk, sem þú telst til. Og jeg vil þess vegna biðja þig að hugsa alvarlega um það, hvort það væri ef til vill ekki að einhverju leyti beinlínis skylda þín að hlaupa undir bagga.

Sjera Ljótur svaraði ekki undir eins. Þessi síðustu orð vinar hans gerðu hann hugsandi. Um stund gekk hann þegjandi við hlið hans og athugaði ástæður hans og hristi höfuðið við og við.

Alt í einu datt honum eitthvað í hug og sneri sjer að Geir Thorgeir. Í því bili fóru þeir einmitt fram hjá „steininum“ og sjera Ljótur tók eftir snöggum, undarlegum svip í augum vinar síns og hið viðkvæma og kvíðafulla hjarta hans setti hann undir eins í samband við sjálfan sig — og húsið, sem þeir fóru fram hjá. Hann

gleymdi nærri spurningu sinni. En þegar hann hafði gengið áfram og horft á vin sinn um stund, mundi hann eftir því, og sagði það, utan við sig og kæruleysislega:

— Mintist mágur þinn ekkert á það áður en hann dó, hvern h a n n áliti hæfastan eftirmann sinn?

Geir Thorgeir datt fyrst í hug að ljúga beinlínis, eða finna einhver undanbrögð, svo hann gæti dreift talinu frá spurningu vinar síns. Ekkert gat komið honum ver. En hann sá undir eins að það var ókleift — því það var ekki óhugsandi, að Úlfur hefði minst á málið við föður sinn, þó það væri ólíkt sjera Ljóti að leggja nokkrar gildrur. Og jafnvel þó Úlfur hefði ekki gert þetta, var samt sennilegt, að fyr eða seinna bærist það sjera Ljóti til eyrna.

— Jú-ú, — svaraði hann þess vegna, og ákvað að segja satt.

. En hann gat ekki bælt niður hjá sjer einhverja æsingu og kom hún bæði af því, að nú varð hann að segja frá og skýra þessa heimskulegu sögu um þetta geggjaða uppátæki mágs síns og sömuleiðis frá þeirri vitneskju sinni, að maðurinn, sem hann mundi nefna, væri staddur innan veggja hegningarhússins, sem þeir voru nýfarnir fram hjá.

— Jú-ú, — en hann gerði það ekki fyr en á seinustu augnablikum sínum, þegar varla var hægt að álíta, að hann hafi verið með öllum mjalla — enda bendir ýmislegt fleira á það.

— Nú? svaraði sjera Ljótur — hann virtist algerlega kaldur og tilfinningalaus, er hann gekk þarna við hlið vinar síns, en notaði þó alla hina næmu fálmara sína, til þess að komast að því, sem hann fann að vinur sinn dyldi sig. — Hver var það þá?

Geir Thorgeir sagði nú eins og var: að mágur sinn

hefði stungið upp á því, að styðja Úlf og að hann samkvæmt bestu sannfæringu sinni — sjera Ljótur mætti ekki misvirða það við sig — hefði andmælt honum, en mágur sinn skilið orð sín þannig, að hann óttaðist að eins erfiðleikana á að fá Úlf kosinn. Og þar sem ekki var hægt að koma sönsum við hann á síðustu stundinni, ljet hann koma með Úlf til sín — talaði dálítið við hann í einrúmi — um hvað, vissi Geir Thorgeir ekki — og hefði síðan í áheyrn fjölskyldunnar og læknisins látið það í ljós, sem hinsta vilja sinn, og eins konar erfðaskrá — að Úlfur tæki við kjördæminu eftir sig. Þegar Geir Thorgeir hafði lokið frásögu sinni kom hann tafarlaust, en hægt og gætilega fram með þær ástæður, sem að hans áliti gerðu skipun þessa ókleifa. Og hann endaði með því að segja, að allir, sem viðstaddir hefðu verið — læknirinn líka — ef til vill að Úlfi einum undanteknum, — en um það vissi hann ekki, því hann hefði ekki haft færi á að spyrja hann um það, — hefðu verið þeirrar skoðunar, að fjarri færi því, að hægt væri að álíta að mágur sinn hefði verið með öllum mjalla.

Meðan Geir Thorgeir sagði frá þessu og útskýrði s í n a óbifanlegu skoðun á málinu, komust þeir alveg upp á Skólavörðuhæðina. Þeir stönsuðu og stóðu kyrrir um stund.

Geir Thorgeir beið mjög spentur eftir svari vinar síns. Og loksins svaraði sjera Ljótur og gekk um leið af stað inn til bæjarins:

— Eins og nú standa sakir, hvorki vil jeg nje get boðið mig fram, sagði hann með hæglátri, hásri rödd. — Nei, misskildu mig nú ekki: jeg hefði ekki fengist til þess, jafnvel þó þessu hefði ekki verið til að dreifa. Þú vilt víst heyra ástæður mínar fyrir þ v í. Það er ekki

nema eðlilegt. En jeg læt mjer nægja að nefna meginástæðuna eina, af því að jeg veit fyrirfram, að þú leggur ekki eins mikið upp úr öllum ástæðum mínum og jeg geri sjálfur. Og meginástæða þess, að jeg hefði neitað, hvernig sem á stóð, er sú, að tilfinning mín segir mjer að þangað — það er að segja á þing — eigi j e g ekkert erindi. Minn staður er ekki þar — m i n n staður er í húsi föðurins. Og ef í nauðir rekur á ó p ó l i t í s k u m ræðupöllum þjóðarinnar .... Við skulum svo ekki tala frekar um þ a ð, Geir, því það er til einskis. Jeg bið þig um að reyna að skilja mig, og liggja mjer ekki á hálsi fyrir þessa ákveðnu neitun. Jeg finn að svona á jeg að breyta — mjer finst það eiga að vera þjer ærin ástæða til þess að minnast ekki meira á málið. — — —
En svo er þessi uppástunga Gísla Torfasonar um framboð Úlfs .... Hvað þ v í viðvíkur, þá verð jeg sannast að segja, að j a f n v e l þó málið hefði horft öðru vísi við, j a f n v e l þó jeg annars hefði látið undan, þá hefði þetta verið mjer ærin ástæða til þess að bjóða mig e k k i fram. Þú segir að gamli maðurinn hafi verið orðinn ruglaður, þegar hann tók þessa ákvörðun. Jeg skal ekki deila um það við þig, af því að jeg var ekki viðstaddur sjálfur. Það getur vel verið, að það sje rjett hjá þjer. En samt sem áður held jeg að a l v e g hafi Gísla Torfasyni ekki skjátlast. Leiðin, sem hann benti Úlfi á, er sennilega einmitt sú leiðin, sem hann á að fara, eða kanske við segjum heldur ætti að hafa farið. Jeg þori ekki að hafa, eða skal að minsta kosti ekki láta í ljósi, neina skoðun á því, að hve miklu leyti það kynni að vera of seint nú. Þú segir að Úlfur hafi þannig í haginn búið fyrir sig, að álíta verði hann óhæfan í allar opinberar trúnaðarstöður .... Jeg þekki veikleika manns-

hjartans, Geir Thorgeir, og jeg veit að hjarta Úlfs er ekki veikara, en margra annara, sem haft hafa með höndum opinber störf — og þótt farast vel. Hitt er annað mál, að Úlfur er, samkvæmt eðli sínu, óvarkár og hefur aldrei kunnað sjer hóf í sorg eða gleði, og jeg veit, að ekki er mikið úr fyrirgefningu og umburðarlyndi mannanna að gera — fyrirgefning þeirra á sjer sjaldnast djúpar rætur, umburðarlyndi þeirra er falskt — þar sem það á annað borð kemur nokkuð fram. Jeg ligg þeim ekki á hálsi fyrir það — jeg skil þá einstaklega vel, því að jeg er sjálfur vesall maður — og guð fyrirgefur okkur áreiðanlega öllum. Og það getur meira en vel verið, að það sje rjett hjá þjer, að þetta sje Úlfi ókleif braut. En samt vildi jeg helst að þú skildir það, og skildir það einu sinni fyrir alt, að engin sú braut er til, að jeg mundi ekki láta veikan föðurkærleika minn fylgja Úlfi á henni, ef hann vildi fara hana. Já, jafnvel þó leiðin lægi þangað inn — hann benti með hendinni og leit um leið beint í augu Geirs Thorgeir — þeir gengu einmitt fram hjá „steininum“.

Geir Thorgeir gat ekki að því gert, hann stokkroðnaði alt í einu og leit undan.

Sjera Ljótur stansaði snögglega — eins og eitthvað hefði brostið innan í honum.

— Svo hann er þá þarna inni, hvíslaði hann, svo að varla heyrðist, að Geir Thorgeir, en hann hafði líka stansað.

Geir Thorgeir kinkaði kolli, hann sá að það var vonlaust að ætla að halda málinu leyndu lengur.

— Heldur þú að jeg geti fengið að tala við hann? spurði sjera Ljótur eftir litla þögn og alt af hvíslandi.

Hann gekk reikandi nokkur skref að dyrum „steinsins“ og sneri sjer svo aftur að Geir Thorgeir.

— Þú getur vænti jeg ekki hjálpað mjer til þess?

Geir Thorgeir tók vin sinn alt í einu undir hönd sjer.

— Nú skal jeg segja þjer dálítið, sagði hann ákveðinn. — Nú förum við beint til bæjarfógetans — þú getur beðið fyrir utan þessa stund, sem jeg verð inni, ef þú vilt síður koma líka — og svo skal jeg fá Úlf leystan út, ef þess er nokkur kostur. Og jeg vona fastlega að það verði hægt. Og svo förum við aftur og sækjum hann.

Sjera Ljótur fór viljalaus með vini sínum.

— Jeg var einmitt á leið til hans í þessum erindagerðum, þegar jeg mætti þjer áðan, sagði Geir Thorgeir. En jeg ætlaði að reyna að láta þig ekki vita af þessu.

Sjera Ljótur heyrði ekki til hans, var sokkinn ofan í sárar hugsanir sjálfs sín.

Veitstu hvað hann hefur gert? spurði hann loksins og kom orðunum varla upp.

— Lögregluþjónarnir sögðu mjer, að hann hefði átt í ryskingum, jeg veit ekki við hvern. Hann misþyrmdi víst manninum heldur illilega. En það getur varla verið nein ástæða til þess að halda honum í fangelsi, bætti Geir Thorgeir við í huggunarróm.

Sjera Ljótur virtist hafa náð aftur kröftum sínum og Geir Thorgeir slepti handlegg hans. Og alt í einu fór dómkirkjupresturinn að greikka sporið. Geir Thorgeir varð að fylgjast með og gömlu mennirnir tveir gengu nú svo hart, að fólk sneri sjer við á götunni til þess að horfa á eftir þeim og sagði hvað við annað: þarna hleypur ráðherrann og dómkirkjupresturinn, það er nú aldrei að segja, að það sje völlur á þeim!

Þega þeir voru nærri komnir að bæjarfógetaskrifstofunni, spurði Geir Thorgeir:

— Ætlarðu að bíða mín á meðan?

— Nei, jeg kem vitanlega með þjer inn, svaraði sjera Ljótur og hægði ekki á sjer — því að vonandi spillir það engu? bætti hann alt í einu við í kvíða- og ruglingsefa sínum.

— Nei, áreiðanlega ekki! Geir Thorgeir hristi höfuðið.

Þeir komu inn í þröngan gang fyrir framan grindur og stóðu nokkrir menn við þær og biðu eða voru afgreiddir.

Fulltrúi nokkur kom undir eins til þeirra, þegar hann kom auga á þá. Geir Thorgeir, sem hafði orð fyrir þeim, spurði hvort hann gæti náð tali af bæjarfógetanum og var svarað, að einhver væri inni hjá honum — en hann skyldi nú samt sjá til, — og þar sem hans hágöfgi átti í hlut braut fulltrúinn undir eins í bág við ákveðna skipun og barði að dyrum á einkaskrifstofu bæjarfógetans og fór inn.

Hann kom undir eins aftur, hneigði sig og bað hans hágöfgi að ganga inn. Sjera Ljótur fór á eftir honum, hann hafði tekið eftir því að fólk gaut til hans rannsóknaraugum og gramdist við sjálfan sig, að hann skyldi líta svona ringlaður út. — Þú hefðir ekki þurft að láta fólk sjá, að þú tækir þetta svona nærri þjer, sagði hann við sjálfan sig — hann var ekki í efa um að hornaugun kæmu öll af því að alt þetta fólk vissi um fangelsun Úlfs.

Þegar ráðherrann og dómkirkjupresturinn gengu inn í einkaskrifstofu bæjarfógetans, var hann einmitt að loka dyrum hliðarherbergis eins — en áður en hann lyki því, komu þeir báðir auga á mann og var höfuð hans alt vafið og handleggurinn í fetli og margir plástrar, þar

sem sá í bert andlitið. Þeir gátu sjer þess undir eins báðir til, að þetta væri misþyrmdi maðurinn.

Gamli vingjarnlegi bæjarfógetinn átti hálfbágt með að leyna vandræðum sínum og meðaumkun þegar hann heilsaði sjera Ljóti.

Geir Thorgeir sneri sjer beint að erindinu.

Bæjarfógetinn ljet ráðherrann fyrir kurteisisakir ljúka alveg máli sínu og svaraði síðan.

— Mjer er ánægja að því, yðar hágöfgi, að geta með góðri samvisku orðið við bón yðar — og einkum yðar vegna, háæruverði herra — hann sneri sjer að sjera Ljóti og hneigði sig — mjer er óblandin ánægja að geta undir eins slept þessum óhepna, unga manni lausum. Því til allrar hamingju er víst hægt að álíta málið sorglega óhepni — og misskilning að sumu leyti — og þar átti hann við hina illu meðferð lögregluþjónanna á Úlfi og gerði ráð fyrir að þeim væri báðum kunnugt um hana. — Og mjer er því auðveldara að láta að óskum yðar, sem ákærandinn í öðru atriðinu hefur æskt hins sama.

Hann var farinn af stað að dyrunum, sem hann lokaði áður, en stansaði alt í einu og bætti við eins og til afsökunar, er hann sá hið spyrjandi augnaráð sjera Ljóts:

— Já, háæruverði herra, sonur yðar getur ekki — frekar en hinn maðurinn — komist hjá áminningum og skaðabótum þar sem sannað er, að í herbergjum þeirra beggja voru vínbirgðir, sem þeir gátu ekki hafa átt á löglegan hátt.

Svo gekk hann að dyrunum, opnaði þær og benti Ara Sigurðssyni að koma inn.

Ari Sigurðsson kom dálítið feimnislegur og var kyntur þeim.

Þegar því var lokið sagði hann, aðallega við dómkirkjuprestinn, þó hann horfði barnalegu augunum á víxl á þá alla þrjá:

— Já, mjer þykir mjög, mjög leiðinlegt að Úlfur skuli hafa verið tekinn fastur fyrir þetta lítilræði ....

Geir Thorgeir og bæjarfógetinn horfðust snöggvast á og gátu varla varist brosi, orð Ara og barnalegu, þrútnu glóðaraugun voru svo skrítin. Sjera Ljótur einn hlustaði alvarlega á.

— Og mjer þykir það einkum leiðinlegt af því, að það var alt mjer að kenna, hjelt Ari áfram. — Jeg reitti hann til reiði og hann fór svo að berja á mjer. Og jeg varð að kalla á hjálp, af því að hann vildi ekki hætta og vissi víst síðast ekki hvað hann gerði. En jeg vissi ekki að lögreglan var sótt og var fyrst sagt það á eftir, að hann hefði verið tekinn fastur. Og þá flýtti jeg mjer undir eins hingað. Ef h a n n ætti að fara í „steininn“ fyrir þetta, þá væri svei mjer eðlilegast að jeg yrði honum samferða. En bæjarfógetinn heldur að við getum kanske komist af með að borga. Og þá vil jeg segja yður, herra bæjarfógeti, að jeg óska að borga alt saman. — Fyrst þetta er mjer að kenna, er ekki nema eðlilegt að jeg verði fyrir útlátunum öllum. — Hann talaði alt af jafn alvarlega og einlægnislega.

Bæjarfógetinn brosti.

— Það verði þjer að eiga um við Úlf Ljótsson sjálfan, herra Ari Sigurðsson. Hjá því verður ekki komist að á hann verði dæmdur hans hluti sektanna. En nú skal jeg gera boð upp í fangelsið, bætti hann við og sneri sjer að þeim öllum þremur.

En geir Thorgeir bað hann að gefa þeim það að eins skriflegt, að sleppa mætti Úlfi Ljótssyni — og þá færu þeir sjera Ljótur sjálfir upp eftir.

Sjera Ljótur fylgdist ekki með tali þeirra ráðherra og bæjarfógeta en sneri sjer að Ara, og fjarlægðust þeir hina dálítið.

— Er yður ekki sama þó þjer segið mjer hvað ykkur syni mínum bar á milli? spurði sjera Ljótur hæglátlega að vanda.

Ari Sigurðsson var að því kominn að segja frá öllu saman, en sá sig um hönd í tæka tíð og svaraði dálítið feimnislega:

— Jeg sagði eitthvað um stúlku .... stúlku, sem stóð úti í ganginum þegar jeg kom heim í veitingahúsið — jeg var sem sje drukkinn. Og jeg var sá asni að láta mjer ekki undir eins detta í hug, að hann kanske þekti stúlkuna.

Sjera Ljótur hugsaði sig dálítið um og spurði svo:

— Hvaða stúlka var það? — Er yður ekki sama, þó þjer segið mjer það — annars skulu þjer ekki gera það.

Ari hristi höfuðið hreinskilnislega.

— Jeg þekti hana ekki — jeg hef enga hugmynd um hver hún var — jeg var sem sje mjög drukkinn.

— Fanst yður sonur minn einnig vera — — eins og þjer segið .... mjög drukkinn?

— Að minsta kosti ekki eins drukkinn og jeg — hann gat þó lokið upp hurðinni fyrir mig. Ari talaði alt af jafn alvarlega og einlæglega.

Sjera Ljótur stóð hugsi um stund. Síðan sagði hann vingjarnlega:

— Þjer gátuð ekki að því gert, að það fór sem fór.

Og þakka yður fyrir hinn góða vilja á því að hjálpa Úlfi — hann þrýsti hönd Ara og sneri sjer að hinum.

Á meðan þessu fór fram hafði Geir Thorgeir fengið lausnarskipunina. Þeir sjera Ljótur kvöddu og flýttu sjer burt.

Á leiðinni til hegningarhússins aftur gengu þeir hvor í sínu lagi sokknir í hugsanir sínar og töluðu ekki saman.

Sjera Ljótur var með allan hugann við það, hvernig Úlfi liði. Vonandi hefði hann ekki tekið sjer atburðinn alt of, alt of nærri sjer .... Vonandi hefði honum ekki fallið allur ketill í eld við að ganga gegnum bæinn — — sem fangi. En hvað það hlaut að hafa verið hræðilegt fyrir veslings, veslings drenginn .... Hugsanir þessar höfðu svo mikil áhrif á hann að hann fann til æ sárari kvíða við að hitta son sinn, þó hann flýtti sjer samt áfram. Til allrar hamingju hafði hann engan grun um, hve illa hafði verið með hann farið.

Geir Thorgeir var hins vegar að hugsa um að eiginlega væri það óhugsað og heimskulegt af sjer að fylgja vini sínum aftur til fangelsisins. Því að eftir á yrði hann — og engum að gagni — að ganga eftir mörgum götum með manni, sem nýlega var ekið gegnum bæinn í drykkjurúta- og afbrotsmannakassa lögreglunnar — og um það vissu sennilega allir, sem á vegi þeirra yrðu. En sjera Ljótur sæi hvað undir byggi, ef hann færi nú frá honum — og það mundi særa hann. Og hann vildi ógjarna auka á harm hans, hann var eflaust nógu þungbær fyrir. Þar að auki blygðaðist hann sín dálítið fyrir þetta og fann að það var að eins ragmensku varkárni. Það gat ekki gert honum neitt, þó hann fylgdist með vini sínum gegnum bæinn, jafnvel þó úrkynja sonur hans væri með þeim — margir

mundu líka álíta það göfuglyndi af hans hendi .... og hann gat sjeð svo um að sjera Ljótur gengi milli sín og Úlfs.

Þeir komu til hegningarhússins og biðu í göngunum um stund meðan fangavörðurinn sótti Úlf inn í fangelsið.

Sjera Ljótur kom auga á son sinn áður en Úlfur sá hann: hann var fölur og þögull, augun blæ- og svipiaus og andlitsdrættirnir einkennilega hörkulegir, og mintist faðir hans þess ekki að hafa sjeð hann þannig áður.

Það var eins og Úlfur þyrfti að hafa stökustu gát á sjálfum sjer frá því honum var ekið þetta, honum fanst hann alt af vera að verða vitlaus — verða vitlaus. Svo áköf áhrif hafði þetta á hann, þetta afskaplega ægilega, sem hann engan grun hafði haft um áður: að vera líkamlega ofurliði borinn.

Hann hrökk við þegar hann kom auga á föður sinn, fangavörðurinn sagði honum að eins að hann væri laus og mætti fara. Það var eins og eitthvað færi smámsaman að rakna í sál hans. Síðustu stundirnar hafði hörkukuldi bundist um hjarta hans eins og hnútur .... nú fór hnúturinn alt í einu að renna — að rakna. Hann hefði hágrátið, ef hann hefði ekki í sömu svifum orðið var við Geir Thorgeir. Ráðherran hafði vikið dálítið frá, sneri bakinu að þeim, til þess að trufla ekki fund feðganna.

Tær tár runnu niður í hið tvískifta, gráa skegg sjera Ljóts, hann gekk á móti syni sínum og gerði það, sem hann hafði ekki gert árum saman, tók höfuð hans milli handa sjer og kysti hann á munninn.

Úlfur snökti ofurlítið og þá var grátkviðu hans lok-

ið. — Honum fanst hann svo glaður og ljett um hjartaræturnar. Einhver einkennileg og honum óskiljanleg tilfinning þess að eitthvað dimt og þungt væri alveg á enda greip hann.

Fangavörðurinn kom undir eins á eftir Úlfi, en meðan þessu fór fram gekk hann að fangelsisdyrunum og opnaði þær. Nú stóð hann kyr og hjelt þeim opnum og beið með lotningu.

Úlfur kastaði kveðju á Geir Thorgeir, en hann virtist ekki ætla að rjetta honum hendina, svo Úlfi fanst hann geta slept því að þakka honum þá hlutdeild, sem hann ef til vill ætti í þessari snöggu lausn sinni.

Síðan fylgdust þeir allir að ofan götuna, niður í miðbæinn og gekk sjera Ljótur milli Úlfs og ráðherrans.

Ekki var margt talað á leiðinni.

Það var eins og bæði Úlfur og sjera Ljótur fyndu á sjer hvað Geir Thorgeir tæki nærri sjer að vera með þeim í dag og hverja fórn hann þættist gjalda með því.

Geir Thorgeir reyndi að halda lifandi einskis nýtri samræðu og tók sjera Ljótur að eins þátt í henni á yfirborðinu og Úlfur alls ekki.

Þeir kvöddu ráðherrann undir eins og því varð komið við — og Úlfur kom því þannig fyrir að ekkert undarlegt þyrfti að virðast, þó þeir ráðherrann tækjust ekki í hendur.

Geir Thorgeir var ljett og hann gekk leiðar sinnar. Hann var feginn að hafa ekki mætt neinum stjórnmálaandstæðingi sínum eða öfundarmanni meðan hann fylgdist með þessari alræmdu, ungu landeyðu, en svo nefndi hann Úlf með sjálfum sjer. Og nú hugsaði hann ekki um annað en að flýta sjer heim til miðdegisverðar, því hann var þegar orðinn heldur seinn fyrir.

Þegar feðgarnir voru orðnir einir, tók sjera Ljótur undir hönd sonar síns. Og þeir leiddust heim á leið, hirtu ekki um hornaugun, er störðu forvitnislega á þá. — Þeir höfðu báðir einkennilega og óskiljanlega tilfinningu þess, að þeim hefði aldrei liðið eins vel saman áður.

## XII.

Margrjet Thorgeir átti ekki marga rólega stund dagana þrjá frá því hún sá götuóeirðirnar og flýtti sjer á eftir fram hjá Úlfi og þorði ekki að heilsa honum — af því að hún var svo æst og enn þá hálfgrátandi — og fór síðan fljótt heim í herbergi sitt og ákvað eftir ákaft sálarstríð að segja honum frá ást sinni þrátt fyrir alt.

Tíminn leið. Og enn þá var þetta ákvörðunin ein.

Á daginn hafði hún enga eirð. Allar hugsanir hennar snerust um þetta eina, hvernig hún gæti náð tali af Úlfi. Og eftir því sem tíminn leið, virtist það erfiðara og erfiðara .... já, nærri ókleift. Og efinn um það að þetta væri ef til vill ekki annað en hugarórar, — fóstur of æstra hugsana, kom nú aftur, ásamt þungri, lamandi sálarþreytu, sem fór sívaxandi og kom af hinum næstum óþolandi spenningi, sem hún var í.

Dagarnir voru henni engin hvíld og næturnar litlu skárri. Þegar henni tókst loksins að sofna að áliðinni nótt, hafði hún erfiða og órólega drauma. Og henni fanst hún jafnvel enn þá þreyttari þegar hún fór á fætur á morgnana, en þegar hún háttaði á kvöldin.

Undir eins daginn eftir að hún tók ákvörðunina um að tala við Úlf, fór hún tvisvar út til þess að hitta hann, um það leyti sem hún vissi að hann kom frá eða fór til stjórnarráðsis. Hún sá honum líka bregða fyrir í bæði skiftin. En undir eins og hún sá hann tilsýndar greip hana svo ákafur hjartsláttur og kvíði um fyrirætlun sína og það hvernig henni gengi að skýra frá þessu og fá hann til þess að skilja sig, að hún í annað sinnið beygði í skyndi inn í þvergötu eina, en flýði í hitt skiftið inn í búð, til þess að verða ekki á vegi hans. Á eftir lá hún sjálfri sjer mjög á hálsi fyrir ragmensku sína, eins og hún komst að orði — var hrygg svo henni lá við örvæntingu það sem eftir var dagsins og varð varla svefns auðið um nóttina.

Daginn eftir fór hún seint á fætur og var mjög höfuðveik. Faðir hennar var farinn ofan í stjórnarráð þegar hún kom til þess að drekka morgunkaffið, en hún varð þess áskynja af samtali móður sinnar og bróður síns, að segja ætti Úlfi upp þá um daginn. Það svifti hana nærri öllum kjarki. Hún sagðist vera höfuðveik, fór aftur upp í herbergi sitt og sat þar lengi dags. Síðan fór hún út aftur .... til þess að vita hvort hún mætti ekki Úlfi. Og hún gekk fram og aftur um göturnar næst veitingahúsinu — gekk og gekk tímunum saman. Loksins kom hún auga á hann og dragnaðist hann með tösku ásamt þremur mönnum öðrum — og sennilega ekki alveg ódrukkinn.

Og hún fór heim, örmagna og örvæntingarþrungin og grjet sig í svefn.

Hún var svo sokkin niður í sínar eigin dreifðu hugsanir og svo þjökuð af þrekleysinu og óvissunni, að dauði móðurbróður hennar hafði engin sjerstök áhrif á

hana. Hún var honum heldur aldrei nákunnug og þótti eiginlega ekki vænt um hann. En henni var ljettir að því að þurfa ekki að dylja það lengur, hve þungt henni var í skapi, en geta nú fullkomlega látið eftir gráti sínum og kvölum. Hún hagnýtti sjer það líka fullkomlega, grjet mikið og örvæntingar-ákaft, en hafði þó nokkurt samviskubit af því að hún vissi að þeir, sem voru henni nánastir, hjeldu að hún grjeti sakir móðurbróður síns.

Þriðja daginn fór hún svo aftur út í þeim ásetningi að leita Úlf uppi — en óviss og reikul í ráði frekar en nokkru sinni áður. Hún fór að sjá það betur og betur, að sig brysti víst þrek, þegar á ætti að herða. Samviskubit kvaldi hana ákaft og hún ásakaði stöðugt sjálfa sig. Í dag fór hún einna helst út til þess að veikja samviskubit sitt. Eiginlega var hún hætt að halda að hún framkvæmdi fyrirætlun sína nokkurn tíma — jafnvel þó hún hitti Úlf. En henni fanst hún þurfa að verða þess viss, að hún gæti það ekki. Og svo hafði hún stöðugt leynda von um að einhver hending ljeði sjer lið.

Þegar hún hafði gengið um stund fram og aftur um göturnar kringum veitingahúsið, mætti hún einni vinstúlkna sinna og stansaði hún hana.

— Nú situr hann þarna uppi og drekkur, sagði vinstúlkan og benti með höfðinu að veitingahúsinu.

— Hver? spurði Margrjet og fann um leið að andlit hennar eldroðnaði.

En vinstúlkan tók ekki eftir því, og Margrjet mundi eftir því að þessi sama vinstúlka talaði alt af mikið um Úlf og leitst víst heldur en ekki vel á hann.

— H v e r? át vinstúlkan eftir henni, auðvitað dóm-

kirkjuprestssonurinn, hver annar svo sem. Þú veitst víst, að hann er rekinn, — þeir geta ekki haft hann lengur í stjórnarráðinu. Nú fer hann víst alveg í hundana. Það er þó leiðinlegt með hann, greyið. Hann er svo laglegur finst mjer.

— Pabbi sagði, að han hefði sjálfur sótt um lausn, svaraði Margrjet og var rórri, er hún sá að vinstúlkan tók ekki eftir að hún brá litum.

Síðan flýtti hún sjer að sveigja talið að einhverju öðru. Þegar hún hafði gengið dálítið með vinstúlkunni, þóttist hún þurfa að heimsækja fjölskyldu, sem hún þekti, kvaddi fljótlega, gekk rakleiðis aftur til veitingahússins — og upp stigann. Á eftir skildi hún ekki hvernig hún hefði haft þor til þess.

En kjarkinn brast líka þegar hún stóð alt í einu fyrir utan dyr hans — og kom eins og til sjálfrar síns. Hvernig hún vissi að herbergi hans væri á öðru lofti beint á móti stiganum, það mundi hún ekki og hugsaði heldur ekkert um það. En nú stóð hún þarna fyrir framan hurð hans og las nafn hans á máðu og bögluðu nafnspjaldi, festu með teiknibólu. Og nú var ekkert nema þessi hurð á milli þeirra.

Hún hlustaði og hlustaði til þess að heyra hvort nokkur væri inni hjá honum. En blóðsláttur hennar suðaði og sauð fyrir eyrum hennar og hún heyrði ekkert nema þetta ruglingslega suð. Og alt í einu var hún ósköp, ósköp kvíðafull. Ef einhver kæmi nú og sæi hana þarna! Hvað ætti hún að gera? .... En hún var næstum eins hrædd við að fara ofan aftur eins og að vera kyr. Því hún sagði við sjálfa sig, að ljeti hún nú undan, væri sennilega öll von úti um það, að hún sigraðist á ragmensku sinni og ótta. Og því stóð hún að eins kyr og átti ekki afl til þess

að hreyfa sig eða taka nokkra ákvörðun. Henni fanst hún hafa staðið þarna stundum saman, þegar hún heyrði alt í einu nokkrum mínútum seinna fótatak í stiganum.

Þegar hún sá hvoru megin drukni maðurinn, sem veggaði upp stigann, ætlaði, fór hún inn í myrkrið í göngunum hinumegin og sneri að honum bakinu, svo að hann sæi ekki framan í hana. Jökul-hrollur fór um hana, þegar hann yrti á hana. Hún stóð skjálfandi og beið þess að honum tækist að ljúka upp dyrunum — þá ætlaði hún að nota tækifærið til þess að skjótast ofan stigann. Því nú var að eins um að gera að komast óþekt í burtu.

Þegar drukni maðurinn hafði drafað lengi við sjálfan sig, lykilinn og hurðina, heyrði hún hann koma nær og berja að dyrum nokkrum — og undir eins á eftir heyrði hún þrútna og hása reiðirödd Úlfs, og þannig var rödd hans víst ávalt er hann hafði drukkið.

Það þaut um hug hennar eins og reiðarslag, að hún hefði verið að því komin að tala við hann um sjálfa sig og heyra hann svara .... með þessari rödd.

Það var eins og hún fyndi að hann sæi hana og þekti.

Og undir eins og hún heyrði, að hann hafði komið manninum inn í herbergi sitt og farið sjálfur með honum, þaut hún ofan stigann, meðvitundarlaus, hrædd og afllaus og úrræðalaus, svo að sál hennar var þreytt og þjökuð. Í göngunum fyrir utan veitingastofudyrnar rakst hún á eina vinnukonuna, feldi hana nærri um koll, en þaut áfram, bað engrar afsökunar og hirti ekkert um hvort stúlkan þekti hana eða ekki. Í svipinn hirti hún ekki hót um hvað hún kynni að halda um þessa truflaðu framkomu og afskaplega flýti. Það var fyrst seinna að það þjáði hana að ofan á aðrar áhyggjur sínar ætti nú sú að bætast, að hún hefði sjest koma hlaupandi ofan veitinga-

hússtigann, þó allir vissu áreiðanlega, að þangað ætti hún ekkert erindi.

Hún hljóp beint heim og upp í herbergi sitt.

Og þar sat hún það sem eftir var dagsins, en grjet ekki og fann eiginlega ekki til kvala — en eins og stirnuð og undarleg kaldaró hvíldi yfir hjarta hennar .... og hún var þrotlaust — þrotlaust þreytt og kærulaus.

Þegar móðir hennar kom til þess að sækja hana til miðdegisverðar, fór hún orðalaust með henni, þó hún fyndi að hún gæti ekkert borðað.

Henni gramdist að sjá grátbólgið andlit móður sinnar og heyra snökt hennar, en á því byrjaði hún þegar hún sá einhvern úr fjölskyldunni, þó ekki væri nema fáeinar mínútur frá því hún skildi við hann síðast. Var nokkur mynd á þessu að móðir hennar, svona stór og sterk, gengi grátandi um, af því að bróðir hennar var dáinn. Svona hafði hún líka grátið systur sína í nokkurn tíma þegar hún dó — og gleymt henni síðan. Nú en þetta var grátur. .... Hún fann til þess með kæruleysislegu ógeði að þessi húmkalda kyrð yrði s i t t sálarástand .... það sem eftir væri æfinnar. Og þó hana væmdi við því annað veifið, fann hún þó hitt til einhvers sem líktist ánægju. Yfir hverju átti að gráta? Mennirnir þjást — þannig er lífið — og deyja — og þá er því lokið .... og þá liði þeim víst betur. En til hvers var að gráta og snökta: Bætti það nokkuð úr skák eða ljetti harmana? Hún fann alt í einu til einhverra yfirburða sinna fram yfir móður sína grátandi — fyrst hún, sem var þó miklu yngri, var samt komin af þeim aldri að hún grjeti og snökti ....

En þessi ósjálfráða hvíld hins ofþreytta hugar hennar í köldu, uppgerðar kæruleysi og stirðnaðri ró, var brátt á enda.

Yfir borðum sagði faðir hennar frá fundum þeirra Úlfs, er hann lá í kassa lögreglunnar, frá heimsókn sinni og sjera Ljóts hjá bæjarfógetanum og því, sem þeir hefðu þar orðið áskynja um orsök fangelsunar Úlfs—og að lokum frá því er þeir vinirnir sóttu Úlf í fangelsið — og frá göngunni gegnum bæinn á eftir. Og hann ljet ekki liggja í láginni að láta á sjer skilja, hvert vináttubragð hann hefði gert sjera Ljóti með því að sýna sig ásamt syni hans eftir slíkt hneyksli.

— En það skal líka vera í síðasta skifti. Hjeðan í frá heilsa jeg honum ekki einu sinni, landeyðunni þeirri arna. Og jeg rjetti honum heldur ekki höndina — alt lætur maður ekki bjóða sjer. Og h a n n vildi Gísli sálugi að við gerðum að alþingismanni! En þar skjátlaðist honum nú heldur en ekki. Og það sagði jeg honum líka, jafnvel þó jeg gæti ekki komið í veg fyrir .... Nú, já, það er nú sama. — — Veslings sjera Ljótur að eiga svona son. Jeg er smeykur, mjög smeykur að það endi alvarlega þetta með Úlf. Þetta er reyndar í fyrsta skifti, sem hann kemst í kunningsskap við lögregluna — en sennilega ekki síðasta skiftið.

Margrjet sat niðurlút og smánartaði í matinn, en gat þó engu kyngt, en nú leit hún alt í einu upp, föl í andliti, og horfði bænaraugum á föður sinn. Tár stóðu í augum hennar og varir hennar skulfu.

— Þú hefur engan rjett til þess að segja þetta, pabbi, sagði hún og röddin var gráttitrandi.

Foreldrar hennar hættu snögglega að borða bæði í einu og horfðu skelfingaraugum á hana. Geir bróðir hennar einn hjelt áfram að borða, þegjandi og vandræðalegur, og leit ekki upp úr disknum.

Bænar og kvíða augu ungu stúlkunnar hvörfluðu nokkr-

um sinnum milli foreldranna og störðu síðan á bróðurinn. Þá var henni allri lokið. Hún greip höndunum fyrir andlit sjer og grjet, þrýsti vasaklútnum krampafast að augum sjer. Það var eins og hún hnigi saman á stólnum og rann hann dálítið frá borðinu við hreyfingu hennar. Einhver þrotlaus einstæðingsskapur og örvænting hvíldi yfir hinum beinvaxna, sterka líkama hennar, þegar hún sat þarna og grjet.

Nú varð löng, kveljandi þögn, og í stóru borðstofunni heyrðist ekkert nema sár grátur Margrjetar. Geir bróðir hennar lagði nú einnig frá sjer hníf og gaffal og sat og starði í gaupnir sjer eða leit einstöku sinum flóttalega á föður sinn og móður — en virtist ekki þora að líta á Margrjeti.

Frú Thorgeir sat og starði á dóttur sína og hörkusvipur var á fallega, unglega andlitinu.

— Hvað á þetta að þýða, Margrjet? spurði hún loksins kuldalega.

Margrjet svaraði ekki undir eins.

En það var augljóst, að hún barðist við að sefa grát sinn svo, að hún gæti talað. Steinhljóð ríkti við borðið meðan þau biðu þess að Margrjet tæki til máls.

Grátur hennar sefaðist smásaman og loksins sagði hún:

— Það var m j e r að kenna að Úlfur reiddist þessum manni .... og barði hann svona mikið.

Augu foreldranna fyltust enn þá meiri skelfingu en áður. Hún varð einnig vör við augnaráð bróður síns, kuldalegt og rannsakandi og með hálfgerðum fyrirlitningarblæ — augnaráð, sem ljet í ljós að honum þætti fyrir því að haggast þyrfti það góða álit, sem hann hefði áður haft á henni.

— Þú hefur þó lagt honum liðsyrði, Geir, sagði hún

alt í einu við bróður sinn, biðjandi og ákærandi í senn. Hún hafði enn þá ekki sigrast að fullu á grátinum.

Geir Thorgeir yngri horfði í gaupnir sjer og svaraði ekki.

— Þú veitst víst varla hvað þú ert að segja, stúlka mín, sagði ráðherrann loksins kuldalega. — Kanske þú vildir vera svo væn að skýra þetta nánar.

Margrjet hætti alt í einu að gráta — það var eins og kuldinn, sem hún kendi alt í kringum sig, legði henni lið.

— Já, jeg skal segja ykkur það alt saman, svaraði hún. — Jeg fór þangað upp ....

Frú Thorgeir æ p t i upp yfir sig. Síðan reyndi hún að standa upp. En hún datt aftur ofan á stólinn og sat kyr og starði skelfingaraugum á dóttur sína.

— Svona, svona. Geir Thorgeir reyndi að stilla konu sína og klappaði fast á handlegg henni. — Lofaðu henni að segja frá þessu áfram. Þetta fer að verða „spennandi“ — rödd hans var vonskuleg og nístandi. — Nú, svo þú fórst þar upp? — — —

Augljós reiði foreldranna stælti Margrjeti.

— Já, jeg fór þangað upp, svaraði hún stillilega — jeg fór þangað upp til þess að segja honum, að mjer þætti vænt um hann.

— Ertu vitlaus, barn! Rödd móður hennar var orðin að ísköldu hvísli.

— Svona, svona. Geir Thorgeir greip í handlegg konu sinnar. — Jæja, jæja, telpan mín. En talaðu dálítið skiljanlegar. Var það Úlfur — eða hinn fyllirafturinn — sem þú ætlaðir að segja, að þjer þ æ t t i v æ n t u m?

— Það var Úlfur, svaraði Margrjet stillilega eins og áður. — En jeg var ekki komin lengra en að hurðinni hjá honum. Þá kom hinn herrann .... Hann sagði dá-

lítið við mig .... það er víst þess vegna sem Úlfur lumbraði svona á honum.

— Nú, jæja. Geir Thorgeir hló kuldahlátri. — Já, þetta er svei mjer skemtilegt! — Hvað var það þá, sem þessi herra sagði við þig? Rödd hans skalf, svo að hann gat varla talað greinilega.

— Jeg veit það ekki, svaraði Margrjet og beit í vasaklút sinn og hjelt áfram að renna kvíðafullum bænaraugum milli þeirra. Það kvaldi hana næstum því allra mest að sjá kuldasvipinn á bróður sínum — hún hafði reitt sig svo fast á hann. En hann virtist ekki vilja hjálpa henni.

— Einmitt, það hefur þá verið eitthvað, sem ekki verður eftir haft. sagði Geir Thorgeir hranalega. Síðan þaut hann upp úr stólnum — hann gat ekki setið kyr lengur — og stansaði við hliðina á stól dóttur sinnar og sökti höndunum í buxnavasana.

— Ertu orðin vitlaus! — rödd hans var reiðþrungin. — Þú mátt vita, stelpuskömm, að jeg á beinlínis í baráttu við sjálfan mig um að láta þig ekki fá líkamlega hegningu — eins og þú ættir skilið. Maður skyldi halda að þú værir ekki fullorðin manneskja, eins og þú líka lætur. En jafnvel þó þjer væri alveg sama, eins og jeg sje að þjer er, þó að þú gerðir heimili foreldra þinna smán, þá finst mjer að þú ættir þó ekki að steypa sjálfri þjer beint í glötun. — Þú ættir að skammast þín! Hann gekk frá henni, hristi höfuðið, nísti saman tönnum og reiðisvipur var á andlitinu.

— Jeg hef nú aldrei á æfi minni heyrt annað eins, sagði hann alt í einu hamslaus af reiði. — Maður skyldi helst halda, að maður væri kominn á vitlausraspítala.

— Og þú! Hann sneri sjer alt í einu að konu sinni

og grjet hún ákaft — þ ú veitst ekkert — og gáir ekki að neinu! .... Geir — hann leit vonskulega á son sinn og barði niður fætinum — Geir er farinn að svalla heldur hressilega. Og Margrjet anar um og gerir það, sem götustelpum einum sæmir. — Hvaðan hafa þá börnin þessar ástríður og tilfinningar — frá m j e r eða m i n n i ætt hafa þau þær ekki.

Frú Thorgeir hætti alt í einu að gráta og þerði augu sín. Andlitssvipur hennar varð kyr og gremjukaldur. Þegar þ e s s i svipur var á því, var hún mjög lík bróður sínum sáluga.

— Jeg veit ekki hvað að þjer gengur, Geir, sagði hún slitrótt, því hikstinn, sem grátinum fylgdi, vildi ekki hætta. — Á nú að kenna m j e r um alla vitleysu krakkanna, og af okkur báðum er það þó j e g, sem ekki hef a l v e g vanrækt uppeldi þeirra. Þú segist aldrei hafa tíma til þess að skifta þjer af þeim .... Jeg þekki þig ekki fyrir sama mann — svona hefur þú aldrei talað áður ....

— Já, það er þá þokkalegt uppeldi, sem þú hefur veitt þeim eða hitt þó heldur, stamaði Geir Thorgeir í reiði sinni — það er þá dálítið til þess að hæla sjer af! Og ekki síst árangrinum .... Mig skyldi svo sem ekki undra, þó þú værir á þeirra bandi ofan á alt annað. Bróðir þinn sýndi það líka á síðkastið að hann hafði dálítið skrítnar skoðanir — það er kanske í ættinni. — — Því hefurðu ekki sjeð um að Margrjet giftist! Eða kanske það sje ætlunin að hún giftist þessum asna og drykkjudóna. — — Jú — bróðir þinn vildi líka gera úr honum alþingismann. Ef til vill leynist eitt af þessum ekki fáu brögðum bróður þíns bak við þetta alt saman.

Frú Thorgeir stóð upp.

— Nú talar þú af þjer, Geir, sagði hún fast og ákveðið — það hefur ekkert komið fyrir, sem ekki má bæta, bætti hún við til þess að sefa hann.

— Nei, ekki annað en það, að dóttir þín hefur komið fram eins og flenna! — Geir Thorgeir skalf og hvæsti orðunum að konu sinni. Hann var smásaman orðinn svo æstur, að hann vissi varla hvað hann sagði. — Og það er hreinasta hending, að hún er ekki þegar orðin ástmey illræmds drykkjuslarkara.

— Segðu nú ekki meira, Geir, sagði frú Thorgeir ákveðin og leit á mann sinn köldum undrunaraugum, eins og hún sæi hann nú í fyrsta skifti. Spiltu nú ekki meiru en nauðsynlegt er með reiði þinni og illum og óstjórnlegum orðum. Það verður áreiðanlega hægt að laga þetta aftur. Jeg hef enn þá ekki mist trúna á það, að Margrjet sje góð og skynsöm stúlka. Og jeg skal tala við hana ....

Hún fór og klappaði á niðurlútt höfuð dóttur sinnar. En hönd hennar skalf alt af greinilega í reiði og æsingu. Enginn innileiki var í atlotum hennar, engin samúð eða skilningur — og nauðalítil, eða þá mjög afskræmd ást, — og Margrjet fann það og hana sveið í hjartað.

— Og jeg get víst talað um fyrir henni, bætti frúin við í huggunarróm. — Er það ekki satt, Grjeta litla, sagði hún skjálfradda og með sviknum uppgerðar hlýleika.

Frú Thorgeir strauk hendinni stöðugt um hár dóttur sinnar, ósjálfrátt og kuldalega. Að lokum gat Margrjet ekki þolað það — hún stóð upp til þess að losna við það að móðir sín kæmi við sig.

Meðan hún sat þarna undir reiðilestri föður síns — og seinna kuldalegu huggunarklappi móður sinnar, þaut hver hugsunin á fætur annari gegnum huga hennar, en

hann var mjög tilfinninganæmur sakir sorgar hennar og sálarstríðs, svo að hugsanirnar urðu nærri að sýnum. Hún fann til þess með skelfingu, hve einmana hún var meðal þessa fólks, þó það hefði til þessa verið henni svo eðlilega nákomið, að milli þeirra gætu engar tilfinningar verið hugsanlegar nema ást og samúð. Hún hafði gert ráð fyrir sjálfsagðri ást foreldra sinna, en hún hrundi eins og spilahús. Hún var alt í einu eins og ókunnug á heimili sínu. Tilfinningar hennar gagnvart foreldrunum .... um þær þorði hún ekki að hugsa í svipinn. En hún sá skelfilega skýrt að hún hafði að eins á yfirborðinu verið tengd þessu fólki, föður sínum, móður og bróður. Alt í einu sáu ógnlostin augu hennar alt miskunnarleysi lífsins, sem engin ást helgar, þó hún fyrirgefi alt og skilji alt, kendi allan nístandi kulda þess, skilningsvana eigingirni og hyldjúpan tómleik þess.

Þarna sat hún og henni hafði aldrei liðið eins illa. Og faðir hennar, móðir og bróðir, þau skildu hana ekki, skildu ekki að henni leið illa .... og fundu sennilega ekki minstu hvöt til þess að rjetta henni hjálparhönd — og allra síst sjálfrar hennar vegna .... Enginn hjálpaði henni .... Foreldrar hennar auðsýndu henni ást og umhyggju meðan hún var eftir þeirra skapi. Og nú? — n ú? .... Nú stóðu þau þarna sem fjendur hennar og dómarar — hún fann meira að segja fjandskapinn í skapsmunum þeirra. Þau gerðu ekki einu sinni allra minstu tilraun til þess að reyna að skilja hana. Þau skömmuðust að eins og ávítuðu hana .... Og svo hjeldu þau kanske sjálf að þau gerðu það af ást á henni.

Þegar hún stóð upp, voru hnje hennar svo örmagna, að henni fanst hún varla geta staðið.

Og hún fann jafnvel freistingu til þess að gefast upp,

beygja sig undir það, sem þ a u hjeldu að væri ást — láta leiðast, huggast og sannfærast. Væri það ekki ákafur ljettir, að hætta við alla eiginábyrgð og breyta að eins eins og þ a u — foreldrar hennar, vildu að hún breytti? .... Það gerðu líklega flestir aðrir. Og gengi þeim ekki vel? .... Já, g l e ð i n þeirra .... og g æ f a n væri líklega ekki á marga fiska. Og nú vaknaði hjá henni hugmyndin, sem hún til þessa hafði óafvitandi haft um sambúð og heimilislíf flestra manna: að þeir lifðu erfiðu, ánægjusnauðu og innantómu lífi.

Og alt í einu sá hún greinilega kvalaandlit Úlfs .... Hún fann það ákveðnara en nokkru sinni áður, að hjá honum átti hún heima, að þau voru bæði eitt, voru bæði óaðskiljanlega eitt gegnum kvöl og gleði. Og e f henni skjátlaðist í þessu — datt henni alt í einu í hug — þá átti hún hvergi heima ....

Þegar hún var staðin upp, stóð hún stundarkorn kyr og horfði angurværum einstæðingsaugum á þau til skiftis.

Þá tók móðir hennar alt í einu til máls og henni virtist hún heyra rödd hennar langt úr fjarska.

— Biddu nú pabba þinn fyrirgefningar, Grjeta. Og komdu svo með mjer upp í herbergið þitt.

Margrjet hristi höfuðið þreytulega en óþokandi ákveðin, og svo heyrði hún alt í einu til sjálfrar sín — en þekti ekki rödd sína aftur:

— Nei, mamma .... Jeg þarf ekki að biðja ykkur fyrirgefningar á neinu. ....

Geir Thorgeir hægði hinn hraða gang sinn, er hann heyrði orð dóttur sinnar. Síðan kom algerð þögn og virtist ætla að verða þrotlaus.

Margrjet stóð kyr og vafði órólega sundur og saman

vasaklút sinn, — þrýsti saman fingrunum — og fór svo aftur að fitla við vasaklútinn.

— Hvað gengur að þjer, barn? sagði faðir hennar loksins lágt og Margrjet fann kvíðablæ bak við röddina.

— Jeg elska Úlf, pabbi, svaraði hún og það var eins og henni ykist kjarkur við að heyra styrkleik raddar sinnar. — Jeg veit ekki af hverju jeg er að segja ykkur það, því þið skiljið það samt sem áður ekki — og kærið ykkur ekkert um að skilja það .... En nú fer jeg til hans og verð hjá honum.

— Þú ferð til hans og verður hjá honum, tók faðir hennar upp eftir henni og hló kaldskjálfandi, en þó hálf hikandi hæðnishlátri. — Jú, jeg held að hann taki á móti þjer — svona eina nótt .... Og yrkir vísu um þig á eftir. — Er hann ekki vanur að fara svona að því. — — En jeg læt þig vita, að við afleiðingunum verður þú að taka sjálf. Þetta heimili er að minsta kosti lokað lagskonu Úlfs Ljótssonar. — Skilur þú mig?

— Já .... jeg skil, að nú á jeg hvergi heima.

Hún rendi augunum í síðasta skifti til foreldra sinna Síðan horfði hún á bróður sinn. Hann stóð vandræðalegur og það var eins og hann blygaðist sín fyrir hana og þannig hafði hann staðið allan tímann og ekki hjálpað henni með einu orði eða minsta augnaráði.

Síðan sneri hún sjer rólega við og gekk hægt til dyranna.

Frú Thorgeir æddi á eftir henni.

— Grjeta! kveinaði hún grátandi og greip í handlegg dóttur sinnar og hristi hann og þrýsti honum í angist sinni. — Veitstu þá ekki hvað þú segir og gerir, barn? Ætlar þú að fara svona frá okkur? Ætlar þú að baka okkur þessa sorg?

— Það er ekki til neins mamma, svaraði Margrjet rólega. — Jeg get ekki verið hjerna lengur .... Ykkur þykir ekki vænt um mig.

Geir Thorgeir gekk hratt til þeirra og lagði hönd sína ákveðinn á herðar konu sinni.

— Látt' ana fara, sagði hann hörkulega.

Móðir hennar slepti henni — og hún fór .... opnaði dyrnar hægt — ljet þær hljóðlaust aftur á eftir sjer.

Um leið og hún ljet aftur dyrnar heyrði hún móður sína æpa upp yfir sig í krampagrátskasti. Svo heyrði hún nokkur reiðiorð til föður síns.

Hún fór í yfirhöfn sína, skjálfhent og í æsingarkendum flýti.

Og hún hljóp næstum því út um útidyrnar, eins og hún óttaðist að verða stönsuð á síðustu stundu — — eða hræddist að hún yrði ofurliði borin af ragmenskuástríðu sinni til þess að halla sjer að því, sem vanalegt var, eða kvíðanum fyrir því óþekta, sem hún steypti sjer út í.

## XIII.

Sjera Ljóti og syni hans fanst sem þeir hefðu nálgast hvor annan meira en nokkru sinni áður þegar þeir leiddust orðalaust heim til sín. En hvorugum þeirra var enn þá vel ljóst, hvernig á þessari tilfinningu stæði. Þeir voru báðir í einkennilega glöðu og ljettu skapi, þó það hjá sjera Ljóti blandaðist einhverjum óvissu kvíða, sem þó var ekki óþægilegur að öllu leyti. Honum var enn þá ekki fullljóst, h v a ð fyrir son sinn hefði komið — vissi það eitt, að eitthvað hafði komið fyrir, að einhver

breyting var á orðin — og það breyting, sem fært hafði þá nær hvorn öðrum. En í hjarta sjer var hann nú öruggari um son sinn en nokkru sinni áður.

Fyltir og stæltir þessu jafnaðaröryggi komu þeir að hinu litla, tvílyfta húsi dómkirkjuprestsins.

Ráðskonan beið þeirra með matinn. Þeir settust undir eins að snæðingi og borðuðu fljótlega og þögulir, eins og þeir þyrftu að ljúka því sem fyrst af.

Þegar feðgarnir voru orðnir einir sagði sjera Ljótur og settist í legubekkshornið sitt:

— Jæja, drengur minn — orð hans voru mjúk og nærgætnisleg — það gleður mig að þetta leiðinlega óhapp, því þannig vil jeg helst nefna það, sem fyrir hefur komið — hefur ekki alveg rænt þig kjarkinum.

Úlfur gekk fram og aftur og neri saman höndum. Hann svaraði ekki undir eins.

Svo settist hann alt í einu í stól nálægt föður sínum, hallaði sjer fram, studdi olnbogunum á knjen og sagði lágt og slitrótt:

— Jeg skil enn þá ekki, að jeg skyldi ekki verða vitlaus. — — Þegar þeir reyrðu mig fastan í kassann og skeltu lokinu yfir .... já, jeg hjelt að jeg mundi deyja, pabbi. Mjer finst það reyndar undarlegt, að við skulum lifa slíkt af — svona tilgangslaust. Því við erum næstum ekki menn lengur, þegar þetta hefur komið fyrir okkur .... þó ekki sje nema finna kalt járnið á höndum sjer — — þá er eins og eitthvað bresti innan í manni.

— Reyrðu þig fastan í kassann? át sjera Ljótur eftir og lækkaði hása röddina og orðin eyddust nærri. — Notuðu þeir kassann?

— Já, kassann og vagninn. Kveljandi kyrð var yfir rödd Úlfs og nísti hún hjarta föður hans. — En jeg

hafði barist um, bætti hann við og fanst hann eins og þurfa að afsaka lögregluþjónana.

Löng þögn.

Úlfur stóð upp og fór aftur að ganga um gólf og núa höndum.

Augu sjera Ljóts fylgdu honum í laumi, þau voru full kvíðandi umhyggju og ástþrunginni samúð.

— En nú er þetta úti, sagði Úlfur alt í einu ákveðinn og stansaði fyrir framan föður sinn. — Nú er það úti, pabbi, sagði hann aftur ástúðlega og mjúklega og bað föður sinn fyrirgefningar um leið.

— Hvað er úti, drengur minn? spurði sjera Ljótur og horfði á son sinn og reyndi að gera augnaráðið ákveðið, þó undrun brygði fyrir í því — og einhverjum ótta.

— Jeg á við það, að það er úti, að jeg drekki mig fullan. Jeg þarf þess ekki lengur. Og nú vil jeg það ekki lengur.

Sjera Ljótur þagði og leit undan.

— Skilurðu mig ekki, pabbi? spurði Úlfur næstum í bænarróm.

— Jú, drengur minn, svaraði sjera Ljótur hægt. En er það .... er það mál — sem þú getur nokkuð ráðið við?

— Já, svaraði Úlfur eindregið. Og eftir nokkra þögn bætti hann við: Þyki þjer ekki vænt um það, pabbi?

Sjera Ljótur sat kyr um stund og starði fram fyrir sig og svaraði ekki.

— Jeg veit ekki, sagði hann loksins hægt — það er einlægt svo erfitt að fylgjast með þegar einhver verður alt í einu eins og annar maður. Jeg er undarlega kvíðinn, Úlfur .... Jeg verð að hafa dálítinn tíma til þess að átta mig á því að þetta hafi haft svo djúp áhrif á þig að

— að jeg verði að koma öðru vísi fram hjer eftir þegar þú átt í hlut. — Og mjer finst jeg líka þurfa að fá að vita miklu meira .... Reiðstu mjer ekki, Úlfur — — en þú vilt víst ekki segja mjer, hver stúlkan var, sem — sem .... Já, þú veitst við hvað jeg á.

Úlfur var hugsi — og dálítið órór.

— Nú, svo þú veitst þetta, pabbi? .... Já, jeg veit við hvað þú átt — — Jú, jeg skal víst segja þjer það. — Það var Margrjet Thorgeir.

Sjera Ljótur leit á son sinn og í fyrsta skifti sem Úlfur mundi eftir, las hann í þeim eitthvað þungt og ásakandi. Þetta augnaráð spurði öllum orðum greinilegar.

— Já, það er ekki meira um það, pabbi, svaraði Úlfur augnaráði föður síns. Hún stóð úti í göngunum þegar jeg opnaði herbergisdyrnar mínar, því Ari Sigurðsson barði og bað mig að opna sínar dyr — hann gat það ekki sjálfur. Hún stóð inni í hálfdimmum ganginum og sneri baki að okkur. Jeg hugsaði ekki um annað en það, að Ari mætti ekki koma auga á hana og skaut honum þess vegna á undan mjer inn göngin og inn í herbergið sitt og fór sjálfur með honum, víst bæði til þess að forðast hana og eins til þess að hann kæmist ekki út aftur. En þá sagði hann dálítið um hana. Nú, en það er nú sama um það .... Og þá barði jeg hann. Það var ekki af því að jeg tryði því sem hann sagði. Mjer datt það einu sinni aldrei í hug. En það var að eins af því að hann sagði það, og af því það var hún, sem hann sagði það um .... Jeg var drukkinn — og ruglaður líka. — — Jeg ætlaði ekki að trúa mínum eigin augum, þegar jeg sá hana standa þarna — því nokkrum dögum áður gekk hún fram hjá mjer og vildi ekki heilsa mjer.

Sjera Ljótur andaði þungan.

— Dálítill grunsemissnefill er þó í framkomu þinni.

— Jeg held næstum því að mjer þyki eins vænt um Margrjeti og þig, Úlfur, þó hún sje ekki mitt barn. Jeg hjelt að þú þektir hana nóg til þess að vita, að ekkert getur rjettlætt það, að gruna hana. Jeg hjelt að þú hefðir þetta og því líkt alt á tilfinningunni, Úlfur. Blærinn á rödd sjera Ljóts var hrygðarlegur og ástúðlega ávítandi.

— Þetta er rjett hjá þjer, pabbi, svaraði Úlfur angurvært. Þó jeg viti og vissi undir eins þá — að maðurinn laug, bærði þó þessi grunsemissnefill á sjer, sem við ráðum ekki við, sem við vitum og finnum að á engan rjett á sjer, þetta sem er grunur að okkur nauðugum og þess vegna í rauninni enginn grunur. Þú verður að minnast þess að jeg er ekki eins og þið — eins og þú og hún, já, — jeg hef það á tilfinningunni, pabbi, að hún líkist þjer meira en nokkrum öðrum. Þjer getur aldrei orðið eins í skapi eins og mjer varð, þegar jeg heyrði þessi orð um hana — og þess vegna skilur þú heldur ekki þetta til fullnustu. — Mjer fanst þetta alt svo svart og svívirðilegt. Mjer var hugsunin ein — það eitt, að hægt væri að segja slíkt líkt og ofbeldisverk. Jeg var æstur og drukkinn .... Og það var eins og líf mitt lægi við að berja hann — berja hann eins og fisk. En mjer hefur dottið í hug að þannig hefði jeg ef til vill ekki hugsað og komið fram, ef jeg hefði verið ódrukkinn. Og jeg ætla aldrei að drekka mig fullan oftar, af því að nú er svo komið, að þá hef jeg ekki vald yfir sjálfum mjer.

Sjera Ljótur andvarpaði þnugan.

— Já, já, drengur minn — jeg játa fúslega, að þú hef-

ur aldrei gengið á bak orða þinna. Það hefur stöðugt verið stolt mitt og gleði. Það hefur verið mjer mikil, mikil huggun, Úlfur — stutt mig marga þunga stund. Og þess vegna ætla jeg að biðja þig að lofa aldrei neinu óhugsað.

Úlfur brá litum.

— Það er ekkert undarlegt, þó þú sjert loksins farinn að missa traustið á mjer, pabbi, svaraði hann þungt og þreytulega. Loforð mitt var ekki óhugsað. En það er eins og orð þín lami mig.

— Jeg missi aldrei traustið á þjer, Úlfur, svaraði sjera Ljótur ákveðið og ástúðlega — jeg þekki þig alt of vel til þess og skil þig alt of vel. — Jeg sje eftir því sem jeg sagði. En það er eins og jeg hafi enn þá ekki áttað mig á því, að þú sjert svo gerbreyttur sem þú hlýtur að vera fyrst þjer finst þetta loforð svona sjálfsagt og eðlilegt. En, Úlfur, jeg veit, að þú ert breyttur. Og jeg veit, að þetta er þjer alvara, og að þú heldur loforð þitt.

Úlfur leit þakklætisaugum á föður sinn. Hann var farinn að ganga rólega og reglulega um gólfið. Hann fann til friðar í sál sinni, sem hann hafði aldrei fundið áður. Hin leynda og sjálfum honum óþekta ástæða þess og allrar breytingar hans, var að nú hafði hann vissu fyrir því að Margrjet elskaði hann. Þessi hugsun þorði ekki að bæra á sjer enn þá — en var sem hulin hamingja og fylti sál hans friði og gleði. Og þegar hann fann til afleiðinganna, en þekti ekki orsakirnar, hjelt hann að það, sem gerði sjer svo ljett í skapi væri ákvörðunin um það, að nota sjer nú tilboð vinar síns Eldjárns skipstjóra og gerast háseti á skútu hans.

En sjera Ljótur gat ekki skilið hvernig á því stóð að

Úlfur mintist ekki einu orði á framtíð sína, og til þess að bæla niður kvíðann, sem ólgaði í sál hans, varð hann ávalt að grípa til öryggistilfinningar sinnar gagnvart syni sínum, þó hann skildi hana ekki. Til þess að binda enda á þetta var hvað eftir annað að honum komið að spyrja hvort hann ætlaði nú að byrja á bókinni, sem þeir hefðu minst á, eða hvort hann hefði hugsað sjer eitthvað annað. En hann vildi heldur að sonur sinn bryti upp á því máli.

Alt í einu stansaði Úlfur.

— Og nú, pabbi, sagði hann ákveðinn og ánægjulega, nú fer jeg að vinna með höndunum.

Sjera Ljótur leit á son sinn með undrunaránægju — honum datt undir eins í hug að þarna hefði sonur sinn einmitt hitt naglann á höfuðið.

Í þessum svifum var barið hægt að dyrum. Þeir litu þangað báðir en svöruðu ekki. Aftur var barið, hægt eins og áður — og dyrnar opnuðust og Margrjet Thorgeir gekk hægt inn í stofuna.

— Gott kvöld, sagði hún svo að varla heyrðist og á rödd hennar var auðheyrð áköf geðshræring og einhver hrygð. — Jeg bað stúlkuna um leyfi til þess að fara beint inn.

Hún leit bænaraugum á Úlf, þrungnum sárri ást og angurværu óttaleysi.

Gleðin við komu Margrjetar bar Úlf alveg ofurliði. Hann stóð kyr í sömu sporum og gat ekki hreyft legg eða lið. Hamingjan kom svo óvænt og ákaft til hans, að við lá að hjarta hans brysti. Það var eins og hann þyrfti að veita viðnám með því að grípa undir eins til efans. — Þetta getur ekki verið, hugsaði hann — að hún sje

að koma til mín? Það hlýtur að vera draumur einn. Bráðum vaknar þú — og þá er hún farin.

Hann fylgdist með því sem gerðist eins og í draumi. Hann sá föður sinn standa fljótt upp úr sófahorninu og ganga á móti Margrjeti, sá hann kyssa á enni hennar og vissi að hann var í of mikilli geðshræringu til þess að geta talað — og sá táraglampa bregða fyrir í augum hans þegar hann slepti henni og flýtti sjer inn í skrifstofu sína og lokaði dyrunum á eftir sjer.

Úlfur stóð kyr enn um stund.

Síðan gekk hann fljótt til Margrjetar, en hún stóð niðurlút en leit nú á hann þegar hún heyrði hann koma — hún rjetti honum báðar hendur sínar. Hann vaknaði ekki. Hann fann þær, þær voru þarna, hann hjelt um þær, og fann til þeirra.

— Margrjet, ert það þú! hvíslaði hann titrandi og þrýsti höndum hennar milli skjálfandi fingra sjer.

— Já, nú er jeg komin til þín, Úlfur, hvíslaði hún aftur hægt og leit um leið á hann stóru, skínandi augunum hlýlega og vingjanlega. Hann hafði aldrei vitað, að hún var svona falleg: hann horfði á mikla, dökka hárið, sem vafðist um höfuðið, hreinu, fögru andlitsdrættina og djúpu, góðvildar- og ástaraugun.

Og meðan hann stóð þarna og hjelt í hendur hennar og rjeð ekki við skjálftann, sem hristi allan líkama hans — sá hann sjálfan sig alt í einu — hjá henni: fann ákaft til þess, hve laus og ljettur hann var fyrir — fanst hann hálfu minni maður fyrir veikleika lyndislags síns — helmingi saurugri af verkum sínum — hálfu vesælli í trúarfestuskorti sínum, skorti sínum á því að geta þolað með gleði — þjáðst — beðið .... ákafar en

nokkru sinni áður fanst honum hann vera ræfill — alls óverður maður.

Og hann spurði lágt, sakir iðrunar þeirrar og örvæntingar, sem fylti sál hans:

— Ertu ekki hrædd um að þú komir of seint, Margrjet?

— Ef þú að eins elskar mig, Úlfur, þá get jeg aldrei komið of seint, svaraði hún og grátur hamingjunnar og kvalanna í sál hennar varð hljómbotn að baki orða hennar og gaf þeim þrótt og fegurð.

En hún þ e k k i r þig ekki þaut kveljandi um huga Úlfs. — Hún veit ekki um alt, sem fyrir þig hefur komið — veit ekki hvernig þú ert í raun og veru. En frá því má til að segja ....

— Margrjet — — veitst þú ....

Orðin dóu á vörum hans.

— Jeg veit það alt, sagði hún og þróttmikil blíða var í rödd hennar en ekki snefill af ávítun.

— Mjer finst það eiginlega vera miklu meira mjer að kenna en þjer, hjelt hún áfram fast og blíðlega eins og áður. Þess vegna er jeg komin. Og nú verður þú að reyna að fyrirgefa mjer, Úlfur.

Úlfur vaggaði höfðinu.

— Jeg að fyrirgefa þjer? .... Þú mátt ekki hæða mig, Margrjet. Jeg þarf ekkert að fyrirgefa þjer — en þarf því meira að biðja þig fyrirgefningar — — Og svo er svo margt, margt annað — ýmislegt þar sem engin fyrirgefning stoðar — af því að því verður ekki við hjálpað, eins og það, að jeg er algerlega óþarfur og einskis nýtur maður. Og það að jeg hef enga trú á því lengur, að jeg eigi heima í þeirri stjett þjóðfjelagsins, sem nám mitt skipar mjer í og þú átt heima í eftir ætt

þinni og uppeldi. Jeg hef hugsað mjer að byrja að vinna útivinnu. Og ef það tekst ekki — ef jeg get ekki einu sinni komið að notum sem verkamaður — þá finst mjer lífið enga þörf hafa á mjer. En jeg skal reyna það. Og jeg ætla að byrja sem háseti á fiskiskútu, Margrjet.

— Þú veitst sjálfur best um þetta alt, svaraði Margrjet örugg. Jeg er ánægð megi jeg að eins vera hjá þjer og vera þín alt af, alt af, Úlfur. — En jeg held að jeg verði ósköp hrædd þegar þú ert úti á sjó.

— Er það eini kvíðboginn, sem þú berð fyrir því að verða verkamanns kona?

— Þú heldur víst ekki að jeg láti mig nokkru skifta hvað þú ert. Mjer ertu að eins Úlfur — og getur aldrei orðið annað — maðurinn, sem jeg á heima hjá — maðurinn minn. Er það ekki undarlegt, Úlfur, að vita það alt í einu? Mjer finst alt verða öðru vísi. Enginn efi er lengur — og lífið verður svo blátt áfram og eðlilegt. Jeg hef alt af fundið það greinilega, að hjá þjer einum ætti jeg heima, að hjá þjer einum væri jeg verulega glöð og hamingjusöm. — Hún gekk fastar að honum: Og nú ert þú minn, Úlfur.

Úlfur bar hendur hennar, hvora á eftir annari, að vörum sjer og kysti þær lengi.

— Mjer finst jeg ekki geta hugsað til þess að líta af þjer augunum nokkru sinni framar, sagði hann lágt og innilega.

— Það er víst að eins fyrst að manni finst það, meðan maður þorir ekki almennilega að treysta þessari óskiljanlegu hamingju, þorir ekki að trúa því að maður eigi hvort annað alt af hjeðan í frá, svaraði Margrjet hrærð. Seinna sjerðu, að við erum alt af hvort öðru nálæg — jafnvel þó við sjeum ekki saman. Já, jafnvel þó annað

hvort okkar lifi ekki lengur, sagði hún grátandi — því svona held jeg að maður finni það.

Úlfur kysti tárin af augum hennar.

— En alt, sem jeg hef brotið á móti þjer og móti sjálfum mjer .... móti ást okkar, Margrjet? spurði hann og andaði þungan.

— Sökin er okkar beggja — og þá er það engin sök.

— Getur þú þá gleymt öllu — fyrirgefið alt?

Margrjet hallaði sjer að honum.

— Jeg finn svo vel, Úlfur, að nú getur ekkert verið mjer sorgarefni framar — nema ef þú hættir að elska mig.

Úlfur hallaði vanga sínum að hári hennar.

— Þú ert lík honum pabba, Margrjet, sagði hann og í röddinni var sambland sorgar og hamingju. Þið eruð bæði gagntekin helgum hreinleik, en hann er hið fagra mark lífsins og eiginlegi tilgangur, að jeg held. Ykkur getur ekkert saurgað eða rýrt. — — En jeg er ekki svona, Margrjet. Jeg er úr samsettara málmi — ryð og sori festist við mig. Það er eins og alt af þurfi að vera að fága mig og fegra .... Og lífið, Margrjet, — lífið getur ekki gert úr mjer góð-málm.

— Við hvað áttu? spurði Margrjet og kvíðablær var á röddinni, og þegar hann svaraði ekki undir eins hjelt hún áfram: — Jeg veit ekki við hvað þú átt, Úlfur. En jeg held að þú gerir of mikið úr þessu á báða bóga. Mitt líf á sjer ekkert annað mark og mið en það, að fá að vera hjá þjer og vera þín. Og síðan að lifa og vera ánægð. Jeg hef alt af vitað það, að svona væri það og ætti að vera.

Stutt þögn.

— Þú verður að svara mjer dálitlu ,Margrjet — dálitlu,

sem lengi hefur kvalið mig og sem mjer finst að jeg verði að fá að vita .... Hvers vegna voru brjefin, sem þú skrifaðir mjer á árunum svona köld — og svona blælaus?

Margrjet vafði sig grátandi að honum. Hann tók báðum handleggjunum utan um hana, en losaði annan undir eins og fór að strjúka mikla svarta hárið. Honum fanst það óskiljanleg hamingja að geta gert það og mega gera það.

— Jeg veit það ekki, Úlfur, svaraði Margrjet, þegar hún gat komið nokkru orði upp fyrir gráti. — Það er svo hryggilegt að hugsa til þess. Því þetta er víst alt því að kenna. Voru brjefin mín virkilega svona? .... Já, jeg þorði ekki að láta á neinu bera — það var eins og jeg gæti það ekki. Þú verður að fyrirgefa mjer það, Úlfur.

— Jeg hefði átt að skilja það — sagði Úlfur og rödd hans kafnaði í gráti.

Þau stóðu lengi í föstum faðmlögum og grjetu, grjetu burtu allri sorg og misskilningi þessara erfiðu ára, grjetu burt öllum hörmum huga síns .... og grjetu líka af því að hin óskiljanlega hamingja lífsins streymdi inn í hjörtu þeirra.

## XIV.

Margrjet sagði Úlfi frá skilnaðinum við heimili sitt og Úlfur fjelst á það að fyrst hún væri svo hugrökk að vilja ganga með honum að þeim kjörum, sem honum væri kleift að bjóða henni, þá væri best, að þau giftust eins fljótt og auðið væri. Daginn eftir var sunnudagur

og þá gætu þau látið lýsa — og eftir þrjár vikur væru þau hjón.

— Þetta er nærri því eins og þegar við sátum saman í rökkrinu þegar við vorum börn og bygðum skýjaborgir, sagði Úlfur ánægjulega. Er það ekki eins og æfintýri að við skulum bráðum verða hjón, Margrjet. Óskiljanlegt er að eins það, að æfintýrið getur orðið veruleiki. Það er nærri því óskiljanlegt, að lífið geti verið svona fallegt .... svo fallegt að hver draumur og þrá fölnar við hlið veruleikans sjálfs.

Þau skýrðu sjera Ljóti frá málavöxtum — og Úlfur sagði föður sínum í fyrsta skifti frá því, að hann ætlaði að gerast sjómaður.

Sjera Ljótur hrærðist mjög. En bæði Margrjet og Úlfur tóku eftir því, að hann var eitthvað dálítið angurvær og utan við sig og það hrygði þau bæði nokkuð, því þau skyldu það svo, að hann treysti því ekki að þeim vegnaði vel — eða væri ef til vill ekki alveg ánægður.

Margrjet mintist varlega á þetta og fas sjera Ljóts breyttist undir eins: Hvert honum leiddist að eiga hana fyrir tengdadóttur? — Nei — og þau gætu reitt sig á hann og hans aðstoð í einu og öllu, sagði hann ákveðinn og hrærður. En áður en hann lofaði að gifta þau — án samþykkis foreldra hennar, ætlaði hann hvað sem í skærist að reyna að leita um sættir.

Margrjet bað hann að gera það ekki. Hún sagðist vita það fyrirfram að það yrði árangurslaust. Það yrði til þess eins að auka á harminn.

En sjera Ljótur sat við sinn keip.

Ef foreldrar þínir vilja ekki þoka neitt, sagði hann blíðlega — þá verður þú vitanlega hjerna hjá mjer, því þú ert barnið mitt alveg eins og Úlfur. En jeg er

sannfærður um, að þetta er alt misskilningi að kenna. Og jeg verð að minsta kosti að tala við foreldra þína — það er skylda mín. Og það er ekki vert að fresta því. Jeg get alveg eins gert það undir eins. Þá er því lokið. Og þá getum við kanske sofið rólega í nótt. —

Geir Thorgeir tók fremur kuldalega á móti sjera Ljóti. Í framkomu hans var eitthvert tortrygnis-fálæti, svo sjera Ljót setti hljóðan.

Sjera Ljótur áleit best að bæði hjónin væru viðstödd samtalið, sem í vændum var, og spurði því eftir konu hans.

Geir Thorgeir svaraði kuldalega að kona sín væri ekki heima. Það særði sjera Ljót enn þá meira að vinur hans skyldi hugsunarlaust bregða fyrir sig svo augljósum ósannindum — því vitanlega var frúin ekki farin út eftir annað eins uppþot og orðið hafði þar um kvöldið.

Yfirleitt var eitthvað nýtt í framkomu Geirs Thorgeir og honum ólíkt, og gerði það sjera Ljóti erfitt fyrir að byrja á erindinu. Hinn augljósi fjandskapur í framkomu vinar hans hafði ill áhrif á hann. Hann gat ekki losnað við þá hugsun, að hann hefði brotist inn á stað, sem hann ætti ekkert erindi til og væri ekki velkominn á, — já, honum fanst hann jafnvel drýgja glæp gagnvart heimili og fjölskyldu vinar síns.

Og það var þessi tilfinning, sem áhrif hafði á orð hans og varð þess valdandi að hann talaði eins og raun varð á.

— Jeg kem til þess að segja þjer, að þú þarft ekki að bera neinn kvíðboga fyrir dóttur þinni, Geir, sagði hann og það var næstum afsökunarblær á röddinni.

— Það gleður mig, svaraði Geir Thorgeir þurlega. —

En það hefði glatt mig enn þá meira, ef þú hefðir komið með hana hingað. Því eftir þessu er hún hjá þjer,

— Já, svaraði sjera Ljótur með gætinni festu — og jeg hef boðið henni að vera þangað til þessi misskilningur við heimili hennar er leiðrjettur.

— Einmitt, svo þú hefur boðið henni það? — Já, jeg þekki þetta umburðarlyndi þitt. Rödd Geirs Thorgeir var kaldhæðnisleg. — En mjer vitanlega er hjer ekki um neinn misskilning að ræða. Margrjet hefur yfirgefið heimili sitt í beinni uppreisn gegn okkur, foreldurum sínum. Jeg geri ráð fyrir að þú vitir hvers vegna? .... Einmitt já. — Jæja, ef þú ljærð henni húsaskjól, þá gerir þú það á sjálfs þín ábyrgð, en ekki eftir neinu vinsamlegu samkomulagi við okkur.

— Þjer getur þó tæplega verið alvara, Geir, sagði sjera Ljótur og reyndi vingjarnlega að tala um fyrir honum — að ætla að hrekja frá þjer dóttur þína af því að hún, sem nú er fullorðin kona, spilar á eigin spýtur? Það er harka — það er himinhrópandi órjettlæti. Þú ættir miklu fremur að styðja hana og styrkja. Hún á það skilið, Geir. Jeg skil alls ekki hvernig þú getur tekið þessu svona kuldalega og harðneskjulega. Hvað ætlast þú eiginlega fyrir, Geir?

— Já, jeg mætti líklega spyrja þig hins sama, svaraði Geir Thorgeir og átti mjög erfitt með að stilla svo við hóf að orð sín yrðu sæmilega róleg — þú ætlar kanske allra vinsamlegast að viðurkenna hana sem .... við skulum segja vinkonu sonar þíns? Það ætla jeg ekki að gera. Þú ætlar vitanlega að skjóta skjólshúsi yfir hana „sem slíka“. Því hún fór víst til sonar þíns, er ekki svo? — til þessa .... þessa .... Já, það var

einstaklega fallega gert af þjer! Og það er víst orðinn þjer vani að umbera alt. — En þú um það.

Geir Thorgeir var staðinn upp og gekk æstur fram og aftur.

Sjera Ljótur horfði á eftir honum þungum sorgaraugum.

— Margrjet og Úlfur hafa beðið mig að lýsa undir eins á morgun, sagði hann með sömu ákveðnu en þó vingjarnlegu fortöluröddinni og áður. — Þau ætla að giftast undir eins og auðið verður. En áður en jeg vildi lofa þeim nokkru, eða yfirleitt taka ákveðna afstöðu til málsins, ætlaði jeg að tala við þig, Geir — og helst hefði jeg viljað tala við þig og konu þína í einu.

— Nú, svo þú vildir það þó — jeg er þjer mjög þakklátur, sagði Geir Thorgeir og hló vonskuhlátri. Nú, einmitt, svo þau ætla að giftast. Sjáum til .... En er leyfilegt að spyrja upp á hvað þau ætla að gifta sig?

— Já, því ekki það, svaraði sjera Ljótur með sömu hæglátu festunni, þó mjer finnist það reyndar koma þeim einum við. Þau búa um sig eftir efnum og ástæðum. Þau hafa lítið um sig fyrst, en eru bæði ásátt um að þannig vilji þau hafa það og öðruvísi ekki og það getum við fyrir okkar leyti látið okkur nægja og verið ánægð með. Eftir svo sem mánaðar tíma verður Úlfur háseti á fiskiskútu. Og jeg sje ekki betur en að þau hafi rjett fyrir sjer: þau geta líklega líka komist af með það, sem þúsundir annara manna geta lifað á. Þau eru ekki börn lengur. Þau eru fullorðin og verða sjálf að ráða gerðum sínum.

Geir Thorgeir nam staðar og stóð kyr og starði uppspertum augum á sjera Ljót.

— Já — ef það væri ekki geðveiki í ættinni, þá játa

jeg fúslega að mig mundi undra að heyra að fullorðið og að öðru leyti skynsamt fólk geti hugsað og talað eins og börn og — vitfirringar, sagði hann með nístandi hæðni.

Sjera Ljótur stóð upp, náfölur.

Það olli Geir Thorgeir illgirnis ánægju, að sjá hver áhrif orð hans höfðu á sjera Ljót

— Og þú felst á þetta — umsvifalaust? hjelt hann áfram dálítið mildari af því hann hafði það á tilfinningunni, að áðan hefði hann höggið eins djúpt og hægt var. — Já, þú ert nú reyndar faðir Úlfs. Og jeg hef alt af vitað að þessi strákskratti hefði öll ráð yfir þjer — hefði þig svo að segja í vasa sínum. En því hefði jeg aldrei trúað, að hann fengi þig til þess að fallast á jafnvel heimskulegustu strákapör sín. Mjer er sem sje næst að álíta þetta alt hefndarverk gagnvart mjer — frá hans hálfu er það ekkert annað. Hann hefur líklega komist á snoðir um að það ætti að reka hann og orðið fyrri til. Og nú ætlar hann að hefna sín á mjer — og eins og hans var von og vísa velur hann lítilmótlega og svívirðilega aðferð. Hvernig hann hefur getað krækt í Margrjeti, það er mjer hulinn leyndardómur. En þetta kvenfólk er óútreiknanlegt. Og nú hefur hann hana í neti sínu — og enginn getur talið mjer trú um að honum sje meira um hana gefið en hverja aðra af þessum — stelpum sínum. Jeg hefði getað skilið þetta og fyrirgefið að sumu leyti, ef hann á þennan hátt hefði ætlað að neyða mig til þess að láta sig aftur fá stjórnarráðsstöðuna eða styðja þingmenskuframboð sitt. En að giftast dóttur minni til að gera hana að verkamannskonu — það getur ekki verið annað en lítilmótleg illgirni af hans hendi. Sjálfur var hann þegar svo djúpt

sokkinn sem hann kemst, svo að sjálfs hans vegna stendur nokkurn veginn á sama, í hverju hann rótast. Ef til vill er maðurinn ekki alveg með sjálfum sjer — það er líklega sennilegast. Og jeg verð líklega að gera mjer það að góðu að vita til þess að þú sjert ekki með sjálfum þjer heldur. En þú getur ekki vænst þess af mjer, sjera Ljótur, að jeg eigi nokkurn þátt í glötun dóttur minnar. Og þú ættir að hugsa um það, að það er mikil ábyrgð, sem þú tekst á herðar.

Nokkur stund leið áður en sjera Ljótur svaraði — hann varð fyrst að vera þess viss, að hann hefði röddina alveg á valdi sínu. Mörg óhugsuð orð ætluðu einnig að brjótast fram — hann mintist þess ekki að hann hefði nokkurn tíma áður langað til þess að hreyta úr sjer nöprum skætingi. En honum fanst vinur sinn alt í einu koma fram sem vesæll og heimskur maður — alveg andstætt því áliti, sem hann hafði áður haft á honum. Og það gerði hann bæði reiðan og hryggan.

En loksins gat hann bugað þetta óvanalega reiðikast og hulið hina miklu geðshræringu sína — og sagði rólega:

— Ef það væri þú sjálfur, sem talaðir núna, Geir, þá blygðaðist jeg mín — blygðaðist mín þín vegna. — En þú veitst ekki hvað þú segir — þú hlýtur að vera ofsareiður.

— Nei, jeg er ekki ofsareiður, eins og þú segir, svaraði Geir Thorgeir drembilega. Þú getur verið rólegur þess vegna, að nú er það jeg sjálfur, sem tala — jeg er sem sje ekkert auðtrúa flón framar.

Sjera Ljótur stóð kyr um stund eins og hann hugsaði sig um. Svo hristi hann höfuðið.

— Já, fyrst þú tekur svona í þetta, sagði hann alvar-

lega og hryggur — þá þarf víst ekki meira um það að tala. — — En má jeg þá ekki tala við konuna þína?

Geir Thorgeir brosti illgirnislega.

— Óþarfi. Þessi annálaði máttur þinn til þess að hræra hjörtun verður líka árangurslaus þar — fyrst þú kemur í þessum erindum. Jeg hefði aldrei trúað því um þig, sjera Ljótur, að þú geymdir annað eins lítilmenni og vesalmenni undir þessari hæglætis- og sakleysisgæru þinni. Jeg fer að halda, eftir reynslu þessara síðustu daga, að öll vinátta sje hugarburður — mjer hefur að minsta kosti verið sýndur ómældur órjettur undir vináttu yfirskyni. Þú segist blygðast þín mín vegna. Hvað mætti jeg þá ekki segja, þegar jeg hef sjeð að þú ert: úlfur í sauðargæru.

Sjera Ljótur stóð kyr um stund og starði á Geir Thorgeir undrunar- og angistaraugum.

Svo sneri hann baki við honum og fór þögull leiðar sinnar.

Hann hugsaði um Geir Thorgeir.

— Hvernig var maðurinn orðinn? Þessi reiði, æsti, já, næstum vondi maður, sem hann var að koma frá — var það vinur hans, Geir Thorgeir — margra ára besti vinur hans? Hvað var orðið af hinum rólega, jafnlynda, rjettláta og vingjarnlega og næstum blíða Geir Thorgeir? .... Jú, sjera Ljótur vissi það og hafði alt af vitað það: Það var ekki hægt að reiða sig á það þó mannssálin sýndist í ró og jafnvægi — órannsakanlegir hylir gátu hulist í henni. Mannssálin var eins og hafið: óvist — og virtist ótrygt — og í rauninni væri hún eins og hafið undirorpin áköfum, ósjálfráðum ytri breytingum — en þó söm og jöfn í eðli sínu og efni .... og þess vegna líklega saklaus — —saklaus .... Eins og

lognblítt hafið endurspeglaði skýin, og himinblámann og loftslitina og sólglitið, þó það ætti sjálft ekkert af þessu, þannig gæti sálin einnig speglað og gefið frá sjer frið og fegurð og teigað gullinþrá guðdómsins. Og eins og loftstraumarnir breyttu hafinu í öskrandi ófreskju, þannig breyttu hugstormarnir og lífsatvikin sálinni — oft og einatt í eitthvað ilt og óskiljanlegt. En ekkert, ekkert gæti upprætt hina helgu þrá hennar — guðdómsneistann — — Og þó: í hvert skifti sem við sæjum slíka breytingu fyndist okkur hún ótrúleg og óskiljanleg. Var ekki að því komið að hann ljeti skap sitt æsast til reiði gegn vini sínum — og átti hann þó meðaumkun eina skilið — og þarfnaðist ástar. Guð fyrirgefi áfellissjúku hjarta hans veikleika þess ....

En alt í einu gleymdist Geir Thorgeir.

Því annað hafði haft enn þá meiri áhrif á sjera Ljót um kvöldið. Og það var yfirlýsing Úlfs um það, að hann ætlaði til sjós. Þegar Úflur sagði frá því var sem náköld hönd nísti hjarta sjera Ljóts — og af því spratt það hvað hann var utan við sig, og misskildu þau Úlfur og Margrjet það. Síðan slepti þessi nákalda hönd ekki taki sínu á honum. Hann hafði aldrei áður verið lostinn svo þungum og þjakandi kvíða og það var árangurslaust þó hann fullvissaði sjálfan sig um það að kvíðinn væri ástæðulaus og heimskulegur. Kvíðann h a f ð i hann. Og hann ljet ekki hrekja sig burtu.

En eitt átti hann til þess að sporna við honum í hjarta sínu. Og það var bænin — bænin til guðs drottins á himnum, hins góða föður hans og allra manna.

— — — Sjera Ljótur sagði ekki frá neinum einstökum atvikum, en ljet þau Úlf og Margrjeti á sjer skilja, að heimsókn sín hjá foreldrum hennar hefði verið árang-

urslaus, og undraði þau það ekki — þau bjuggust bæði við því.

— En þið hafið rjett fyrir ykkur, sagði hann lágt og vinalega og lagði hendur sínar á herðar þeirra. — Og jeg mun gera það sem þið hafið beðið mig um — lýsa undir eins á morgun og gifta ykkur eftir þrjár vikur. — Guð blessi ykkur, börnin mín.

Hann hrærðist og kysti þau á ennið. Síðan bauð hann þeim góða nótt og fór. —

Sjera Ljóti kom ekki dúr á auga þessa nótt. Hann baðst fyrir — barðist við guð sinn. En hann fann að hann bað um það, sem hann mátti ekki biðja um og því var árangurslaust. Hann fann það: guð bænheyrði hann ekki. Og þá var ekki um annað að gera en að beygja hjarta sitt undir vilja hans. Því guð var góður og alvitur — það vissi hann. Og guð var líka miskunnsamur — hann styrkti þann sem hann hirti. Og hann hlaut að hafa einhvern ákveðinn tilgang með þá, sem hann — — tortímdi. Því hann einn kunni gátu tilverunnar, hann einn þekti leyndardóma lífs og dauða .... Og hann beygði hjarta sitt: verði þinn vilji. — — —

## XV.

Fyrri hluta mánudagsins sat alþingismaðurinn Helgi ritstjóri Bjarnason við hið stóra skrifborð sitt í ritstjórnarskrifstofu Ljóssins. Hann laut yfir gula pappírsörk og hamaðist við að rita svo að skarkaði í pennanum. Penninn stakst í gegnum pappírinn í hvert skifti sem hann setti punkt. Og það kom ekki sjaldan fyrir

því Helgi Bjarnason ritstjóri, kallaður Brodd-Helgi — þó í dálítið annari merkingu en nafni hans, söguhetjan, — var vanur að láta skoðanir sínar í ljósi í stuttum, meitluðum setningum, stingandi setningum.

Berserksgangur kom einlægt á hann, þegar andinn var ekki almennilega yfir honum, af því að greinarefni hans var ónógt. En góðu greinarnar — og þær, sem áunnið höfðu honum auknefnið — skrifaði hann hægt og með fallegri stafasetningu og engilbros ljek um stuttleita, gráskjeggjaða, hörkuhrukkótta andlitið.

Aukablaðið, sem út átti að koma seinni hluta dagsins sakir áttræðisafmælis frv. alþingismanns, forstjóra Teits Skúlasonar — annars kom Ljósið ekki út nema á miðvikudögum og laugardögum—vildi hann ekki láta frá sjer fara svo að ekki væri í því einhver kveðjustúfur til ráðherrans. Nú hafði hann beðið mánuðum saman eftir því að eitthvað kæmi fyrir, sem gæfi ástæðu til ákafrar árásar. Þess vegna hafði hann linað sóknina um stund. Það var afbragðs stjórnmálabrella — því þá yrðu áhrifin meiri þegar hann færi af stað aftur fyrir alvöru. En aldrei gerðist neitt, sem sjerstök ástæða væri til þess að ráðast á. Vitanlega kom ýmislegt smávegis fyrir — eins og alt af er raun á. En það var ekkert nema smávægi. Og það var sjálfum manni til tjóns að gera opinberlega úlfalda úr hverri mýflugu hvað eftir annað.

En ef einhver greinin ætti að koma í dag, og það var ákveðið mál, þá var samt ekki um annað að gera en að reyna að hlaða upp einhverjum vandlætingarþrungnum brigslyrðum um einhverja smámuni, svo sem síðustu embættisveitingu ráðherrans. Reyndar varð hann að játa það með sjálfum sjer, að það væri að sjóða

súpu á steikarteini. En samt sem áður skrifaði hann og skrifaði um „þessa ótrúlegu embættisveitingu, þar sem gengið væri fram hjá gömlum, valinkunnum embættismanni eins og Sigurði Einarssyni, vegna þessa unga spjátrungs, Högna Pjeturssonar, og hefði hann þó ekki annan rjett til besta sýslumannsembættis landsins en þann — að vera flokksmaður ráðherrans“. Hann skrifaði áfram: „oss virðst það í mesta máta óheppilegt, þegar embættisveiting ráðherra getur skilist sem bein múta í flokksþarfir“. Hann skotraði augunum yfir það sem hann hafði skrifað og hristi höfuðið: þessi grein yrði flokknum áreiðanlega ekki til neinna nota. Fólki var alt of kunnugt um, hvílík rola Sigurður gamli Einarsson var, en að Högni Pjetursson var hins vegar verulegur dugnaðarmaður. Hann var meira að segja, þó ungur væri, að ávinna sjer álit sem lægnasti lagamaður landsins.

Barið var að dyrum. „Kom inn,“ rumdi í ritstjóranum og einn duglegasti og þróttmesti þingmaður flokksins, prófessor Sigvaldi Kárason, gekk inn.

Brodd-Helgi henti pennanum og sneri sjer að honum, en stóð þó ekki upp.

— Nokkuð nýtt? spurði hann, er hann hafði svarað kveðju þessa nána vinar síns og flokksbróður með því að kinka dálítið kolli.

Prófessor Sigvaldi Kárason gaut augunum að skrifuðu örkinni á borði ritstjórans.

— Nú-ú, svo þessi kanturinn snýr þá upp á þjer í dag, sagði hann hlæjandi. — Jeg þykist vita, að það sje dálítil vinarkveðja til hans hágöfgi. Nú — hvar miðarðu á hann — hefurðu fundið beran blett?

— O, það er ekki annað en þessi bannsett embættisveiting, sem jeg reyni að velta og snúa dálítið, svo

hægt sje að beita henni. En það er þó óneitanlega þunnmeti.

Prófessorinn dró fram stól og settist.

— Geturðu ekki fleygað einhverjum eituryrðum inn hingað og þangað? Því vonandi hefurðu ekki látið taka alveg úr þjer tönnina, hahaha! Það er um að gera að vekja gruninn, vekja gruninn — fólkið er sjálft svo veikt fyrir að það trúir alt af því sem verst er.

— Eituryrði — hreytti Brodd-Helgi úr sjer. Þau geta nú verið nógu góð — en þau hrífa bara ekki alt af. Nei, gallinn er sá, að ósjálfrátt er samúðin með ráðherranum. Það er þetta, sem við verðum að krukka dálítið í. Eituryrði eru góð á sínum tíma — en þegar þau eru notuð í ótíma geta þau hæglega snúið broddinum í öfuga átt.

Ritstjórinn greip alt í einu skrifuðu örkina, reif hana reiðilega í tangur og tætlur og henti þeim í pappírskörfuna.

Prófessor Sigvaldi Kárason fylgdi framferði hans með augunum, þokukendum og votum eins og kýraugum. Svo strauk hann magurri og ekki alveg hreinni hendinni yfir hvelft ennið, og sást nú greinilega, síðan hann varð sköllóttur, nema rjett dálítið strý í hnakkanum, að þar var höfuðið hæst.

— Þú ert svo glaðlegur, sagði Brodd-Helgi gremjulega. Er það hátíðarræðan, sem þú ert svona ánægður með! Eða hefur þú einhverjar góðar frjettir að færa — láttu þær þá koma.

— Ja-á, svaraði prófessorinn ánægður með sjálfan sig — mjer hefur sannarlega dottið dálítið gott í hug ....

Brodd-Helgi var athyglin ein undir eins.

— Guð blessi þig, maður! — Kveyktu þjer í vindli —

en vertu nú ekki lengi að draga mig á því. — Nú, láttu mig nú heyra?

Prófessorinn kveykti samviskusamlega í vindlinum og púaði hann innilega ánægjulega nokkrum sinnum.

— Hugmyndin er, í tveimur orðum sagt: Úlfur Ljótsson.

Brodd-Helgi horfði hviku arnaraugunum örstutta stund í hin hægu, ísmeygilegu augu hins.

— Þetta eru frjettir .... svaraði hann dræmt. En heldur þú að hann sje hæfur?

— Jaha, — við verðum vitanlega að reyna að gera hann hæfan til þess, sem við þörfnumst.

— Láttu mig heyra — sagði Brodd-Helgi ákafur og óþolinmóður.

Prófessorinn hugsaði sig dálítið um og sagði síðan hægt og með áherslu:

— Okkur er óhætt að reiða okkur á það, að sem stendur er eitthvað grunt á því góða milli Úlfs og tengdaföður hans tilvonandi. Að minsta kosti var hvorki ráðherrann nje frúin viðstödd lýsinguna í dómkirkjunni í gær, jafnvel sonur þeirra kvað ekki hafa verið þar, þó öll fjölskyldan sje þó vön að láta ekki á sjer standa, þegar dómkirkjupresturinn talar. Það hefur líka kvisast, að dóttirin hafi yfirgefið heimili sitt — það er sagt að hún sje til húsa hjá dómkirkjuprestinum. Svo það er nú eins gott og það getur verið. — Núnú, Úlfur er rekinn úr stjórnarráðinu, eða átti að rekast ætlaði jeg að segja, en var nógu kænn til þess að verða ráðherranum fyrri og segja upp stöðunni og var það hreinasta hepni fyrir okkur, ef við höfum eitthvað saman við hann að sælda. — Nú, svo er nú það, að hann var tekinn fastur á dögunum. Jeg hef sem sje þefað það uppi, að það var einmitt

ráðherradóttirin, sem hann lenti í ryskingum út af — prófssorinn lækkaði röddina — hún kvað hafa verið þar uppi að heimsækja hann, hihihi! Jeg veit nú ekki hvort ráðherrann var beinlínis sök í því, að hann var tekinn fastur og farið allilla með hann — en við gefum honum sök á því. Hann var að minsta kosti viðstaddur, þegar lögregluþjónarnir komu með Úlf í fangelsið — taktu vel eftir því, og það er sagt að Úlfur hafi lesið yfir honum nokkur óþvegin sannleiksorð — og hann hafi orðið að þegja. Hvað hann hefur sagt við hann veit jeg ekki — og læt þjer eftir að komast út úr því. Og yfirleitt reiði jeg mig á þig. Þjer hlýtur að geta orðið eitthvað úr öðru eins máli. Við látum hreint og beint eins og Úlfur sje ofsóttur sakleysingi. En bíddu nú við — það besta geymi jeg þangað til seinast: Hvert sem það hefur nú verið í vitleysiskasti eða ekki, þá útnefndi Gísli Torfason á dánardægri sínu Úlf sem eftirmann sinn í kjördæminu. Ráðherrann ætlar samt sem áður ekki að taka neitt tillit til þessa — og það á víst að halda því leyndu. Eftir því sem jeg hef komist næst, eru mestar líkur til þess að Dr. Björn Halldórsson verði þingmannsefni stjórnarflokksins. Grillirðu nú ekki í möguleikann til þess að bola Geir Thorgeir hálft um hálft burt frá sinni eigin stefnu — en varlega — umfram alt varlega. Við sláum hreint og beint eign okkar á þann mikla, látna mann! Við förum að vilja hans: styðjum Úlf — og hann skal ná kosningu. Það er ótrúlegt, hvað hægt er að reiða sig mikið á meðaumkun fólks — þar sem hún á ekki við, hahaha. — Núnú — ef við reynum svo að koma okkur í mjúkinn hjá miðflokknum, t. d. með svipaðri grein og þeirri, sem þú skrifaðir áðan — en látt 'ana liggja

dálítið enn þá — þá hafa stjórnarandstæðingar meiri hluta á næsta þingi — reyndar að eins eitt atkvæði — en það er nóg. Það er hægt að velta ráðherranum — og setja annan í sætið.

— Þú ert hreinasti snillingur! hrópaði Brodd-Helgi í hrifni sinni. — En ætli við getum reitt okkur á Úlf?

— Nei, svaraði prófessorinn, nei, það getum við ekki — og það verðum við að gera okkur ljóst. Maðurinn er fæddur óáreiðanlegur — hann er alt öðru vísi en við hinir. En jeg held að við getum kanske notað hann. Samkvæmt öllum mann-legum áætlunum — settu þig nú í hans spor — hlýtur það að vera honum beinlínis kærkomið að geta unnið að því að fella Geir Thorgeir. En hann má ekki vita, ekki einu sinni hafa minsta grunsemdar-snefil um það, að hann sje leppur. Maðurinn er víst, guð hjálpi mjer, „ídealisti“ — þó ótrúlegt sje og komi illa heim við það, sem við þekkjum til hans. Við verðum þess vegna að gæta þess vel, að láta hann ekki komast neitt sjerstaklega bak við tjöldin. — En við höfum nú brallað hitt og þetta saman, Brodd-Helgi minn. Prófessorinn hló. Og þegar ráðherrastaðan er laus, hafa bókstaflega allir líkur til þess að komast að. En það veit guð, að jeg skal leggja mig dyggilega í líma fyrir þig. Núnú, — viltu vera hágöfgi — eða viltu ekki?

— Uss, uss — þaggaði Brodd-Helgi lágt niður í honum og leit til dyranna. — Það er nú ekki það, sem jeg berst fyrir, Sigvaldi.

— Hahahaha! Prófessorinn hló miskunnarlausum hlátri. Nei, nei, þú þarft ekki að vera að æfa hlutverkið fyrir mjer, jeg efast ekki um, að þú getir leikið

það. Nú, en eigum við þá ekki að reyna að krækja í manninn og ....

Brodd-Helgi skrifaði brjef og sendi dreng úr prentsmiðjunni með það út í bæ og gaf honum ákveðna skipun um að finna Úlf og fá engum það nema honum sjálfum.

Síðan fóru flokksbræðurnir tveir með gætni og ró að gera nákvæma árásar-áætlun.

Röskum hálftíma seinna gekk Úlfur inn í skrifstofuna.

Brodd-Helgi þaut undir eins upp úr stólnum og skundaði á móti honum — og þakkaði honum mikillega hve vænn hann hefði verið að koma svona fljótt. Úlfur svaraði þessum alt of vingjarnlegu kveðjum heldur kuldalega og ljet sjer nægja að hneigja sig lítillega fyrir prófessor Sigvalda Kárasyni, því hann þekti hann mjög lítið.

— Fyrst má jeg víst leyfa mjer að óska yður til hamingju, sagði ritstjórinn og neri höndum.

Úlfur hneigði sig örlítið og prófessorinn hætti því við sínar heillaóskir.

Brodd-Helgi dró fram stól og mennirnir þrír settust, — prófessor Sigvaldi Kárason dálítið á hlið við hina.

— Mjer er sagt, að þjer gangið laus og liðugur, hjelt Brodd-Helgi áfram og ljet fálæti Úlfs ekki á sig bíta. — Reyki þjer — ger' svo vel. — Já — ef jeg hefði haft ráðin .... nújá. Mjer finst það skyssa, að ætla að hafna hinum ágætu hæfileikum yðar svona. En eflaust hefur eitthvað verið, sem hefti frekari samvinnu, fyrst þjer yfirgáfuð þá braut, sem við spáðum allir, að yður gengi vel á. Fyrirgefi þjer að jeg tala svona hreint og beint. Ef til vill hafi þjer ekki yfirgefið neitt — ætlið að eins að stytta yður leið? ....

Úlfur hnyklaði brýrnar.

Það sem hindraði það, að hann stæði upp undir eins og færi, var forvitnin ein um að komast að því, til hvers og á hvern hátt Brodd-Helgi þættist geta notað s i g, sama forvitnin sem ljet hann láta að hinni mjög kurteisu og næstum of vingjarnlega skrifuðu bón um samtal við sig — helst undir eins.

Honum fanst það samt óþolandi að sitja undir öllum þessum löngu inngangsathugasemdum. Og það voru þá ekki hundrað í hættunni.

— Eigum við ekki að snúa okkur beint að málinu, herra ritstjóri. Rödd hans var dálítið óþolinmæðileg, þó hann reyndi eftir mætti að bæla niður ógeð sitt. — Þjer senduð boð eftir mjer ....

— Þjer eruð m i n n maður, sagði Brodd-Helgi hlæjandi eins og hann yrði hrifinn og sló vingjarnlega á öxl Úlfs. — Enga vafninga — það líkar mjer. Snúa sjer beint að málinu! Alt skýrt og greinilegt. — Svona á það að vera. Núnú, í stuttu máli þá: Vilji þjer vera alþingismaður?

Úlfur brosti.

— Jeg skil yður víst ekki rjett vel. — Hingað til hef jeg ekki beinlínis talist til flokks herra ritstjórans ....

Brodd-Helgi sneri stól sínum svo, að hann sat beint andspænis Úlfi og virtist í ákafa sínum ekki taka eftir því, að hann sneri þannig baki við prófessornum — og hann virtist heldur ekki taka það neitt illa upp.

— Þar skjátlast yður — eða okkur skjátlast — alveg eins og þjer viljið. — Minn kæri, ungi herra! Þjer eruð — taki þjer vel eftir því sem jeg segi. — Þjer eruð framtíðin: Þjer hafið framkvæmdaviljann, hugsjónir, sem koma þarf fram — — í stuttu máli: Þjer eruð framtíðin. — En, — það erum v i ð l í k a .... V i ð erum að

eins orðnir dálítið varkárari með aldrinum, því við höfum reynslu, sem þ i ð ungu mennirnir eigið eftir að fá. Ef til vill erum við orðnir heldur o f varkárir — og getum þess vegna ekki fylgt ykkur eftir. — En m a r k - ið er sameiginlegt .... og leiðirnar — — — um þær getum við eflaust orðið sammála, o k k a r flokkur hefur alt af reynt að hafa framtíðina, gáfurnar og stórvirkjaviljann o k k a r megin. Það þori jeg að segja hiklaust — því það er s a n n l e i k u r i n n. Að vísu játa jeg, að það hefur ekki ávalt verið auðvelt þeim, sem engan þátt taka í henni sjálfir, að fylgjast með hinum hreinu og skýru dráttum í stjórnmálabaráttu okkar, en þeir hafa verið til, og v i ð höfum aldrei mist sjónar á þeim. Málin, sem efst eru á baugi í þetta og hitt skiftið, hafa það í för með sjer, að maður er oft neyddur til þess að ganga inn á ýmsa meira eða minna heppilega samninga, — heilt og hálft samkomulag við menn og flokka, sem maður annars vildi helst vera laus við að eiga nokkuð saman við að sælda. Þessi sömu mál hafa einnig í för með sjer, að maður neyðist stundum til þess að fara ýmsar krókaleiðir til þess yfirleitt að komast eitthvað áfram. Kyrstaða, ungi vinur minn — um það getum við víst verið sammála — að kyrstaða er hættulegust af öllu .... hún getur d r e p i ð — og þess vegna er maður stundum neyddur til þess að beygja af, ef maður kemst ekki beint. En s t e f n u n n i er stöðugt haldið, hvort sem maður þýtur áfram með eldingarhraða eða er neyddur til þess að skríða á fjórum fótum. — — Jeg veit — því jeg hef smásaman orðið glöggskygn á þá hluti — að þjer eruð einn af framtíðarinnar mönnum, já, jeg gæti alveg eins sagt: einn forustumaður framtíðarinnar. Og jafnvel þó jeg búist

við því, að við getum ekki frá öndverðu fylgst að í öllum málum, þá spyr jeg yður — af því að við erum ávalt fúsir til þess að rjetta æskunni og framsóknarviljanum höndina — vilji þjer gera bandalag við okkur — og bjóða yður fram sem þingmannsefni okkar til sætis þess, sem losnaði við fráfall Gísla Torfasonar? Jeg lofa yður fullkomnum stuðningi flokksins. Þjer verðið svo aftur á móti að lofa því einu, að greiða ekki atkvæði á móti okkur í markverðustu málunum, í smámálunum hafi þjer óbundnar hendur. Við viljum styðja yður án þess að þröngva yður á nokkurn hátt þar, sem sannfæring yðar fer í bága við hagsmuni flokksins. Getum við boðið yður betri kjör? Nú — og hverju svari þjer svo?

— Jeg þakka yður fyrir það traust, sem þjer berið til mín, svaraði Úlfur ofurlítið hæðnislega. En mig langar lítið til þess að verða afturreka þingmannsefni. Yður getur tæplega verið ókunnugt um, að þessa síðustu daga hefur ýmislegt komið fyrir, sem er ekki beinlínis til þess fallið, að auka traust það og virðingu sem nauðsynleg er eða ætti að vera þeim manni, sem taka á að sjer eins ábyrgðarmikið trúnaðarstarf og það sem þjer eruð svo góður að bjóða mjer.

— Minn kæri herra, jeg sje að þjer eigið enn þá þetta elskulega lítillæti æskunnar. Þjer eruð sannast að segja alt of lítillátur. Og mjer er áreiðanlega alveg óhætt að svara yður: yður skjátlast gersamlega. Það, að maður er beittur órjetti — já, þarna sjái þjer nú mína skoðun, getur á engan hátt spilt trausti almennings til hans. Og hjer er um að gera að vinna almenninginn á sitt mál. Láti þjer mig um það — penni minn verður algerlega í yðar þjónustu. Afturreka þingmannsefni. Nei, við mund-

um hvorki sjálfs yðar nje flokksins vegna stofna yður í kosninga-óvissu. Þetta er þvert á móti uppreisn, sem þjer eigið að fá — og munuð fá af því að þjer eigið hana skilið. Ef þjer að eins leyfið það, skulum við veita yður slíka uppreisn, að það, sem óverðskuldað virtust vera gallar, skulu verða skínandi kostir. Það getum við með því móti, að bregða r j e t t r i birtu yfir alt mótlæti yðar. Þjer eruð okkar maður, ekki satt?

Brodd-Helgi beið ekki svarsins, en sneri sjer fljótt að prófessor Sigvalda Kárasyni, en hann hafði hlustað þögull og athugull á, og sagði ákafur:

— Heyrðu, prófessor — þú verður að láta bjóða Úlfi Ljótssyni í veitsluna í kvöld. Það verður þá fyrsta skrefið. Það hlýtur að vera hægðarleikur fyrir þig, formann hátíðarnefndarinnar.

— Hvurt það er! svaraði prófessorinn tungumjúkt og vingjarnlega — jeg bæti bara einum stóli við — við borð heiðursgestsins — og svo þarf ekki meira um þ a ð.

Hann sneri sjer að Úlfi.

— Þjer getið meira að segja fengið sæti milli mín og vinar okkar, ritstjórans, herra minn. Og mjer finst að þjer getið eiginlega ekki krafist þess betra, sagði hann og hló hægt og mjúkt. Og á jeg að trúa ykkur fyrir leyndarmáli? Hátíðanefndin ætlaði að láta það koma öllum á óvart. Mjer liggur við að halda, að það geri okkur að f a s t r i hátíðanefnd bæjarins, hahaha. — Jæja — eins og vera ber, verður ekkert veitt nema myrkur og ljós Karlsberg — en hvert innihaldið fer alveg eftir miðunum .... það geti þið sjálfir gert út um, þegar þar að kemur. Fyrirgefi þið, að þetta kemur ekki eins þægilega flatt upp á ykkur á eftir.

— Hvað er að tarna! gall í Brodd-Helga með undrunargletni.

— Teitur gamli Skúlason er nú þannig gerður, að honum finst fremur lítið til allra gutldrykkja koma, sagði prófessorinn hlæjandi, eins og hann ætlaði að afsaka sig. — Og mjer fanst það satt að segja synd að þessi gamli heiðursmaður þyrfti að sitja og ygla sig yfir því, sem í glasið yrði látið við slíkt tækifæri — það er hvort sem ekki nema einu sinni. Jeg ljet þess vegna skifta dálítið um innihaldið — en það veit hamingjan, að miðarnir eru kyrrir.

— Já, — en .... eru engir góðtemplarar með? spurði Brodd-Helgi dálítið hugsi.

Prófessorinn hristi skallahöfuðið.

— Nei! Þar sem Teitur Skúlason er drottinn, eru góðtemplarar ekki guðs börn .... við gengum, stutt og laggott þegjandi fram hjá þeim.

— Þetta er afbragð! sagði Brodd-Helgi hlæjandi.

Síðan sneri hann sjer að Úlfi, en hann hafði setið kyr og virt mennina báða nákvæmlega fyrir sjer.

— Ekki eru þjer neinn bindindispostuli— sagði hann hlæjandi og þess vegna sýnir vinur minn, prófessorinn yður svona mikið traust og umgengst yður eins og einn af okkar mönnum. — Og — ekki satt — þjer bregðist ekki trausti hans. Eitt aðalatriði stefnuskrár okkar er að kollvarpa bannlögunum — og þar greiði þjer þó sennilega ekki atkvæði á móti okkur? — Persónufrelsi — engin þvingunarlög. Það eru nokkur heróp okkar. — Nú, þjer hafið enn þá ekki svarað því, sem jeg spurði yður um áðan?

Úlfur stóð upp.

— Jeg skal hugsa um tilboð yðar, sagði hann rólega

og neyddi sig til þess að vera vingjarnlegur. Ef til vill get jeg gefið yður fullnaðarsvar í kvöld.

— Það er þá ákveðið, Brodd-Helgi rjetti honum breiðan, raka-heitan hramminn. — Við sjáumst þá í veitslunni, því þjer komið, eða er ekki svo?

— Jú, þakka yður fyrir.

Úlfur kvaddi stuttlega og fór.

Undir eins og hann var kominn út úr dyrunum sneri Brodd-Helgi sjer snart að vini sínum, prófessornum.

— Fari það bölvað, ef hann bítur ekki á krókinn — trúðu mjer, hvíslaði hann hlæjandi og neri höndum.

— Jeg hefði gaman af að vita, hvort það er ekki að eins útlitið fyrir að fá einhvern góðan dropa, sem hefur fengið hann til þess að taka boðinu í veitsluna, svaraði prófessorinn dálítið þurlega. — Við verðum að vera enn þá varkárari en jeg hjelt í upphafi.

— Jeg skrifa nú samt undirbúningsgrein, sagði Brodd-Helgi — og vappaði um eins og hæna. — Guð má vita, hvernig hans hágöfgi lítst á hana.

— Já, skrifa þú eitthvað, sem þjer dettur í hug, svaraði prófessorinn og stóð upp. Það getur altjend orðið að einhverjum notum. En ef þú minnist á framboð Úlfs, væri þá ekki best að þú gæfir það í skyn í svo myrkum orðum, að hægt væri að skýra þau öðru vísi á eftir? Við verðum að fara gætilega. Jeg er hálfsmeykur um að hann geti orðið okkur fremur óþægilegur samverkamaður í flokknum. — Nú, en jeg skal ekki trufla þig lengur. Guðsfriði!

Brodd-Helgi settist við skrifborðið undir eins og prófessorinn var kominn út úr dyrunum og byrjaði á nýrri grein í stað þeirrar, sem hann eyddi. Og nú skrifaði hann rólega og fallega, dró setningarnar með fagurskrift

á gulan pappírinn og meðan hann var að því, blíðkaðist hið hörkulega, hrukkótta andlit hans af engilbrosi.

— — — — —

Allur blómi heldra fólks bæjarins, að örfáum undanteknum, svo sem ráðherranum og dómkirkjuprestinum, undir hundrað menn og konur, aðallega þó karlmenn, á öllum aldri, var saman kominn kringum skeifumyndað borð í stærsta veitslustað bæjarins, tómlegum og óvistlegum sal, til þess að heiðra Teit gamla Skúlason á áttræðisafmæli hans.

Er komið var að öðrum rjetti var fjörið þegar orðið allmikið.

Og jafnvel þó ávalt væri fjörugt þar sem Teitur gamli Skúlason átti hlut að hátíðinni — og þetta var engan veginn fyrsta heiðursveitsla hans — þá var þó glaðlyndi gestanna ekki hvað minst því að þakka, að þeir urðu þess vísir, að flöskurnar tvær, sem settar voru milli diskanna og á var límdur miði: ljós og myrkur Karlsberg, voru fullar rínar- og burgundarvíni.

Ræður þær, sem óumflýjanlegar voru við slík tækifæri byrjuðu með hinni eiginlegu hátíðarræðu fyrir minni heiðursgestsins og hjelt prófessor Sigvaldi Kárason hann með venjulegri snilli. Henni var tekið með miklum fagnaðarlátum, og húrrahrópin drundu um salinn. Og síðan komu ræðurnar hver á fætur annari, og hver annari fjörugri og fyndnari og var það síst að undra, þegar þess var gætt, að margir bestu og æfðustu ræðumenn landsins voru viðstaddir. — Úlfur Ljótsson sat orðfár og þegjandlegur milli borðnauta sinna, ritstjórans og prófessorsins og var að lokum nær fallinn allur ketill í eld við alla þessa mælsku.

Heiðursgesturinn, hár maður þrekinn og höfuðstór og

bar hvíta hártoppa við brúnleitan hörundslitinn, streittist við að setja hátíðasvip á stórskorið andlitið, er hann hlustaði á. Svarræður hans sindruðu af vingjarnlegu, formsmellnu fjöri, þó allir, sem eitthvað þektu hann, tækju eftir hæðni þess. Meðan hann talaði, fylgdist hann með áhrifum orða sinna á áheyrendurna með góðvildar- og grunsemisaugum í senn, .einkum virti hann þá fyrir sjer, sem hann undir rós sendi hnútu við og við. En fólk var svo vant ræðulagi. Teits gamla Skúlasonar að það glapti ekkert gleðina, þó það kæmi fram, að hann hefði tekið hina „eðalsteinum slegnu svipu“ sína með sjer til veitslunnar, en þannig komst einn háfleygur veitslugestur svo vel að orði. Já, jafnvel hin allgrófgerða gletni, sem hann einstöku sinnum hafði gaman af að fljetta inn í ræður sínar — einkum þegar kvenfólk var viðstatt — vakti enga sjerstaka gremju og allra síst alvarlega. Karlmennirnir hlóu upphátt og hrifnir — kvenfólkið roðnaði fyrir siðasakir og greip til vasaklútanna — og hló að lokum líka: — Hann er líka alt af sjálfum sjer líkur. ....

Undir eins og Sigvaldi prófessor Kárason lauk við ræðu sína, settist hann og þjóraði með góðri samvitsku og í kyrð og þögn. Engum gramdist það. Það var vitanlegt, að prófessorinn átti sjer fjögur áhugamál, og skygðu þau á alt annað hjá honum ,en rákust þó aldrei á: málfræði, í henni var hann prófessor, mælsku, í henni var hann meistari, stjórnmálabrellur, í þeim var hann viðurkendur og menn óttuðust þær, og áfengi .... en þar voru hæfileikar hans meira í þá áttina, að geta torgað miklu, heldur en að greina hverju hann torgaði.

Það fjekk honum mikillar undrunar, að Úlfur drakk hjer um bil ekkert, því eftir næmum skilningi sjálfs sín

á dropalönguninni, þóttist hann hafa fundið ástæðu Úlfs til þess að sækja veitsluna. Hann skálaði stöðugt við hann, til þess að vera vingjarnlegur og fjörga hann, en Úlfur dreypti að eins á glasinu — en sat annars þögull og hörkusvipur var í gráum augunum og dráttunum kringum munninn.

Alt í einu datt prófessornum í hug, að „þessi ungi maður“ væri líklega að velta fyrir sjer ræðu og af því að hann var nú kominn í það skap, að segja alt, sem honum bjó í brjósti — ef hugsanir hans snertu ekki stjórnmál, því á þ a u mintist hann aldrei, þegar vel var losnað um tunguhöftin — lyfti hann glasi sínu og drafaði vingjarnlega:

— Skál, Úlfur Ljótsson! Þjer drekkið ekkert. Eru þjer í einhverju ræðubruggi, hahaha?

— Já, svaraði Úlfur stuttlega, er hann hafði klingt við hann kurteislega en kuldalega.

— Ja, það væri ekki úr vegi, að þjer svo að segja staðfestuð ....

Þar sem hlje varð á ræðustraumnum í þessum svifum, stóð Úlfur upp; hlustaði ekki á prófessorinn en sló í glas sitt.

Brodd-Helgi sat honum til hægri handar og hrökk örlítið við og gaut arnhvössum augunum rannsakandi á hann. En þegar hann sá, að Úlfur brosti — jafnvel þó háðið væri auðsjeð í brosi hans, varð honum nokkurn veginn rótt og hagræddi sjer til þess að hlusta á hann.

Úlfur fjekk ekki hljóð undir eins. Gleðskapurinn var þegar kominn á það stig, að ræður eru ekki vel þegnar.

En undir eins og fólk sá, hver ræðumaðurinn var,

þagnaði allur hávaði — og fjekk það Brodd-Helga ánægju að taka eftir því.

Úlfur hóf máls:

— Háttvirtu sam-lögbrjótar!

Gestunum hnykti dálítið við. En þegar þeir sáu að ræðumaðurinn brosti stöðugt, tóku þeir þann kostinn að hlæja og fagna ávarpi hans sem fyndnum — en dálítuð tvíeggjuðum inngangi. Sumir hlógu hátt, en aðrir dálítið krampakent.

Úlfur hjelt áfram:

— Óneitanlega hef jeg ekki til þeirrar sæmdar unnið, að sitja veitslu með efnalegum og andlegum aðli þessa lands. En í þessum heimi farnast mönnum sjaldan eins og þeir hafa unnið til — og mega eflaust margir fleiri en jeg verða því fegnir.

Flestum varð rórra og brostu. Og Úlfur hjelt áfram:

— Enn þá síður hef jeg unnið til þess traust, sem nokkrir stjórnmálaleiðtogar okkar — hinir óþreytandi forvígismenn hugsjónanna, hinir fórnfúsu brautryðjendur framfaranna, hinir göfuglyndu og óeigingjörnu verndarar hins upprennandi æskulýðs, eins og þeir sjálfir og áreiðanlega með rjettu, hafa kallað sig, þó með vægari orðum væri, — enn þá síður, segi jeg, hef jeg unnið til þess traust, sem þessir menn hafa sýnt mjer óverðugum, með því að fara þess á leit við mig í dag, að jeg færi að taka þátt í stjórnmálalífinu — í fáum orðum sagt, með því að bjóða mjer að verða þingmannsefni flokksins í hinu marg-eftirsótta kjördæmi höfuðstaðarins. Þar sem mjer er það nú fullljóst, að jeg og mínir líkar erum ekki beinlínis til þess fallnir, að vera leiðtogar og leiðsögumenn þjóðarinnar, hef jeg ákveðið að hafna þessu fagra, og mjer er óhætt að segja göfugmannlega

tilboði. — Leyfi þið mjer að gera dálítinn útúrdúr til gamans: Hugsi þið ykkur, að jeg hefði fallist á, að bjóða mig fram og svo hefði farið, að jeg hefði náð kosningu. Hugsi þið ykkur ennfremur að á þingi hefði jeg greitt atkvæði á móti öllum frumvörpum stjórnarinnar, eins og flokkskyldan býður, en að í hvert skifti, sem vantraustsyfirlýsingin, sem orðið hefði óhjákvæmileg afleiðing þessa, hefði komið fram, greiddi jeg einnig atkvæði á móti h e n n i. Og hugsi þið ykkur ennfremur, að þrátt fyrir þetta sæti ráðherrann kyr, annaðhvort af því, að flokkurinn neyddi hann til þess að lafa áfram, eða af því að hann vildi sjálfur ekki segja af sjer — hvort sem það væri af stjórnmála- eða einkaástæðum. Þá væri komið á þetta sama hlægilega, óheilbrigða jafnvægi, sem við þekkjum öll, frá því við með rólegri samvisku drýgðum stjórnmálaglæp á einum okkar bestu manna. Nokkrar líkur eru til þess, að alt, sem einu sinni hefur komið fyrir, komi fyrir aftur. Enginn þorir að neita því, að það væri mjer líkt, að vilja styðja að slíkum skrípaleik — að eins til gamans. En jeg v i l það ekki. Fyrirgefi þið útúrdúrinn. Og fyrirgefið einnig, að þessi sæmd, sem jeg hef orðið fyrir, hefur svifið svo á mig, að jeg hef ekki vílað fyrir mjer að krefjast athygli þessara háttvirtu gesta í nokkrar — en sennilega alt of margar — mínútur. Jeg játa, að það er dálítil óskammfeilni. En jeg lofa því hins vegar, að það skal ekki koma fyrir aftur. Jeg hef dirfst að gera þetta af því, að jafnvel þó jeg viðurkenni sjálfan mig sem alt of lítilfjörlegan — og beinlínis alræmdan mann, til þess að takast á hendur eitt mesta trúnaðarstarf landsins, álít jeg samt, að jeg eigi nokkurn rjett á að láta til mín heyra — í þetta eina og einasta skifti. Og þar að

auki get jeg ekki á mjer setið að segja nokkur orð um stjórnmál landsins alment, fyrst færið gefst.

Úlfur var smásaman orðinn alvarlegur og einhver þögul óró komin yfir gestina.

— Sannleikurinn er sá, — tók hann aftur til máls, eftir nokkra þögn. En af því hann sá nokkur merki þess að ef til vill yrði hann að hætta of fljótt, sneri hann við blaðinu og fór aftur að brosa. — Nei — það er ekki vert að verða alt of hátíðlegur. Því jeg get aldrei við því búist, að verða nokkur sannleikspostuli.

Gestunum ljetti aftur.

— Núnú: Mín skoðun er sú, að þess eigi að krefjast af stjórnmálum landsins, að í þeim komi fram alt það, sem best er til hjá þjóðinni. Er það svo um okkar stjórnmál? — Jeg ætla ekki að reyna að svara þessu beinlínis undir eins — en fara dálitla krókaleið. — — Jeg dirfist að halda því fram — og jeg bæti því við, vegna þess hve margir stjórnmálamenn eru viðstaddir, að jeg geri það að eins til lofs — að stjórnmál þjóðanna sjeu magi þess — alveg eins og listir og vísindi eru heili þess. Hjartað held jeg að sje í þjóðdjúpinu, eins og það er kallað — það, sem á við mannsmagann, á líka við þjóðarmagann, hann er engan veginn minna virði en heilinn. Ef óregla er á maganum, hefur það höfuðverk og alls konar slæmsku í för með sjer, magasjúkdómur getur jafnvel orðið til þess að hefta alveg líkamsþrifin. Magasjúkdómur — jeg bið hina heiðruðu áheyrendur velvirðingar á því, að jeg held ávalt sömu líkingunni — truflar vitanlega heilbrigt starf líkamans og getur haft dauðann í för sinni, hvort sem átt er við manns- eða þjóðarlíkama. Þess vegna er umfram alt áríðandi að varðveita heilbrigði magans — jafnvel þó

sterkra meðala þurfi. Að því er til sjálfs mín kemur, hef jeg ákveðið að snúa baki við bæði heila og maga — í óeiginlegri merkingu — og setjast fyrst um sinn að í litlafingurbroddi vinstri handar. Eða svo jeg segi það skiljanlega: jeg ætla að gerast háseti á fiski skútu. Ástæður mínar til þess eru engan veginn sprotnar af ótímabæru lítillæti — þær eru eingöngu sprotnar af skýrri og heilbrigðri meðvitund um manngildi sjálfs mín — eða manngildisskort. Þar að auki langar mig til þess, að gera eitthvert svolítið gagn — og jeg vona, að jeg hafi fundið þann stað þjóðlíkamans, þar sem jeg á heima og geti orðið að einhverjum notum. Ef ekki — já — þá er skeina á fingri skárri en sár í maga — og þar að auki — og nú kem jeg að aðalatriðinu — er það skoðun mín, að meira en nóg sje um gerla og orma — og alls konar stór og smá skaðsemisdýr í hinum íslenska þjóðarmaga. Eflaust ættu margir — og það jafnvel þeirra, sem hjer eru viðstaddir, að fara eins að og jeg. Og þess vegna segi jeg við ykkur, lögbrjótar og aðrir landsins forustumenn: fari þið burtu — og hleypi þið að hinum þróttmikla og heilbrigða æskulýð landsins. Þið hafið nógu lengi skarað eld að ykkar eigin köku undir yfirskyni auðfenginnar og auðkeyptrar ættjarðarástar.

Rödd Úlfs var orðin hörkuleg og bros hans löngu horfið.

Þessi síðustu orð Úlfs druknuðu næstum í hávaða og háreysti, reiðihrópum og fyrirlitningarathugasemdum.

En nú stóð Teitur Skúlason upp og hóf upp hendina — öllu sló í þögn.

— Lofiði manninum að tala — ef hann hefur eitthvað meira að segja, sagði hann og brosti kankvíslega.

Menn hlýddu honum nöldrandi.

— Já, ofurlitlu ætla jeg að bæta við, sagði Úlfur, þegar Teitur Skúlason var setstur aftur.

Hann leit rólega í kringum sig, leit óskelfdur í öll þau fyrirlitningar- og reiðiaugu, sem að honum beindust úr öllum áttum.

Hinn eini, sem ekki skildi fullkomlega hvert Úlfur fór, var annar sessunautur hans, prófessor Sigvaldi Kárason. Hann var alveg á valdi vínguðsins: hann var allur eitt vitleysubros og endurtók við og við með hrifni einhverja setningu, sem honum tókst með erfiðleikum að heyra.

En hinn sessunautur Úlfs, Brodd-Helgi — var fölur og kvíðasvipur á hörkulega andlitinu. Hann sá innilega eftir grein sinni í aukablaði „Ljóssins“ og þeirri sök, sem hann átti á því að Úlfur var kominn til veitslunnar. Við og við þaggaði hann gremjulega niður í prófessornum — að baki Úlfs. Annars var hann sokkinn niður í að taka saman strádrepandi svarræðu og ætlaði að halda hana undir eins og Úlfur væri hættur.

Úlfur hjelt rólega áfram:

— Fyrir nokkrum árum — en þó er ekki lengra síðan en það, að bannlögin voru þá samþykt — voru flestir þeir sömu gestir, sem hjer eru í kvöld, komnir saman til þess að heiðra annað stórmenni okkar. Í — eða rjettara sagt eftir þessa veitslu kom fyrir atvik, sem jeg ætla að segja frá — þó margir þeirra, sem viðstaddir eru, muni eflaust eftir því, — af því mjer finst þetta atvik vera lifandi mynd stjórnmálalífs okkar, eins og því nú er farið — eða rjettara sagt aftur farið. En atvikið er svona: undir morgun fylgdu nokkrir þrautbestu veitslugestirnir heiðursgestinum heim. Að einum kvenmanni undanteknum voru þetta alt saman karlmenn, karlmenn sem samkvæmt stöðu sinni í þjóðfjelaginu ættu

að njóta álits og virðingar. Fjörið var mikið. Það var þó ekki bannvarningur, sem var fjörgjafi þá — því allar þær birgðir, sem forsjált fólk hafði verið sjer úti um, áður en lögin gengu í gildi, voru enganveginn þrotnar. Þessi löglega drykkja, en þannig ætla jeg að greina hana frá þeirri í dag — var orðin nokkuð mikil, einkum að því er einn ákveðinn gest snerti. — Margir litu á vinstri handar sessunaut hans, þegar hann sagði þetta. — Hún var orðin svo mikil, að þegar þessi óþreytandi gestaflokkur hafði safnast saman fyrir utan hús heiðursgestsins til þess að hlusta á ræðu, sem enginn — og allra síst ræðumaðurinn sjálfur fann nokkurn botn í — og alt það, sem maðurinn hafði drukkið krafðist þess að komast út aftur á eðlilegum stað, þá lofaði hann því svo að vera — án nokkurrar uppgerðarfeimni yfir svo eðlilegri athöfn! Ef til vill hefur hann ekki viljað missa af ræðunni með því að snúa sjer við. Karlmennirnir hlógu og þótti þetta mjög vel til fallin skemtun. En konan, sem viðstödd var, snarráð kona, lítil en sterk, greip þá alt í einu í axlir drukna mannsins — og sneri honum burt frá hópnum. — Sakir lands míns og þjóðar vildi jeg innilega óska, að til væri einhver sterk hönd, sem á sama hátt vildi grípa í axlir stjórnmála okkar — og snúa þeim við. Þess er þörf. Þau eru orðin alt of blygðunarlaus.

Úlfur ýtti stól sínum aftur, sneri baki við æstum gestunum og gekk til dyra. Brodd-Helgi reyndi árangurslaust að halda í hann, svo hann heyrði svarræðu sína, en gremju- og reiðihrópin rumdu um salinn. En áður en hann komst að dyrunum heyrði hann glaðlegan hlátur, sem glumdi yfir hávaðann eins og fallandi skriða. Hann þekti hláturinn og þurfti ekki að snúa sjer við: það var Teitur gamli Skúlason, sem hló svo að salurinn nötraði.

# XVI.

Það var snemma á skírdagsmorgun.

Vonin var lögst til drifs í Faxaflóa, fimm eða sex sjómílur norðvestur af Garðskaga. Tveir menn skinnklæddir, í vatnsstígvjelum, með sjóhatt og belgvetlinga, gengu fram og aftur kulborðsmegin á þilfarinu og töluðu slitrótt saman.

Mennirnir voru skipstjórinn, Eldjárn Sigtryggsson, og einn hásetanna, Úlfur Ljótsson, sem vakti með honum. Aðrir af skipshöfninni voru enn þá sofandi.

Það var jafn norðaustan kaldi. Eldjárn skipstjóri hafði lagt skútunni beint upp í vindinn og fest stýrishjólinu, en hafði að eins hálf segl uppi. Skútan vaggaði hægt og hátignarlega. Drifið var mjög lítið.

Talið hneig nú sem oftar þessa viku, sem þeir höfðu verið saman á skipinu, að stjórnmálum. Í þetta skifti voru þeir að skeggræða framkomu Úlfs í veitslunni fyrir Teit forstjóra Skúlason, fyrir hjer um bil fimm vikum. Þegar Úlfur sagði Eldjárni frá því í fyrsta sinn og skýrði honum frá efni ræðu sinnar, sagði vinur hans ekki neitt — ljet hvorki í ljós ánægju nje óánægju. Úlfur skyldi vel hvað þögnin þýddi. Og það undraði hann og tók hann sárt, að Eldjárn vildi ekki fallast á málstað hans. Nú spurði hann hann hreint og beint um skoðun hans. Eldjárn þagði um stund og var hugsi. Þegar hann loksins talaði, lýstu orð hans heldur ákveðinni óánægju á framkomu Úlfs — hann kallaði hana óhugsaða og óviðeigandi, jafnvel ósæmandi og bætti því við, að eftir sinni skoðun hefði Úlfur ekki átt að taka þátt í veitslunni.

— Og þar að auki er jeg alls ekki á sömu skoðun og þú. bætti hann við hiklaus og var ekki laus við gremjukulda.

— Sjerðu þá ekki, Eldjárn, hvað þetta er alt saman rotið? sagði Úlfur ákaft.

— Jeg held ekki að þetta sje leiðin til þess að bæta úr þeim misfellum, sem ef til vill eru fyrir hendi, svaraði hann stuttlega. — Við eigum ekki að henda gömlu vetlingunum, jafnvel þó götugir sjeu, fyr en við höfum aðra nýja á höndunum — og að skera á þá göt er beinlínis heimskulegt. Ef við gerum það, getur okkur auðveldlega ofkólnað á fingrunum.

— Jeg skil þig ekki, Eldjárn, svaraði Úlfur hryggur. Þú þolir rólegur að aðrir fremji ýmislegt, sem þú mundir aldrei taka þátt í sjálfur. Þú ættir að muna að umburðarlyndið getur líka verið glæpsamlegt.

— Getur verið, svaraði Eldjárn rólega. En heldurðu að það sje nokkuð verra hjá okkur en í öðrum löndum?

— Já, þarna kemur það, svaraði Úlfur leiður. — Nei, það er langt frá að jeg haldi það. En hvað finst þjer við bættari með það?

— Drottinn minn dýri — það er þó ósanngjörn krafa að við eigum að vera betri í þessu tilliti en aðrar þjóðir.

— Svona megum við ekki líta á málið, svaraði Úlfur í fortöluróm, við höfum ekki leyfi til þess. Við megum ekki láta okkur lynda alla skapaða hluti. Geturðu ekki sjeð, Eldjárn, að sama lögmálið hlýtur að gilda um mann, eins og til dæmis um skip. Alstaðar í tilverunni á það við, að rjettu mennirnir þurfa að standa við stýrið — ef þeir gera það ekki, er okkur illa farið. Heldurðu ekki að við eigum nóg af stæltum, sterkum, heilbrigðum og óeigingjörnum æskumönnum á bændabýlum okkar og fiskiskipaflota. En hvers vegna

draga þeir sig í hlje og láta stjórnmálabraskara fara með stjórnina, — nei, það stoðar ekkert sem þú segir, hitt eru undantekningarnar! Á jeg að segja þjer hvers vegna þeir gera það? Þeir gera það af því, að þeir líkjast þjer, líta eins á málið og þú. Þeir vantreysta hæfileikum sínum, hafa engan skilning á manngildi sínu og eru þar að auki — eins og allir auðtrúa og óreyndir æskumenn — næmir og auðvelt að hafa áhrif á þá með því, sem að eins hljómar — en þeir geta ekki á-valt greint á milli gullhljómsins og járnglamursins. Ef maður nefnir nógu oft föðurlandið, jafnvel þó það sje í innantómum orðatiltækjum og jafnvel þó athafnirnar fari ekki alveg eftir orðskvaldrinu — þá er hann góður — eða látinn vera góður. Fólk, sem sjálft er hvorki lygarar nje hræsnarar, á bágt með að trúa því að aðrir sjeu það. Og þá sjaldan það neyðist til þess að viðurkenna að til sje gallar og misfellur, þá hefur það alt af þennan hræðilega hæfileika hins auðtrúa til þess að umbera og gera alt alment — þennan hæfileika, sem til dæmis þú, Eldjárn, átt svo mikið af. Er það betra annarstaðar? spyrja þeir. Ef ekki — nújá!

— Ætli þessir hæfileikar, sem þú talar um .... ætli að það ætti samt sem áður ekki að taka þá fram fyrir það, að geta að eins sjeð úthverfu hlutanna — eins og þú? Hvort heldurðu að verði heilladrýgst, þegar til lengdar lætur?

Úlfur þagði. — Honum hafði sjálfum dottið það í hug, sem vinur hans sagði. Orðin lustu hann langtum þyngra en Eldjárn hafði grun um.

Skömmu síðar urðu vökuskifti.

Úlfur og Eldjárn fylgdust að niður í káetuna. Eldjárn hafði boðið Úlfi það einu sinni fyrir alt, að mat-

ast í káetunni með sjer. Þeir borðuðu matinn og drukku teið þegjandi. Úlfur var hryggur og Eldjárn óglaður.

Eldjárn lagðist til svefns undir eins að máltíðinni lokinni. En Úlfur var ekki syfjaður, fór fram í og lagðist í fokkuna, en hún lá kulborðsmegin á þilfarinu.

Það fanst greinilega af hreyfingu skútunnar, að stormurinn var að stilla.

Úlfur lá kyr og virti fyrir sjer þreyttum augum fjöll þau og jökla, sem útsýni var til. Jöklarnir glitruðu gullnir og hvítir. Fjallabláminn breiddist út í sólþokuna. Hafið var stormgrænt með litlum hvítfextum bylgjum. En hann fann ekki til allrar þessarar fegurðar. Í dag kom honum alt ókunnuglega og kuldalega fyrir sjónir.

Honum fanst hann einmanalegri og einstæðingslegri en nokkru sinni áður.

— Það væri alveg eins gott, að jeg væri dáinn, hugsaði hann. Því er nú þannig farið, að jeg er ekki lífshæfur. Það er eins og lífið og jeg sjeum óvinir — og lífið sje meiri máttar. Það rekur mig alstaðar á dyr. Það þarf hvergi á mjer að halda. ....

En hvað hann var hamingjusamur fyrstu dagana, sem hann var á skipsfjöl! — —

Já, á meðan alt var enn þá nýtt .... þá var hann í essinu sínu.

Hann steig á skipsfjöl með fangið fult þeirrar hamhamingju, sem safnast hafði í huga hans þrjár vikurnar sem hann var trúlofaður og einu vikuna, sem hann var giftur Margrjeti. — Margrjet .... úr nafninu einu andaði kvalakendri þrá. Já, hún var heima í litlu tveggja herbergja íbúðinni þeirra í Viðey, og beið ánægð heimkomu hans og þráði hann líklega. Þráði hann — — enn þá. .... Enn þá. En ætli hún hjeldi því áfram,

þegar hún færi að þekkja hann alveg? Í öllu sem hann tók þátt í, var ávalt eitthvað „enn þá“ — aldrei festa, aldrei stöðugleiki — og ef sá tími kæmi, að hún þráði hann ekki lengur? .... Og skyldi ekki fara eins fyrir honum þar og alstaðar annarstaðar — því skyldi það ekki koma á daginn, að hann hrykki heldur ekki til þar? ....

Svona fór það með nýju vinnuna hans, það var sama þó hann játaði það undir eins.

Í öndverðu fanst honum vinnan eingöngu hamingja og blessun. — Honum hafði aldrei liðið eins vel í nokkrum fötum og olíufötum og vatnsstígvjelum. Og það, að standa við línuna og draga hvern skínandi fiskinn á fætur öðrum upp úr djúpinu — varð alt í einu eins og eini tilgangur tilverunnar. Lífið varð öðru vísi við það, svo einstaklega fallegt, einfalt og blátt áfram. Þessi silfurglitrandi, spriklandi fiskur, sem hann dró upp úr grænum leynum hafsins — sólskinið á bárunum — fjöllin í fjarksa — vaggandi skútan — og skipin, sem komu í ljós þegar morgunmóðunni ljetti og glampaði á þau og hvít seglin .... Það var friður, það var hamingja — já, það var næstum eins og æfintýri. ....

Já, einmitt, eins og æfintýri. — Hamingjan — — og dauðinn .... Svona fór alt af fyrir honum.

— — En hvað það var inndælt og rólegt heima í Viðey, þar sem Margrjet, góða, trygga Margrjet, gekk um og beið hans, beið heimkomu hans hamingjusöm og glöð. Hennar hugur var tállaus, hennar hjarta var gallalaust, hennar hjarta var varið sterku og óbugandi sakleysi eðlis hennar, eins og dýrmætasta ker helgidómsins, hennar vilji var heill og ósigrandi, þó hann væri blíður og eftirlátur. Hún hlaut að halda, að hann kæmi heim eins og

hann fór: í hamingjusömu jafnvægi, ákveðinn í ákvörðunum sínum. Hún hafði sagt við hann, að síðan þessi vatnsræma varð milli hennar og bæjarins, fyndist henni bærinn ekki lengur til — fyrirlitlegu illgirnisaugun, sem alstaðar eltu hana þar, voru grafin og gleymd og höfðu engin áhrif á minningar hennar — fjölskylda hennar var horfin henni sjónum — hún lifði sem í nýjum heimi, hjarta hennar var barmafult af hamingju, heilagri, lýtalausri hamingju, og hún vissi það, vissi það ákveðið, að enginn gat svift hana henni. Hún, sem þannig hafði talað, gat ekki vitað og gat ekki skilið, að áhrifin innan úr bænum og frá lífinu þar væru aftur farin að magnast í huga hans.

Og ef hún sæi svo þegar hann kæmi heim, að hann væri sljór og þróttlaus, þrekaður af ógeði, þjakaður órjúfandi fjötrum þreytunnar .... hann gat ekki til þess hugsað. Hjarta hans nístist og nagaðist — — — ormurinn í sál hans — bölvaður ormurinn .... nei, hann dó aldrei.

Og Margrjet — skyldi hún, þó sterk væri, geta þolað eiturgufuna, sem stigi upp úr undirdjúpi eðlis hans. — Síðasta kvöldið, sem þau voru saman, töluðu þau ánægjulega — og voru innilega sammála um að þessi stöðugi fjögra til sex vikna skilnaður mundi stuðla að því, að halda hamingju þeirra ávalt ungri og heilagri, lausri við alt hversdagslegt, og skínandi, svo ryð vanans festi ekki á henni. Og alt vorið og sumarið gætu þau hlakkað til hinna löngu miðsvetrarmánaða í landi.

Þá var enginn efi í hjarta hans. Þá var ást hans allur heimur hans — og það var eins og heimurinn í kringum hann væri ekki til.

Síðan komu fyrstu dagarnir á skipsfjöl. Honum fanst hann endurfæddur. Hann hugsaði og sagði að hann

skildi ekki, að nokkur maður vildi lifa öðru vísi. Jafnvel það, að hafa sárar og sprungnar hendur, jafnvel það, að standa við færið, þangað til maður sofnaði yfir því og rakna ekki við nema einstöku sinnum, þegar maður fann að bitið var á, jafnvel það var óskiljanleg gleði og ánægja. — — En hann fann fljótt, að hinir hugsuðu ekki á sama hátt, nema Eldjárn að nokkru leyti. Þeim var vinnan strit — og það jafnvel vanþakklátt, leiðinlegt, stöðugt strit. Einstöku sinnum fjörguðust þeir dálítið og urðu kátir og háværir — en það var að eins þegar mjög vel gekk. Vinnugleði þeirra var að eins örskammur blossi — og eiginlega var það ávinningurinn einn — hinn aukni g r ó ð i, sem þeir glöddust af — vinnan sjálf fjekk ekkert á þá — hún var og varð að eins strit, þrælkandi, tilbreytingarlaust strit. Draumur þeirra flestra var að eiga svo góða daga, að þeir þyrftu ekki að vinna, en sá draumur rættist aldrei. Og þó þeir hefðu ávalt fyrirlitningarorð á reiðum höndum um þá, sem „alt af gengju með höndurnar í vösunum“ leyndist þó bæði lotning og öfund bak við orðin. — Undir eins og vinnan gekk illa, urðu þeir önugir og skapillir, og hreyttu úr sjer ónotum hvað lítið sem á bjátaði.

Það var þetta sem kom Úlfi til þess að sjá þann óþægilega sannleika, að hann hafði lifað þessu nýja lífi eins og það væri æfintýri — en ekki eins og það var í raun og veru: dagleg og stöðug stritvinna. — Og guð má vita, hvort hinum fórst ekki eins og honum í upphafi, hugsaði hann. Og skyldi honum ekki fara eins og þeim .... eftir dálítinn tíma. Og þá? .... Ekki átti hann hið óbilandi þrek þeirra, til þess að halda samt sem áður áfram. — — Þegar hann hafði velt þessu fyrir sjer í nokkurn tíma — hvarf gleðin alt í einu.

Og þarna stóð hann uppi öreiga og allslaus: fyrsta, ferska gleðin .... var gufuð upp eins og ljett morgundöggin. Og h a n n, sem átti ekki þrótt til þess að bera hita og þunga dagsins, h a n n, sem að eins gat átt í sál sinni hinn skínandi, en skammlífa, leifturhraða ljóma æfintýrisins, hann var enn þá einu sinni veginn og ljettvægur fundinn. Hann gæti aldrei notið hinnar lífþrungnu hamingju vinnunnar og hins samviskusama þolgæðis, því í sál hans sat sínagandi naðra, og veiklaði vilja hans og saug gleðina úr hjarta hans.

Hann varð að játa það nú sem fyr, að það var sjálfs hans sök. Hann brást, — þess vegna var honum fleygt, hent í burtu. Hann var persónugerð vesalmenskan, sem hvergi hrökk til. Það var þungt — það var óberandi. H v e r t sem hann kom, var hann og varð hann óhæfur lífinu og lífskjörunum, útlagi í öllum greinum — vargur í vjeum þjóð- og mannfjelags. Já, hann var hviklyndið sjálft, og hamingja stöðugleikans og varanlegrar gleði var honum bönnuð. Hugur hans var fullur andstæðum: þar var hin hæsta, hreinasta gleði við hlið hinna lægstu girnda, — þar var hin hrifna, sjálfgleymna viðleitni, sem öllu v i l d i fórna og hið fyrirlitlegasta og ófyrirgefanlegasta kjark- og kæruleysi, þar var blossareiði eldsins og brunagaddur íssins.

Já! .... Svona var hann. Allur friður á jörð var og varð honum bannaður. Alt, sem hann dreymdi og þráði brást honum af því að hann átti að eins gáfu draumsins og þrárinnar — en skorti óbilandi þrekið og ósigrandi þrautseigjuna. Alt, sem hann náði í hvarf honum — veruleikinn rann eins og sandur út um greipar hans — hönd hans var að eins mynduð til þess að halda því, sem ekki var verulegt. Hann sat í banni lífsins. Og

honum var ókleift að komast nokkru sinni undan bölvuninni — hún var eins og stærðartrje, lífstrje hans, vaxið upp af huga hans og hugrenningum og rætur þess hvísluðust djúpt um jarðveg eðlis hans. Og í skugga þessa bölvunartrjes óx eitrað illgresi: plöntur ógeðs og tortrygðar. Og þegar hann leit í kringum sig innan frá trjáskugganum .... sá hann að eins úthverfu hlutanna.

Er þetta ekki sannleikur, spurði Úlfur sjálfan sig, þar sem hann lá og vaggaðist hægt með veltandi skútunni. — Jú, líklega er það sannleikur, hugsaði hann þrekþrotinn og fanst hann kjarklaus og dauðþreyttur.

Hann lokaði augunum, þau verkjaði af vökum. Hann óskaði að geta horfið — og vaknað aldrei, aldrei aftur — komið aldrei aftur til tærandi kvala meðvitundarinnar.

Hvers vegna ætti hann þá, að halda áfram að lifa? — — Fyrir Margrjeti? .... Hann vissi ekki hvort henni væri betra — að hann lifði .... eða dæi. Hamingja hennar gæti ef til vill lifað áfram — lífi minninganna — ef hann dæi. En ef hann lifði — mundi hún þá ekki fölna í höndum hans? — En hvað það var sárt að vita það ekki .... En sennilega var ekki um annað að gera, en að arka áfram — dragast lengra .... undir byrði óheilla-vanmáttar síns. ....

Æ, Margrjet — Margrjet ....

Hvernig í ósköpunum var hann orðinn svona? — — Nú — það var víst vonlaust að brjóta heilann um það — og hvað stoðaði það. — Megingalli hans var líklega sá, að ekkert samband var milli vilja hans og máttar. Þrá hans hafði ávalt verið leiti framar en geta hans. Ef til vill var hann fæddur örn — en það var þá örn með spararvængjum. — — Og nú lá hann hjer — fallinn af flugum — dasaður draummaður — óalandi útlagi ....

Hann reis þunglega upp og gekk að hásetaklefanum. Hann tók eftir því, að vindinn var alveg að lægja og mintist á það með hálfgerðri uppgerð við háseta einn, sem hann mætti.

— Við fáum að finna hann af annari átt bráðum, svaraði hann. Jeg er smeikur við að það verði vonskuvaka. Okkur hefur verið skipað að hefla seglin meira.

Svo hvarf hann.

Úlfur gekk ofan í hásetaklefann og skreið í rúmið. Skömmu síðar steinsofnaði hann og það raskaði ekki ró hans þó að skútan færi að riða og velta rjett á eftir.

— — — — —

Snemma næsta morguns reis sjera Ljótur úr rekkju eftir svefnlausa nótt. Einhver hugaróró, — undarlega þögul, þokukend, leyniólgandi óró hafði varnað honum svefnsins. Hann þekti hana vel. En honum fanst hún ekki vön að kvelja sig eins mikið og í nótt. Hann var alt í einu orðinn undarlega kvíðinn um son sinn. Eins og loftvog finnur veðurbreytingar löngu áður en þær koma, þannig fann hin næma sál sjera Ljóts ávalt ólánið fyrir — á leynilegan hátt, sem enginn skilur.

Fyrstu morgunstundirnar var hann stöðugt á gangi órór og eirðarlaus. Þegar hitaþunginn í blóði hans bar hann ofurliði um stund varpaði hann sjer á einhvern stólinn eða lagðist á legubekkinn. En hann var ekki fyr setstur eða lagstur fyrir, en hvíldin varð honum líka óþolandi. Hann þaut aftur upp og fór á ný að ganga eirðarlaust aftur og fram um stofurnar.

Hann fór út fyrir húsið til þess að skygnast eftir því hvort sæjust nokkur merki veðurbreytinga. En ekkert sjerstakt var sýnilegt, sem hann kæmi auga á. En það gerði hann ekkert rórri. Loksins kom hugboð hans fram

úr kvíðaþokunni í ákveðinni mynd: — Það verður stormur og Úlfur lendir í lífsháska. Lengra hætti kvíðinn sjer ekki, en það var eins og hann vissi, að hugboðið hefði ekki komið eins í ljós og það var í raun og veru — eins og hann ætti leyndarmál með sjálfum sjer.

Hann reyndi að sökkva sjer niður í ræðuna, sem hann átti að halda, til þess að losna við þennan nagandi, kveljandi kvíða, þó ekki væri nema örlitla stund. En orðin á pappírnum runnu dauð og meiningarlaus fram hjá augum hans.

Alt í einu fann hann fast og ákveðið, að þennan dag lifði hann ekki af — nema með Margrjeti.

Hann reyndi ekki ögn að streytast á móti, fór í frakka og setti upp hatt og gekk til aðstoðarprestsins og var hann undir eins fús til þess að taka að sjer guðsþjónustuna fyrri hluta dagsins.

Þaðan fór sjera Ljótur beint niður að höfninni og eftir nokkra leit tókst honum að finna mann, sem vildi róa með hann út í eyna.

Margrjet varð bæði undrandi og glöð yfir að sjá hann.

— Þú gatst ekki gert mjer meiri gleði, sagði hún brosandi. — En áttir þú ekki að messa í dómkirkjunni í dag? Jeg var að hugsa um að fara yfrum og hlusta á þig, því mjer fanst jeg dálítið einmana, en jeg hætti samt við það. Þakka þjer fyrir að þú komst.

Sjera Ljótur stóð fölur og dálítið vandræðalegur og skimaði um eftir stað, þar sem hann gæti lagt frá sjer hattinn sinn. Margrjet tók brosandi við honum:

— Láttu mig líka fá frakkann þinn, jeg skal hengja hann út í göngin.

Líklega heyrði hann það ekki, því hann settist á stól í frakkanum. Hann fann einmitt í þeim svifum þyt

stormsins, sem í aðsigi var — nú skall aftur gluggi einhverstaðar.

Nú fyrst tók Margrjet eftir því, að eitthvað var að tengdaföður hennar.

— Hefur nokkuð komið fyrir? spurði hún kvíðin, og fann alt í einu að sjer varð þungt um hjarta.

Sjera Ljótur sat þögull og hlustaði.

— Hlustaðu, — hlustaðu, — þaggaði hann niður í henni. Hann er að hvessa.

Í þögninni, sem nú varð, heyrðu þau bæði greinilega, hve þunglega rokið rauk yfir húsið.

— Heldur þú að það verði vont veður? spurði Margrjet og fölnaði — hún stóð kyr, hjelt niðri í sjer andanum og hlustaði á rokmagnið, sem stöðugt jókst.

— Jeg veit ekki, svaraði sjera Ljótur. Á opnu hafi bjargast skip víst af. Jeg kom yfrum til þess að vera með þjer, ef hann skyldi rjúka upp í rok. Maður verður stundum svo heimskulega kvíðinn, bætti hann við og reyndi að brosa.

Svo sátu þau aftur þögul og hlustuðu á vaxandi óveðrið.

— — — — —

Rok hafði verið hjer um bil heila vöku. Úlfur svaf alt af. Hann fór að dreyma undarlega. Hann var einn á bátskel, sem hoppaði svo skringilega á svörtum bylgjum — svörtum bylgjum úr fljótandi mold. Í sama bili brakar og brestur, hvæsir og hvín alt í kringum hann, ofan úr myrkrinu í kringum hann og neðan úr myrkri moldarhafsins .... Svo fyllir bátinn alt í einu, það svaglar og brakar og óp blandast hrópi hans.

Úlfur þaut upp úr rekkjunni. Fyrst meðan hann var hálfsofandi tók hann ekki eftir öðru en því, að vökuliðar skipstjórans voru vaktir, en þeir höfðu sofnað

verðskulduðum sunnudagsblundi. Svo skolaðist vatnið, sem skollið hafði í stríðum straumi inn um klefadyrnar, aftur skvampandi að stiganum. Úlfur var ekki sjóvanur og rak því höfuðið í, þegar skipið valt. Svo þaut hann út úr rekkjunni, þvældist með hinum innan um þröngan klefann, og sá andliti Eldjárns vinar síns bregða snöggvast fyrir. Nú fyrst skildi hann að rok var skollið á og að skipstjórinn hafði komið ofan til þess að kalla á þá upp. Um leið skildi hann af andlitssvip vinar síns, að eitthvað ægilegt hafði komið fyrir áðan, þegar sjónum skolaði inn í klefann.

Hann fór í hendingskasti í jakka og stígvjel — hann var í buxunum í rekkjunni — og þaut út á eftir vini sínum og hirti ekki um, þó hann væri ekki skinnklæddur.

Þegar hann var kominn upp bratta stigann og rak höfuðið út, tók hann andköf af rokinu. Hann tók undir eins eftir því að skipsbáturinn og fiskikassarnir voru horfnir, öldustokknum hljeborðsmegin skolað út, og stórseglið hjekk í tætlum. Þilfarið var ömurlega hreinskolað — og engan annan mann að sjá en Eldjárn skipstjóra, en hann hljóp álútur í löngum stökkum aftur á. Úlfur stóð kyr eitt augnablik, undarleg þyngsli þjökuðu brjóst hans og þind — síðan hraðaði hann sjer aftur á etfir vini sínum. Ný alda skall með skelfingar krafti inn á þilfarið. Hann gat rjett gripið í siglukaðal — það gerði hann einkennilega skýran og rólegan, að honum hafði næstum skolað fyrir borð. Skútan rjetti sig, hann stóð aftur upp og skundaði áfram. Vinur hans stóð við stýrið, magnstola um stund og starði undarlega úrræðalaus í kringum sig, frá seglinu á brotsjóinn og aftur á seglið. Undir eins og hann kom auga á Úlf breyttist svipur hans — varð hörkulegur og ákveðinn, en Úlfur þótt-

ist hafa sjeð augu hans vökna snöggvast, og hann vissi að Eldjárn var ekki auðhrærður.

— Stýrið fór! hrópaði Eldjárn á móti vini sínum, og varð að hrópa af öllu afli til þess að það heyrðist fyrir storminum. — Það verður þungur róður!

— Hvar er „stýrimanns-vaktin“ hrópaði Úlfur fölur og skjálfradda — og hugsaði ekki um annað, en örlög fjelaga sinna.

Eldjárn skipstjóri hristi að eins höfuðið.

— Skolað fyrir borð? spurði Úlfur — honum fundust hnje sín undarlega magnstola.

Í sömu svifum þreif Eldjárn í hann, þrýsti honum upp að stýrishjólinu — og hjelt sjer dauðahaldi með armana utan um hann.

Eldjárn bljes nokkru af sjó út um munn og nasir og hrópaði svo beint í eyru Úlfs í hörkulegum ávítunarróm:

— Já — og svona getur líka farið fyrir okkur, ef við gáum ekki að okkur.

Undir eins á eftir kom vökulið skipstjórans — tíu menn, harðgerðir og sjóvanir á öllum aldri. Þeir voru dálítið fölir vegna vesalings fjelaga sinna — þeir höfðu verið svo lengi á sjónum, að þeir þurftu ekki að spyrja um þá og gerðu það heldur ekki. Annars voru þeir rólegir og næstum höggdofa .Þeir höfðu allir skinnklætt sig, og var auðsjeð á þeim, að þeir voru þess albúnir, að selja lífið eins dýru verði og auðið var.

Eldjárn var undir eins allur á lofti. Hann sá, að ef sjer tækist að halda skútunni undan vindi og hleypa undan inn fjörðinn, gæti hann bjargast inn í Eiðisvík.

— Stýrið er farið, piltar. En eitthvað verðum við að gera og ekki missa kjarkinn! hrópaði hann. Reyni þið

að hala upp stormfokkuna. Fellið seglið. Bregðið reipi um lýsistunnurnar og kastið þeim útbyrðis. —

Skipshöfnin hlýddi skipunum hans með rólegri leikni, Úlfur gerði það, sem hann gat. En hann fann, að þegar svona stóð á — var honum undarlega ofaukið. Alt varð hann að vita. Meðan hinir hreyfðu ekki hönd, svo að ekki væri til gagns og ákveðið, eyddi hann afli sínu að því er virtist mestmegnis árangurslaust og vann það eitt á, að verða þreyttur og skapillur. Svo var hann settur til þess að gæta reipisins um aðra lýsis-tunnuna, en hún var höluð fyrir borð á ótrúlega skömmum tíma. Eldjárn þaut aftur og fram og öskraði skipanir sínar án afláts. Skútan sigldi að hálfu, en rak að hálfu. Það tókst nokkurn veginn að halda henni undan vindi með því að herða og slaka á lýsistunnureipunum á víxl.

Úlfur stóð tímunum saman og gætti að eins reipis síns. Hann hvorki þorði nje mátti rýra athygli sína eitt augabragð. Hann hafði að eins óljóst hugboð um hin dimmu, þjótandi ský himinsins og ljósskæru sólglampana á hvítum veggjunum í landi. Jafn snögglega þutu þau Margrjet og faðir hans gegnum huga hans — þau hurfu um leið og þau komu, druknuðu í einhverjum brotsjónum, sem hann varð að gæta að. Hann tók eftir því, að eiginlega var hann alls ekki hræddur lengur — og undraðist það snöggvast. Kaldur sjórinn, sem þakti allan fjörðinn hvítu löðri, en var ísgrár og grænn, þó hann sæi þá liti að eins næst skútunni, skelfdi hann ekki hót — í rauninni var óþægilegastur úðinn, sem þeyttist sviðakaldur í andlit hans.

Hann var farinn að hugsa sjer að sjálfsagt væri þetta ástand endalaust og yrði hvorki betra nje verra, þegar alda sleit alt í einu aðra lýsistunnuna burtu, reipið var

líklega slitið af núningnum upp og ofan eftir öldustokknum, eða það var eitthvað bilað.

Úlfur heyrði að Eldjárn spurði dálítið þreytulega, hvort fleiri lýsistunnur væru í lestinni — og mátti hann þó vita fyrirfram að svo var ekki. En ef til vill hafði hann gleymt því, hugsaði Úlfur — og fann aftur þreytuþyngslin fyrir brjóstinu.

Skipið staghverfðist undir eins á eftir.

— Við komumst ekki norðan um Viðey, heyrði Úlfur að Hallkell gamli, elsti hásetinn, sagði við skipskipstjórann. — Þeir hljóta að halda þarna inn frá, að við stýrum eins og asnar.

Úlfur gat ekki að sjer gert að hlæja sárt og hvelt — honum fanst það svo skrítið, að gamli maðurinn gæti ekki gleymt sjómensku-hjegómaskap sínum, jafnvel á slíkri stund.

Eldjárn leit undrunar- og ásökunaraugum á vin sinn.

— Þeir fá víst að sjá, hvernig á því stendur — svaraði hann gamla manninum stuttlega.

Úlfur var farinn að halda, að hætt væri við allar stýris-tilraunir og bjó sig til þess að láta sjer það lynda. En honum skjátlaðist — Eldjárn varð aftur áhuginn einn, eftir hið stutta þreytukast, þegar hætta varð að stýra með lýsistunnunum. Hann talaði stöðugt kjark í skipshöfnina — og þegar eitt ráðið brást, ljet hann undir eins reyna annað. En allar tilraunir hans voru sorglega árangurslitlar. Hann hafði vonast til að geta hleypt undan norður fyrir eyna og svo gæti hann ef til vill stýrt drifinu þannig, að hann slyppi hjá suðurhlið eyjarinnar. En hann sá æ greinilegar að hætta varð við þetta — þá rak beint að eynni. Síðan vonaðist hann til þess að geta sloppið inn í víkina suðvestan á eynni og ljet

þess vegna vinda upp pallseglið, þegar þeir voru beint framundan víkinni. En skútan tók engri stjórn sakir sjávarróts og roks — og undir eins á eftir rakst hún á — hana hafði rekið framhjá víkinni. Hún skeltist föst á sker örskamt undan landi með áköfum skjálfta og riði sem nístist gegnum merg og bein skipshafnarinnar. Síðan tók hún að velkjast og veltast og hvítfyrsandi brotsjóir bárust að henni í þrotlausum röðum og brotnuðu á henni og skoluðust yfir hana. Hún byltist hlið af hlið og siglutrjen mörkuðu langa boga í rokmyrku loftinu.

Rjett áður en þeir strönduðu heyrði Úlfur hróp Eldjárns:

— Haldið ykkur!

Úlfur hjelt um siglukaðalinn. Hann sá Eldjárn koma til sín, andlitssvipur hans var hálfstirðnaður, gremjulegur og utan við sig. Hann sagði stuttlega við Úlf, að hann ætti heldur að reyna að komast fram í og klyfra upp í siglubenduna — sjálfur ætlaði hann að vera dálítið lengur aftur á.

Svo tók hann í hönd hans og þrýsti hana snöggvast.

— Ef þeir hefðu nú haft rakettur, þarna í eynni — sagði hann gremjulega. — En nú er ekki um annað að gera fyrir okkur en að missa ekki kjarkinn, halda okkur eins lengi og við getum — og v o n a að við losnum af skerinu.

Úlfur ljet á sjer sjá, að hann ætlaði að vera hjá honum aftur á. En þegar hann sá, að vini sínum var ekki um það, fór hann fram í og klifraði upp í siglubenduna eins og hinir.

Í raun og veru vissi hann, að nú var úti um þá — og að það var skammgóður vermir að halda sjer þarna — en hann hugsaði ekki sjerstaklega um það — það

var eins og sjálfsagt að treyna tímann til lokastundarinnar eins og auðið var.

Skútan vaggaði ákaft vegna veltunnar. Úlfur hjelt sjer með höndum og fótum. Hann lokaði augunum af kvölum og þreytu og hjekk þarna hugsunarlaus og afskræmdur í andliti. En hann hafði óljósa tilfinngu þess, að þessar kvalir væru smáræði hjá sálarkvölunum. Svona hjekk hann lengi, hjelt sjer meðvitundarlaus dauðahaldi, vaggaðist af þrotlausu riði skútunnar hlið af hlið. Rokhvæsið, sem blandaðist nístandi hvinunum í reiðanum þrengdist þjakandi inn í heila hans og átti sinn þátt í því að lama hann.

Í langan tíma hafði hann ekki heyrt eitt andvarp frá fjelögum sínum og í rauninni hafði hann ekki skýra meðvitund um þá lengur, þegar neyðaróp læstist alt í einu gegnum stormhvininn og reiðaháreystina. Hann opnaði ósjálfrátt augun og sá bregða fyrir líkama, sem bylgjurnar luktust svo um.

Atburðurinn hafði engin sjerstök áhrif á hann. En hann vakti hann og hann fór ósjálfrátt að skima í land. Nú fyrst sá hann að ströndin var að eins steinsnar frá þeim. Um stund fylti það hann undarlegu ofboði.

Svo sveiflaðist siglan aftur svo ákaft, að öll hugsun hvarf honum og hann varð að loka augum og bíta saman kjálkunum, til þess að missa ekki taksins. Hann verkjaði afskaplega í hendur og fætur, en gat ekki slept eða breytt takinu eitt augabragð.

Næst þegar hann lauk upp augunum sá hann rjett sem snöggvast, að flokkur fólks stóð á ströndinni: — rjettu megin við hinn hryllilega löðurmökk — þaut honum í hug. Hann sá manni bregða fyrir og elti sá hattinn sinn. Undarlega hörkukendur kaldahlátur hvein í

gegnum brjóst hans, kvalið þreytu og volki — og þeirri hugsun skaut upp í sljóum huga hans, að ástandið, sem hann væri nú staddur í, væri mynd alls lífs hans: örugg ströndin að eins steinsnar frá honum .... og samt ógengt hyldýpi milli hans og hennar. Þegar aðrir mistu hatt — misti hann lífið .... Líf sumra manna er eins og kvalarún, þaut honum í hug. Í svipinn datt honum ekki í hug, að fjelagar hans væru eins illa staddir og hann.

Skömmu síðar, er hann horfði aftur til lands — sá hann manni og konu bregða fyrir og stóðu þau dálítið álengar frá hinum. Hann þekti þau undir eins. Og hann varð lostinn ömurlegustu örvæntingu — inn að dýpstu hjartarótum sínum. Frá þeirri stund fann hann næstum ekki til kvala sjálfs sín — allur kvíði um sjálfs hans hag var horfinn. Sljóar, kveljandi hugsanir um Margrjeti og föður hans, byltust í huga hans, — — og á örskammri stund, sem kvölin gerði þó þrotlausa, þoldi hann allar þ e i r r a þrautir. Hann hafði óljósa tilfinningu þess, að þeim liði ver en sjer. Hann gat ekki hugsað öllu meira. En meðaumkunin með þeim lá sem þung sakarbyrði á huga hans. Hann fann óskýrt til þess að hann átti sök á sorg þeirra, — já, að hann ætti meira að segja sök á allri sorg — allri sorg .... vitfirringarþoka dauðans vafðist fastara og þjettara um kvalaþjakaða sál hans með hverri mínútu sem leið.

Og alt í einu fanst honum sem lífið, óvinur sinn, stæði holdgað í loftinu við hlið sjer og sveiflaðist með sjer erfiðleikalaust.

— Já, nú hefurðu sigrað! nístist fram milli blóðvana varanna.

En um leið og hann slepti orðinu, var hann aftur albúinn — til síðustu mótspyrnunnar.

— Þetta er ekki rjett, hugsaði hann. — Lífið hafði áreiðanlega ekki sigrað. Það var þvert á móti h a n n, sem var sigurvegari. Því þarna hjekk hann .... og vissi að alt var úti — en var samt ekki minstu vitund hræddur við glötunina .... ekki minstu vitund.

Það þaut fagnaðarkend í gegnum hann: að hann skyldi ekki óttast. Loksins—loksins var sigurinn unninn. L o k s i n s var komið ástand sem hann stóðst — ástand, sem hann var maður til þess að þola. L o k s i n s stóðst hann raunina. L o k s i n s sýndi eðli hans, að það átti óbrotgjarnan kjarna. Hann var ekki ræfill lengur — loksins.

Hugsanirnar þutu sem þokukend örskot gegnum huga hans. — En þegar hann slepti og sökk, var hjarta hans þrungið gleði sigursins — og dauðans.

— — Hann slepti takinu síðastur allra, en var alt of sljór, til þess að veita því eftirtekt.

— — — — —

Heima í þröngri og fátæklegri stofu sátu tvær manneskjur og hafði sorg og skelfing lamað hinn frjósama og lífssterka hug þeirra um stund. Það var gamall maður og ung kona.

Þau höfðu kropið lengi, hvort við annars hlið — í bæn til guðs. Og þó svo virtist, sem guð væri fjarlægur og hvergi nálægur í dag .... fundu þau samt, að hann v a r þar,— hjelt sinni hendi yfir þeim — og var þeim nálægur.

Nú sátu þau og störðu framundan sjer. Augu ungu konunnar voru þur og sviplaus og andlit hennar rautt og þrútið af gráti. Allur líkami hennar skalf. — Hún fjekk ekki skilið, að hún skyldi ekki hafa dottið niður dauð eða mist vitið, þegar hún sá hið hryllilega koma fyrir. En það var sem minningin um draum hennar hefði orðið henni að liði á óskiljanlegan hátt. Nú, þegar versta

hviðan var horfin fylti lífið hinn viðkvæma en sterka hug hennar góðum, hlífandi kulda sínum. Hún fann kuldann og vissi um sljóleik sinn .... og hið góða, saklausa hjarta hennar nístist af samviskubiti.

Gamli maðurinn var að sumu leyti rólegri, þrátt fyrir hina afskaplegu kvöl, sem byltist með ekkasogum í hjarta hans. Guð hafði lagt honum raun á herðar — og enginn nema guð einn vissi hve þung hún var — og hann hafði staðist raunina. Þegar hann um stund ætlaði að láta undan — þarna úti áðan — þá lagði guð honum lið — fylti huga hans neista sinnar heilögu visku, gaf honum hugboð um, að það, sem fyrir son hans kæmi nú — væri það besta, sem fyrir hann gæti komið. — Og þó hann hefði s á r a n orðið að viðurkenna, að alt væri í föðurhönd guðs, — þá g e r ð i hann það — — hann sigraði. — Alt sem þú vilt, og gerir, drottinn, er okkur fyrir bestu, hugsaði hann í auðmjúkri, heilagri undirgefnisgæsku sinni. Þú ert sigurinn og lífið. — Við lifum þótt við deyjum. — Þinn er mátturinn og sæmdin — mátturinn og sæmdin og dýrðin. — — — — Með þrotlausri gleði og orðvana kvöl, svo að tárin runnu ofan náföla vanga hans — fann hann að hann hafði sigrað — hafði beygt sig — beygt sig undir vilja drottins síns, hins góða föður síns — hins náðarríka föður mannkynsins ....

En enn þá sat minningin um hönd hásetans, sem á land rak, eins og kvalabroddur í sál hans: skinninu var flett af lófanum og innanverðum fingrunum .... fölar, blóðlausar holdflyksur huldu beinin að eins að nokkru leyti .... Hann þoldi enn þá ekki að hugsa um það, að ef til vill hefðu hendur Úlfs einnig verið svona — áður en hann slepti.

